# Huss-Postilla/

EDUR

EINFALLDAR

# PREDIK-ANER

Yfer øll Hatijda og Suñudaga Gudspiøll
Ared um̄ Kring.

Giørdar Af
Vel-Edla og Vel-Eruverdugum Sal. Byskupenum
Yfer Skalhollts Stifte /

MAG: JONE THORKELS SYNE
VIDALIN.

## Fyrre Parturen̄.

Fra Fyrsta Suñudeige i Adventu / til Trinitatis
Suñudags.

EDITIO V.

Prentud a Hoolum i Hialltadal Anno 1742. af Marteine
Arnodda-Syne.

HINNE
Dijrkeyptu JEsu Christi Brwde
# Christelegre Kyrkiu
GUDS
J ISLANDE/
Minne Hiartkiærre Modur/ Oska eg Fridar og Heilla
Af Sÿnum Vnusta.

## Elskulega Mooder.

ÞAd er bæde Guds Bod og vidteked hiaa øllum Þiodum / ad Børn eru skylldug ad ala Forelldra sÿna / ef þau gieta. Enn Fatækur er eg og Vanburda til þess Mooder ad ala þig / jafnvel þoott ad aungvum af Sonum þÿnum sie þad skylldara enn mier / Þu ert og ecke i þvi mÿns Lids þurfe / þvi Fader þÿns Elskuga og allra hans Brædra / hefur Enda bunded a sÿn Heit / er ritud standa hia Esajam i Fertugasta og Nÿunda Capitula. Konungarner skulu vera þÿner Foosturfedur / Og þeirra Høfdings Kvinnur þÿnar Foosturmædur. Hvørs Naaduga Fyrerheitis ad þu ert ordenn Hluttakande / eins vel og hvør Þiood i CHRISTenndoomenum / og i Krapte þessa Fyrerheitis hefur hann giefed þier / epter Raadstøfun Konunga vorra / marga Gudhrædda og Vÿsa Kiennendur og Forstioora / sem vaka yfer Saalum Barna þinna: Enn þoott eg sie þeirra Verkastur / og kunne ecke miklu vid þeirra Verk ad bæta / Samt veit eg Skylldu mÿna ad þocknast þier i þvi eg kann og maa / epter þeirre Naad sem Gud hefur giefed mier. Eg les i Exodi Bookar Þrÿtugasta og Fimta Capitula / Ad þegar Gud baud Moysi ad laata giøra Vitnisburdar Tialldbwdena / þa hafe hann skipad / ad til hennar skylldu leggia hvør einn epter þvi sem þeir sialfkrafa villdu / Sumer …ull /

Sume.

Sumer Sylfur/ Sumer Kopar og dijrmæt Klæde og Steina/ enn adr Geita-Ull og Hrwta-Skinn / med ødru fleira sem þar umm giefur og var i minna Gillde. Medal þeirra Skijdurstu reikna eg mig/ og mu vel reikna/ søkum Fæfrædis mijns og Overdugleika/ Enn fyrer þvi ad eg veit/ ad þinn HErra mætur meir Viliann enn Mættenn/ þa voga eg ad biooda þier epterfylgiande Predikaner i þacklætes Minning/ ad eg hafe leiged / og ligge enn nu a Briostum þier. Þigg þvi Moder þennan lijtenn Skeink af hinum Aumasta þienara þijns Brwdguma/ og þijnum Minsta Syne / Sem vil æstunda ad finnast

Skalhollte/
Þann 7. Augusti/
Anno 1717.

Hønum Trwr/ Og þig
Af Hiarta elskande allt
til Daudans.

Jon Thorkelsson
Vidalin.

## Til Lesarans.

Epter þvi ad Vel-Edla og Vel-Æruverdugum Herra Biskupenum/ Hr. Steine Jonssyne/ hefur Naudsynlegrar Ordsakar vegna þocknast / ad lata setia þær Citatiur sem a Spatiunne stoodu i þeirre skrifudu Book / sem þesse er prentud epter/ inn i Predikanernar / Þa vil eg hafa Lesarann hier med advarad / ad nær þessar Predikaner Openberlega Lesnar eru / þa skule hlaupa yfer Citatiurnar/ so þær ecke Lesnar sieu. Citatiur eru ei giørdar til þess/ ad þær skule Lesast i sierhvorre Predikun / Þvi þær uppehallda Lesaranum / og giøra Lesturenn Langsamann/ Helldur til þess/ ad hvør sem vill/ kunne ad sia epter þvi sem Citerad er af Ritningunne/ og bera þad samann/ þegar hann Les wt af fyrer siálfann sig. Þetta synest mier Naudsynlegt ad gieta umm vid þa sem Lesa þessa Book. Befalande alla Lesendur og Heyrendur hier med/ Guds Heilags Anda Adstod og Upplijsingu. Og vil alltijd finnast epter Skylldu minne/

Skalhollte/
Dag 9. Martij.
Anno 1718.

Þeirra Viliugur Þienare
J øllu þvi sem mier er af
Guds Nadu tiltrwad.
J. Vidalin.

## Annar Formaale til Lesarans.

Hvert þad Landsplats/ Sem noog Vatn og Vøkva hefur/ er hid Feitasta Rykasta af Avøxtunum. Fyrer þeirre þurru Jørd hefur Akurmadr

ra Erfide og margfalldri Mædu/ eñ lyteñ Avinñing af heñe. Þar sem Guds
noleger Brunar framflioota/ verda Sälernar Avaxtarsamar og Gude þægeleg-
ar: Bruñur Rettskuñar er Ord hins Hærsta Guds/ og þad eilijfa Bodord er heñar
Uppspretta/ Syrach. 1. Cap. Allt þad Vatn / sem framflijtur af þessum Bruñe/
Er lifande Vatn/ þvi ad Guds Ord er Ande og Lijf/ Ja/ Ord þess eilijfa Lijfsens/
Joh. 6. Af þessum Hiälpprædesens Bruñe uppausa Naudþyrstar Säler Vatn
ed med Fagnade/ Esa. 12. Þetta Huggunareñar Vatn framflijtur af þeirre Andi-
legu Jerusalem/ i allar Atter moot Austre og Vestre / Sumar og Vetur / Zach.
14. Vatned Bethesda var upphrært af Englenum / sem i þad nidur stie / og
hvør sem þar fyrstur stie nidur i þad / epter þess Hræring / vard heill af hvørium
hellst Siwkdoome/ sem hañ var halldeñ / Joh. 5. Heilagur Ande hrærer Bruñ
Gudlegra Orda/ fyrer Engla Fridarens / sem ad eru Utvalder Ordsens Þienarar
a Jørduñe/ og laugar i hønum siwk og saurug Mañaña Hiørtu / af hvørium þeir
Trwudu hafa alla Avaxtarsemi til þeirra goodu Verkaña / skiptande sierhvørium
epter þvi sem hañ vill / 1. Cor. 12. Af hvørium þeir eirneñ ødlast Heilbrygde
Sälareñar og allra heñar Siwkdooma / þvi ad hvørke Jurter nie Plästur lækna
þa/ helldur þitt Ord DRotteñ/ Sem læknar alla Hlute/ Sap. 16. Þier kiemur
nu fyrer Siooner/ þu Christelege Lesare/ Ein Nij Hwss-Postilla / Giørd og sam-
añskrifud af Vel-Edla/ Vel-Eruverdugum og Hälærdum Biskupenum yfer Skäl-
hollts Stipte/ Mag. Jone Thorkelssyne Vidalin, og af hønum tilskrifud og dedice-
rud Guds Christne i þessu Lande / a hvørrar Briooftum hañ siälfur i synu merki-
legu Skrife til heñar þættar sig leiged hafa/ og eñ nu liggia / Og so ad hun / er hañ
hefur aled/ skule ecke siälf Purr-brioostud vera / edur Skort lijda / forsorgar hañ
hana nu aptur med þeirre hreinu og Ofølsudu Miolk Guds Orda / af hvørre
hun skule eflast og Upphellde hafa / epter þad hun hefur smackad hvad DRotteñ
er sætur/ 1. Pet. 2. Elge þarf þesse Book med miñar Hroosunar/ þvi hun ber
siälf med sier / nær hun er Athugasamlega leseñ / siñ Lofstijr. J heñe er veitt iñ
til þijns Hiarta hreinum Vatns-Reñum Gudlegra Kieñinga/ hvøriar sa Helvijtske
Holofernes kañ ecke ad upphøggva / so sem sa Jardneske giørde hia Borgeñe Be-
thulia/ Fordum Daga/ Judith. 7. J heñe sier þu/ Christeñ Lesare/ wtflioota af
þeirre Himnesku Hiälpprædesins Hellu/ Guddoomlegar Hugganer / til ad svala þier
i Angist þijns Hiarta/ Psalm. 119. J þessare Book virdest mier/ þeir sem fall-
ner eru/ Sieu med Guds Orde a Fætur reister : Þeir Vanmättugu styrkter : Þeir
Forbrotnu Syndarar Gudlega äminter og til Christelegra Dygda æfyster og upp-
vakter: Þeim sem fyrer Daudanum liggia / vijsadur Vegureñ til Lijfsins : Og i
nu Orde ad segia/ Er þier / þu goode Lesare / kient allt þad sem þig Naudsyn-
lar um/ til þiñar eilijfrar Sälubiälpar. Lät þar fyrer / Vinsamlege Lesare /
þessa Book/ vera þitt Ljoos og Leidarvijser/ epter hvørium þu gänger wr Egypta
Lande þessarar Veralldar/ iñ i þad Himneska Canaan. Eg vil med Audmiwkre
Bæn / epter miñe Skylldu/ styrkia þig a þessare þiñe Vegferdar Reisu / og Daglega
ad Gud Myskunsemdaña hiälpe þier og mier/ so i vorum Christendoome ad
llda / ad vier aller verdum samañsafnader til Guds Sonar hægre Handar a
Dege/ Og vil alltijd finast / miñ Christeñ Brooder/ þiñ Einlægur Fyrer-
bidiare

bidiare til Guds og Þienare. Skrifad a Hoolū i Hialltadal/ þañ 18. A[pril] Anno 1718.

Steinn Jonsson.
Sup. Hol. St.

# Bæn fyrer Predikun.

ÞU Stoore Konungur allrar Veralldareñar / sem byr i þv[i] Lioose er eingeñ fær tilkomiest ; Vier synduger Ormar skrijd[um] um a þessare blessadre Stundu upp wr voru Dupte fram a Skør þiña Foota / til ad Fridmælast vid þijna Guddoomlega Hatign / er vier med saurugum Verkum og Illgiørdum vorum so hrælega moodgad høfum allt i fra Barnæsku vorre. Eñ æ oss Drotteñ / vier erum so vanmegna under Byrde Syndaña/ ad þegar vier gyrnunst ad lypta oss upp i Hædernar til þijn/ þa draga vor eigeñ Saurende oss nidur aptur. Þu hefur ad sønnu fyrergiefed oss margar Synder / og sparad oss midt i þeim allt a þeñañ Dag / Eñ vort Hiarta skielfur i oss og kvijder vid þijnu stranga Rietlæte/ nær vi[er] til þess hugsum/ Ad vier þverbrotnar Mañeskiur høfum so langsamlega forsmaad þijna Myskunseme/og sialfer Onijti so marga Kvittun vorra Synda / er vier þeiged høfum / med þverwdarsamlegre Idkun somu Glæpa og Illgiørda. Hvørt skulum vier þa flija undañ þiñe Hende? Þu uppfyller bæde Himen og Jørd/ Eñ þijn Myskunseme er eins stoor og þu sialfur / Hun hefur øllum þeim vel giefest sem heñar med bliwgu Hiarta og sundurknosudum Anda leitad hafa / Og ef vier sem erum Heystræ / meigum ecke snerta þig/ se[m] ert eirn forfærande Elldur / þa leif oss ad skrijda ad Sonarens Footum / sem er Holld af voru Hollde / og þvo þær i Tarum vorrar I[d]ranar. Eñ æ vor Gud/ Vier vitum ad hañ er i Heimeñ komeñ til ad lækna þad sem krameð er : Hvad kañ þad oss ad gagna ef vo[rt] Hiarta er heillt? Ef þad er hardara eñ nockur Steirn? Þ[ui] Grátbænum vier þig/ fyrer hañs dijru Kvøl og Bloodugar Vnder Sla þu O Herra a þeñañ harda Klett med Moysis Sprota / so Vatns-Straumarner/ Ja/eitt breñande Vatns-Flood meige

t af / til ad þvo vorar Ohreinar Samvitskur : Lat eirn gloo-
Anda brena upp allt Sorp afiarlegra Þanka wr voru Hiarta /
er þitt Mustere/so þyn Ord fae Rwm þar inne. Lat oss ecke hey-
. þad so i Dag / ad þad fordæme oss a sydarsta Deige / helldur gief
..d þad verde Epterlæte Sælna vorra: Lat þess Sætleika burtdryfa
allt Toomlæte og Gæleyse fra oss / so vier vardveitum þad i goodu
og sidsomu Hiarta. Þess bidium vier þig fyrer JEsum Christum
þinn Son med hans eigenn Bæn / Seigiande : Fader vor/ etc.

# Bæn epter Predikun.

O Þu Hæleika Guddoomsens Þrenning / Eirn Gud og Sannur
fra Eilyfd til Eilyfdar : Vier aumer Syndarar liggium
hier flater fyrer Auglite þinnar Hæleignar/ til ad offra þier
Þacklæte vors Muns fyrer þynar Owtseigianlegar Vel-
giørder/er þyn millda Orlætes Hønd oss Opacklætum og Þverbrot-
num Manneskiu audsynt hefur/bæde i Andlegann og Lykamlegann Mata:
a: Enn æ oss DRotten/vier erum so kallder i Bænenne/ad vier Ottast
meigum/ ad þu vilier skirpa oss wt af þynum Munne/ nema þu verm-
er vor Hiørtu. O Vor Gud / Lat þinn gooda Anda/ bidia asamt
vorum Anda / med Ounnrædelegum Andvørpunum / So ad þier lyka
mætte Foorn Vara vorra fyrer JEsum Christum. Vier þack-
um þinne Guddoomlegre Elsku fyrer þitt H. Ord / og þau Hæleitu
Sacramenta/ a hvørium þu foostrad hefur og nært vorar Sæler/ ad
ei skylldum vier wtaf sofna i Daudanum. O Vor Gud/lat vorar
.ar Athafner/ Vort Gæleyse og Opacklæte/ alldrei þvi vallda/ ad
u svipter oss þessare Himneskre Gafu.

Gief ad þitt Ord/sem vier i Dag høfum heyrt & numed/meige bloom
gast i Hiørtum vorum/ so þad fære þann Avøxt er syne sig/bæde i Ord-
m og Verkum/so þitt Hæleita Nafn vegsamest i oss/hvoria þu vird-
ad nefna þitt Foolk og Eigendoom. O DRotten / vort Hiarta
þitt epter Riette Skøpunarennar/ Endurlausnarennar og Helgunar-
ar/ þad er þyn Kyrkia / Enn Heimurenn/ vort Holld / og Diøfullenn
ad festa sinn Foot þar inne / og æ þvi verr / ad þad tekst þeim

framar/ eñ vier gyrnast villdum: O vor Gud/ yferfall þau med þinn Magt/ og tak þyna Eign af þeirra Hende/ so ad þyner Oviner brixle ecke þynum Her-Flockum. Þu Vollduge Konungur / sem ert Sterkur og Mættugur i Striide/ lat hiñ Guddoomlega Krapt þiña Heiløgu Orda verda so ryka i Hiørtum vorum / ad oss velge vid Syndeñe / so sem añare Opekt. Gief þu ad Miñing hiña førnu Glæpaña verde oss so skielfeleg/ ad oss hrylle vid þeim / so sem añare Ofreskiu. Gief oss ad temia vor Hiørtu/ vora Tungu og Eyru a þad sem a ad vera syda vor ædsta Glede og Epterlæte i Dyrd Himnaña/ sem er þyn Elska / þyn Jhugan / þyn Lofgiørd og Þacklæte fyrer þynar Guddoomlegar Dasemder a medal vor / og veit ad vier leggium hid mesta Kapp a/ad framkvæma þad i Verkunum/ sm vier þeinkium i Hiartanu/ tølum med Muñenum og heyrum med Eyrunum/ad ei gaungum vier i þeirre Blindne/ ad hafa Skyn Gudhrædslunar/ eñ afneita heñar Krapte.

O þu Stoore Konungur Himens og Jardar/ vardveittu þiñ Smurda/ vorn Allra-Nædugasta Arfa Herra og Konung/ Hañs Hæbornu Drottningu/ og vorn Næduga Arfa Printz/ og allt þad Konunglega Hws. Vertu Konungsens Skiolldur og Sool/ og eitt ørugt Vyge a moote øllum Hañs Ovinū. Lat Hañs Rykesstioorn farsæla verda/ og gief Hønum langa Lyfdaga: Vmgyrd Hañs Tignar-Stool med Hersveitum þiña Vollduga Engla: Gief Konungenum Hlydna/ Trwa/ Drugga / og Radholla Vndersata: Lat Hañ so stioorna i þynu Vmbode hier a Jørduñe / ad Hañ meige Eilyflega med þier rykia i Himnenum. O Herra JEsu Christe/ þu sm ert hiñ mikle Hyrder Saudaña / fyrer Blood þess Eilyfa Testamentes / vardveittu Kieñendur Ordsens þyna Þienara/ lat þa alldrei gleima þvi/ ad þeir eiga þier Reikning ad standa / fyrer þitt Dyra Blood / med hveriu ad Endurkeyptar eru þær Hiarder / er þu hefur sett þa yfer/ eñ vert þeirra Vernd og Forsvar/ a moote Ogudlegum og Ohlutvøndum Moñum / nær þeir giøra Verk sinar Kallanar trulega: Og troda Andstøtañ under þeirra Fætur. Vor Gud stioorna þu Valldstiette-

ſtiettene/ z þm̄ er i Doomunum ſitia/ Vpplÿſs Hiørtu þeirra/ ad þeir ſkilie Rietteñ / og giefſ þeim Viſku til ad Dæma þitt Foolk / med Vilia og Aſtundan ad giøra þar epter. Tak ad þier O Gud Huſ-ſtioornar Stiettena / Laat øll Egta-Hioon Elſkaſt Iñbirdes i Fals-lauſum Kiærleika/ og uppala ſijn Børn og Hiw i Aga og Vm̄vønd-un til DRottens / Eñ Børnum og Hiwum hlÿdeñ og audſveip Hiørtu / ad þau ſieu Forelldrum og Hwsbændum undergiefeñ i øllu þvi er þeim epter Guds Orde og Lagañ Skylldu tilſagt verdur.

O DRotteñ aumaſt þu alla þa ſem Naudſtader eru / og bera þÿns Sonar Kroſſ a Herdum ſier / Væg þeim vor Gud fyrer hañs Skulld ſem lided hefur/ uppa þad / hañ kyñe ad hiælpa þeim ſem freiſtadur er. Vm̄ alla Hlute fram̄ Grætbænum vier þig Himneſke Fader / Forlaat oſſ vorar Bloodugar Illgiørder og Synder/ fyrer IEſu Chri-ſti ſaaru Kvøl og Pijnu. Miñſt þeſſ / ad hañ fyrer oſſ i Daudañ er wtgiefeñ af þiñe Guddoomlegre Elſku / þegar vier eñ þa vorum þÿner Ovuner. Virdſtu þar fyrer ad gleyma vorum Yfertrodſlum / fyrer hvøriar hañ Fullnægiu giørt hefur / Þar vier fyrer hañ og i hønum erum Børn ordner / Og nær vor Æfe er ad Þrotum komeñ vor Gud/ og vier liggiũ fyrer Daudans Porte/ horfande fram̄ a Veg allrar Veralldar/ Riett oſſ þa þÿna Milldu Hønd vor Gud / og laat oſſ deya med vorn Endurlauſnara i Fadmenum / ſo vier meigum Ei-lijflega med þier og hønum lifa. Bænheyr þetta Næduge Gud og Fader fyrer IEſum Chriſtum / I hvertum allar vorar Bæner eru Iaa og A M E N.

Firſta

# Fyrsta Suñudag i Adventu/ Gudspialled skrifar Matthæus i 21. Capitula.

Þañ Tyma. Og þa er þeir kooku ad nælgast Jerusalem/ og komu til Betphage vid Fialled Olivet i/ wt sende JEsus Tvo syna Læresueina/ og sagde til þeirra: Fared þid i þad Kauptun sem gagnvart ydur er / og strax munud þid fiña Ösnu bundna og Folañ hia hefie / Leysed hana og leided til myn. Og ef einhvør seiger nockud til yckar / þa seiged / þad HErrañ hafe þeirra Þørf / og jafnsnart mun hañ læta þaug laus. Eñ þad skiede so/ ad upp fylltest hvad sagt er fyrer Spamañeñ / er so seiger: Seiged Dottureñe Zion / Siaa / Þiñ Kongur kiemur til þyn hoogvær / sitiande a Ösnu/ og a Fola klifbærrar Ösnu. Eñ Læresveinarner geingu i burtu/ og giørdu so sem JEsus baud þm/ og leiddu med sier Ösnuna og Folañ / og lögdu syn Klæde yfer þaug / og settu hañ þar uppa. Eñ margt Foolk breidde syn Klæde a Veigeñ. Og adrer hiuggu Kvistu af Triaanum og dreifdu þeim a Veigeñ. Eñ þad Foolked sem fyrer þeim gieck/ og Epterfylgde/ Kallade og sagde: Hosiaña Syne Davids/ Blessadur sie sa sem kiemur i Nafne DROTTeñs/ Hosiaña i hædstum Hædum.

## Exordium

Epistlenum til Phil. 2. Kiemst Heilagur Paulus þañeñ ad Orde: Vered eins Synder og JEsus Christus / hvør þott hañ være Guds Mynd/ hiellt hañ þad ecke fyrer Herfang ad hañ Gude jafn var/ helldur lytelæckade hañ sialfañ sig / takande a sig Þræls Mynd / og vardt Mønnum lykur. Þ... [illegible] hañ seiger / Hañ hafe þad ecke fyrer Herfang reiknad / þott hañ G[illegible] jafn være. Þeir ed Herfang teked hafa/ st[illegible]ra sig þar af/ brwka þad til Yfferla[illegible]s / giøra þar af þorkostuleg Sigurmerke/ breita vi[illegible] þa Herleidda sem þeim lykar: So þad var Malshættur þia Grickium/

 ad

ad hallda þann Glut fyrer Herfang / er einhvør brwkade Rykmannlega. JEsus brwkade ecke þannveg Guds Mynd / þott hann være Alls-Raadande / bæde a Himne og Jørdu / Matth. 28. Eckj hafde hann ecke Valld sitt vid yfer aumum Mannesklum / hvørjar hann var komenn ad Endurleysa af Myrkranna Vallde / helldur gjørdest þeim lijkur / ja / þeim Undergiefenn / þolde Mootkiøte og allskonar Hædungar af Syndurunum / Er hann med Audvirdingu þessare Endurkeypte wr Syndarennar Þrældoome / og hiellt ecke Guds Mynd Herfang ad vera / sa hann med sinne Þioons Mynd / feinge Herleidinguna ad Herfange teked / Ps. 68. Enn afklæde hinn sterka Hervopnada Dioful sinne Harnesklu / Luc. 11. og med Hlecklum Myrkranna bijstrad / 2. Pet. 2. Þeger Satan took vora Fyrstu Forelldra til Fanga i Paradys / og i þeim alla þeirra Efterkomendur / þa talde hann þeim Trw um þad / ad ef þau æte af Eplenu / mundu þau Gude lijk verda / Gen. 3. Enn þeu hlijddust a hans Slægdarfuller Fortølur / tijndu þvi Guds Mynd / enn gjørdust Fiandanum lijk / hvernnig þau framar hlijddu enn Gude / og fyrer þetta Raan Guds Myndar / took JEsus uppa sig Þioons Mynd / og hiellt þad ecke so sem Raan edur Herfang þott hann Gude jafn være. Enn þott ad vor Frelsare ecke brwkade sijna Almættis Eign i Manndoomenum / medann hans Lægingar Tijme yfer stood hier a Jørdunne / þa hefur hann samt eitt annad Rijke af Gude og Fødur / sem er hans volldug Stiornan i Christelegre Kyrkiu med Ordenu og Sacramentunum. :: Þar um talar so David under Guds Persoonu. Eg hefe smurt minn Konung og sett hann yfer mitt hellaga Fiall Zion / Ps. 2. Enn þott ad Guds Rijke kome ecke þannveg / ad þad audglatt verde / so sem Christur seiger / Luc. 17. Þa sioum vier þo nakra Lijking þess edur Skuggamijnd i þessa hellaga Dags Evangelio / þar ed JEsus rijdur inn til Jerusalem so sem einn Konungur / ecke einasta til ad uppfylla Spaadoom Zacharie / hvørs hier greened verdur i Gudspiallenu / og þannenn hlioodar / Zach. 9. Seiged Doottureñe Zion: Sia þinn Kongur kiemur til þijn Hoogvær / sitiande a Asnu og a Foln Klifbærrar Asnu. Helldur til þess ad afmerka og utvega sijna Christelega Kyrkiu / sem er eirn Konunglegur Kienneimannskapur / og þad med sijnu eigenn Bloode / hvar um Esajas spaer / Cap. 62. a þennann Hatt. Siaed DRottenn hroopar allt til Enda Jardarennar / Seiged Doottureñe Zion / sia þitt Hiælpræde kiemur. Og søkum þess / Børn mijn / ad þetta Hroop hefur og heirst til vor / sem ad bwum a Enda Verallparennar / og oss verdur ænsamt ødrum þetta Hiælpræde boded / Þa lærum oss af þessu hellaga Evangelio yfervega i þetta Sinn / hvølijkum ad þessa Konungs Undersaatum byrie ad vera. Gud Fader Myskunsemdanna giefe oss Naad sijna þar til fyrer JEsum Christum / A. M. E. N.

## Utleggingen.

HEir munu ecke aller sem til mijn seigia / HErra HErra / Inn ganga i Guds Rijke / seiger JEsus / Matth. 7. helldur þeir sem giora Vilia mijns Fødurs sem a Himnum er. Marger munu þeir vere i Safnade Christi hier a Jordunne / sem eins eru lynder og Jud-

ar fordum Daga/ er søgdu/ Vier vilium ecke lata þessañ drottna yfer oss/ Luc. 19. Þo er Christur allra þessara Konungur/ þvi aller vill hañ ad hoolpner verde/ og komest til Sañleiksins Vidurkeñingar/ 1. Tim. 2. Eñ so sem þad/ ad eirn Konnugur/ hañ er Konungur bæde þess er hañ lætur under Exe draga vegna Glæpa siña/ so sm̃ hiñs er hñ set ur sier a hægra Veg / So eru og bæde Vonder og Gooder i Christi Ryke/ og hañ drottnar eins vel yfer þeim/ til hverra hañ vill seigia a Efsta Deige / Fared fra mier aller Jllgiørda Meñ / Matth. 7. So vel sem hinum/ er hañ kvedur þessum Ordum : Komed blessader mijns Fødurs / og eignest þad Ryke sem ydur er fyrer bwed i fra Upphafe Veralldar / Matth. 25. jafnvel þoott ecke læte þesser hverutveggiu sier eins stioorna af Anda DRottens. Hvad byriar oss þa hier um̃ ad þeinkia Guds Børn? Eg meina ad lata oss um̃hugad vera / ad luka þessum Konunge Skylldur þær sem hañ af oss heimter/ og er su hellsta/ ein audmiuk Hlydne. JEsus baud sijnum Læresveinum/ ad fara i þad Kauptun sem gagnvart þeim var / þar mundu þeir fiña Øsnu bundna og Fola hia heñe / þau skipade hañ ad leisa og leida til sijn. Þeim hefde mætt til Hugar koma/ ad ei være Skipun þesse svarleg/ þeir mundu Aræsum mæta/ ef þeir tæke svo añara Mañs Eigur O-adspurt/ eñ þr fæst ecke um̃ þad/ helldur giøra sm̃ þm̃ boded var. Giør slikt hid sama Christeñ Madur/ læt einskis Bod edur Bañ vera þier jafnskyllt sm̃ þijns Guds / Hlydne er betre eñ Offur seiger Ande DRottens/ 1. Sam. 15. Heyr hvad hiñ Eingetne Sonur Guds seiger/ þegar hañ iñkiemur i Heimeñ/ Psalm. 40. Offur og Foornfæring ar þocknast þier ecke / Eñ mijn Eyru hefur þu i giegnum stunged / Brennefoorner og Synda Offur villtu ecke/ þa sagde eg/ Sia eg kiem/ i Bokeñe er skrifad af mier/ þiñ Vilia miñ Gud giøre eg giarna. Hver Davids Ord S. Pall til Hebr. 10. heimfærer uppa vorn Endurlausnara. Hafe nu hiñ Eingietne Sonur Fødursins/ vered hønum so hlydeñ / hvør þo med siñe Forþienustu hefur sialfum sier eckert forþienad/ hvad miklu framar ætter þu Gude ad hlydnast/ sm̃ hønũ ecke einasta Sæl z Lijf skylldugur ert/ helldur z þar ad auke Ofal thu þu

 sinnd

fund Punda/ Matth. 18. z þau so mørg/ ad þu alldrei fær þm loked þaß sidasta Pening / ef hiñ Stoore Konungur Himens og Jardar viñ Reikning hallda ? Hvad þa Christeñ Madur ? Muntu ecke uñ alla Hlute fram skylldur honū ad hlydnast/ sm fyrer þig hefur allt þetta golldet/ so Gud hefur uppgiefed alla Skulldena/ ad ecke yrde þier kast ad i hin ystu Myrkur/ eñ straffad hañ sm var hreirn z heilagur/ z fra skilen Syndurunū? Hebr. 7. Ja/ hañ hefur hñs Eyru i giegnū grafed / eins og Þræls þess er ecke villde laus verda a Fagnadar Areñu / Exod. 21. hvørn hñs Hwsbonde mætte festa a Eyranu vid sñ Dyrastaf / ad hañ være hañs Þræll upp þadañ Æfenlega. Muntu neita honū þiñar Þienustu/ er þvilijka Smæn hefur lided þier til Frelsis/ þar þo Christi Þræll ad vera/ er einsomis Frelse/ og hañs Þienusta/ er ollu Herradæme ædre. So þad er sañkveded/ er sa Guds Madur orte fordū. Kong miñ JEsu eg kalla þig/ kalla þu Þræl þiñ aptur mig/ Herra-tign aungva ad Heimsins Sid/ helld eg þar meiga jafnast vid. Þvi seiger og Paulus/ Rom. 8. þier hafed og ecke medteked Þrælkunar Anda aptur til Hrædslu/ helldur hafed þier medteked Arfleidslūñar Anda / fyrer hvørn vier køllum Abba Fader/ Rom. 8. Eñ ef vier Børn erum / þa erum vier og Erfingiar / Ja / Erfingiar Guds og Samarfar Christi/ Rom. 8. Eñ seiged mier/ Hvad munu øll Rijke Veralldareñar vera ad reikna vid þad/ ad eiga Arfskiptꝛe vid hañ/ sem Gud ecke alleina hefur giefed Endemørk Veralldareñar til Arfleifdar/ Psalm. 2. helldur og sett hañ sier til hægre Handar / Psalm. 110. og mun leggia alla Ovine hañs til Footskarar honum / 1. Cor. 15. O hvørsu blind er þa Mañeskiañ? Meñ leggia allt Kapp a/ ad komast i Tigeña Mañа Þienustu/ hvar þo Thu þioona fyrer eins Lucku a stundum/ so margur mæ þioona leinge ædur eñ hñ kiemst til þess sm þo er i sialfu sier ecke añad eñ Þrældoomur / og i giegnum miteñ Þræ;ldom brýst Fævitska Mañsins til añars meira/ hvar þ geingur optlega miøg Andhælis til/ so ad þeir sem dyggvaster vered hafa og Drotteñ hollaster/ þeir fæ hina verstu Ufreid a stundū/ eñ þr eru i Hæwegum er a Svikrædū sitia / Eñ ad gioørast Hyrdmadur Christi /

stcika

skeika faer uñ/ jafnvel þoott hn̄s Þioonusta stande øllum til Boda / Þar er ei Gydingur nie Grickur/ecke Þræll nie Frelsinge/ ei Rijkur nie Fatækur/ei Bijs nie Bankuñande frafkileñ/helldur eru þar aller eitt i Christo JEsu/ Gal. 3. Eñ þess er ad giæta/ Børn mijn/ ad sa sem vill ganga Christo til Handa / hañ skal ecke kvijskipta Hiarta sijnu / helldur giefa hønū þad allt. Ecke seige eg þad/ ad hvør eitt skule ei þiona i þeirre Kallan/hvar til hñ er kalladur/ eda Undergiefeñ skule ei Undergiefeñ vera/ þvi sa sem giører Verk siñar Kallanar/ hñ þionar Christo sm̄ þad hefur boded/ hañ sem Yfervalldenu hlijdnast/ hañ giører og Christi Skipan/ er sagt hefur : Giefed Keysaranum hvad Keysarans er / Matth. 22. og hañ sem leikar Næringar siñar med ærlegu Erfvide/ hñ hlijder hønum er þad Bodord gaf/ J Sveita þijns Andlitis skalltu þijns Brauds neyta / Gen. 3. Nitt seige eg / ad sa sem vill þessa Konungs Þegn vera / hañ leite fyrst Guds Rijkis / og hñs Riettlætis/ Matth. 6. og mete eckert af þessu jafnframt hønū/ miklu sijdur hlijde añara Bode edur Fortølum mier eñ hañs. Seiged mier / hefur ei Gud boded ad Foreldrana skyllde heidra hvad mest af Møkum/ og lagt Bølvan vid / ef nockur þa vanheidrar ? Devt. 27. Eñ þo seiger JEsus/ Sa sem Elskar Fødur edur Moodur/ framar mier/ hañ er mijn ecke verdugur / Matth. 10. Gud hefur skipad / ad Madureñ skyllde yfergiefa Fødur og Moodur / og samteingiast siñe Egta-Kviñu / Gen. 2. Eñ hvad seiger Moyses hier uñ ? Devt. 13. Ef þiñ Brooder / Sonur Moodur þiñar / Edur Sonur þiñ / edur Doottur þijn/ edur þijn Eigeñ-Kona/ sm̄ hvijler i þijnu Skaute/ edur Vinur þiñ/ sa sem er eins og þu/ vilia locka þig/ seigiande: Latum oss fara og dyrka añarlega Gude/ þa skalltu drepa hañ/ þijn Hønd skal vera fyrst a moote hønum / til ad deyda hañ / og sijdañ alls Israels. Nu kynie Einhvørium i Hug ad flinga/ hvilijker skulu þa Christs Þegnar vera ? Meiga hønū ecke þioona nema Syndlauser og Heilager Meñ? Þ em eg ecke/og giet ecke vered/ a medañ eg life i Holldenu/ þvi eg em Daudlegur Madur/ under Syndena selldur/ Rom. 7. Og þegar eg vil giøra hid Gooda þa loder þ Vonda vid mig : Hvad


skal

skal eg hier til seigia? þo eg sie skylldur Christo ad þiona af ollu Hiar-
ta/ þa giet eg þad ecke/ þvi þad Gooda sem eg vil giora/ þad giore eg
ecke/ enn þad Vonda sem eg vil ecke giora þad giore eg. Neyr Christenn
Madur/ Guds Sonur er i Heimenn komenn til þess/ ad kalla Synduga /
enn ecke Riettlæta til Ydranar/ Matth. 9. Være Von a þvi/ ad vier
giætum fullnægt Guds Logmæle / þa være Christs Forþienusta oss
Onaudsynleg. Enn ecke hefur Gud sent hann i Heimenn til þess/ ad vier
mættum þess Ohultar synda/ ecke yfergnæfer hanns Nad i Christo þar
til/ ad vier skulum i Syndunum lifa/ Rom. 6. helldur hefur hann þar
fyrer lided Kvol og Dauda/ ad hann visse/ ad vier mundum med Syndenne
Guds Nad og Vingan optlega af oss briioota. Þar fyrer seiger Jo-
hannes .1. Pistl. 2. Born myn / þetta skrifa eg ydur til / ad þier
syndgest ecke / enn ef nockur syndgar / þa hofum vier Tals-Manenn
hia Fodurnum JEsum Christum hinn Riettlæta. Enn giæted þess
Christner Menn/ ad Syndenn er marghættud. Þar eru Synder sem verda
ad Ovilia/ & af Fævitsku/ umm hveriar Guds Logmal so talar/ Num.
15. Ef nockur Sala syndgast Ovitande/ þa skal hun Foornfæra Ars
gamalle Geit fyrer Syndena/ hvilijk var Synd Pals/ er hann Offsookte
Guds Sofnud/ fyrer þvi seiger hann/ eg hefe Myskun hloted/ af þvi eg
giorde þad Ovitande i Vantru/ 1. Tim. 1. Item Abimelechs/ er hugde
ad taka Saram Abrahams Husfru Frillu-take / og visse ecke ad hun
var hans eigenn Kona/ Gen. 20. Adrar skie af Brædræde einu/ þa Mann
eskiann sem er hneigd til hins vonda/ giefur sier ecke Stunder til ad læta
Guds Anda edur Skynsemena vid sig ræda/ so sem þegar Moises sloo
Helluna tvisvar/ Num. 20. Þegar David hiet ad farga Nabal/ og
ollu Kallkyns i hanns Hwse/ 1. Sam. 25. Þegar hann Foolked talde/ 2.
Sam. 24. Og þad er þad sem Paulus kallar/ Gal. 6. ad verda yfer-
stygenn af einhverre Yfirsun. Nockrar verda og af Mannlegum Breisk-
leika/ hvar ad jafnvel Guds Bornum fylger/ æ so leinge þau bera epter
sier þenann daudlega Lykama/ & þeru þar Giorningar syndugs Manns/
sem Holldid og Andenn eru ad glijma umm / og gieta alldrei sællst þar
uppa/ hvi ad hvort stryder a moote odru/ Gal. 5. Og þar fædast þegar
Andenn

Andenn lætur sigrast af Holldenu/ og verda hier imser under/ þvi verr/ ad su Synd sem i oss byr/ hvøria Postulenn Holld nefner/ Gal. 5. hun verdur optlega sterkare. Þetta verda a stundum þungar Synder /og sierdeilis Guds Børnum nærre Obærelegar/ Enn þo reiknar Gud þær ecke Endurfæddū Manne til Dauda/ þegar þær med hreinnre z alvarelegre Ydran fyrer Lausnarans Forþienustu bætlar verda. Hvar fyrer? þvi þar er einginn Fordæming hia þm/ sm eru i Christo JEsu/ þeim sem ecke epter Holldenu ganga/ helldur epter Andanum/ Rom. 8. Enn þr kallast ecke ad ganga epter Holldenu/ sem med Andanū leitast vid ad deyda Holldsins Gyrnder/ jafnvel þott tilbere ad þ fae Yfer-Hond/ allt so leinge Menn giefa þvi ecke Taum/ þad Menn þioone þvi i þess Gyrndum. Og þvi seiger David/ Psalm. 19. Hvør skilur hvad opt hn̄ villest/ Afleis mig af myn̄um heimuglegum Syndum/ og hallt Þræle þynum aptur fra Þvermoodskūe/ ad þær drottne ecke i mier/ þa mun eg Heill verda. Nu eru þar adrar Synder/ sem Madurenn/ ecke einasta giører med fullū Asetninge / um hveriar DRottenn talar. Num. 15. Su Saal er drygger Syndena med uppriettre Hende/ (þad er med asettu Raade) hun vanvirder Drottenn/ þvi hun foracktade hn̄s Ord/ og Ongtte hn̄s Bod/ helldur og lata þeir Syndena drottna i synū dauðlegū Lykama/ fyrer utan alla Baraattu a moote henē / z lia Limu synna hene til Vopna/ hvøria hun brwkar med Siaalfskylldu Andskotanū til Þioonustu/ enn Drottne til Stigdar/ sa sem eirn Handverks-Madur sitt Verkfære. Þesser eru þeir/ er JEsus kallar Þræla Syndarennar/ Joh. 8. Og þann veg eiga ad skiliast Ord Joh. 1. Ep. 3. er hn̄ seiger/ ad sa sm drygger Syndena/ hn̄ sie af Dioflenū. Hinn Agiarne þeinker ecke um̄ annad/ enn hvernig hn̄ meige fylla sitt Hws af annars Sveita med Rietku og Raungu. Þioofurenn/ sm er hn̄s Stall-Broder / hyggur ad / Vakenn og Sofenn / hvernig hann stela meige. Hinn Dramblate þenur sig wt sem annad Laarberia Trie/ Psalm. 37. Hann nytur ei Svefns nie Matar / ef einhvør hann virder minna/ enn hann þootte byn-ur. Hinn Metorda giarne sparar aungva Jllmensku til þess ad tillaster upp i Virdingarnar. Joab sveifst ecke ad taka Lyfed af Abner og

Amas-

Amasa/ og þo med Flærd og Svikum/ til þess ad hn̄ sie Ohultur um̄ Nafnbætur synar. hin̄ Ofundsiwke etur sitt eiged Hiarta. Hn̄s Orm ur sofnar ecke ef hn̄ sier ad nockrum geingur vel/ hn̄ eyrer aungu nema einhver steite sig/ ꝛ hefur aungva Skiemtan nema af an̄ara Olucku. Hin̄ Bakmæluge fiskar i an̄ara Avirdingum/ hn̄ leitar smæsmuglega epter þvi sem ødrum yferseſt/ han̄ þeinker sig um̄ / hvørnen̄ han̄ fæe einhveriu þar lyklega vid auked / og giører tyu Pund af einu/ þvi sem Andskoten̄ hefur hønū i Hendur feinged. Ligaren̄ spinnur sitt Verk af synū eigen̄ Ydrum eins og Kongulooen̄ / og brytur Heilan̄ til ad liosta þvi upp/ s̄ alldrei er Tilhafed. Hin̄ Flærrade grefur eina Grøf Bake brotnu til ad steipa hinum Einfallda þar i. Allt þetta vitna þr ed so eru synder med Astundan/ fyrer utan̄ allan̄ Guds Otta / edur nockra Mootstødu i giegn Andskotans/ Heimsins og Holldsins Vielū. Þesse er sakka Syndena drottna i synum daudlegū Lykama. Og þetta er su Þvermoodskan̄ er David bidur Gud ad hallda sier aptur fra/ Ps. 19. Ad sønu er þad satt/ ad Guds Sonur er fyrer þessar Synder dæmen̄ / þvi hn̄ er Forlykun fyrer allar Veralldaren̄ar Synder/ 1. Joh. 2. hvad ꝫ audsied er af Dæme Manassis Konungs/ 2. Par. 33. hin̄ar Bersynd ugu/ Luc. 7. Ræningians/ Luc. 23. ꝛ an̄ara længtū fleire: Þo er næsta hætt vid þvi / Brædur myner / ad slyk Ydne Syndan̄a sem Madurenn̄ temur sier ān allrar Ydranar/ ān alls Otta þ Guds straungu Hoot-unū/ ān alls Asetnings til Apturhvarfs/ edur og med Hiegoomlegre Raadagiørd/ ad ætla sier þa ad ydrast/ þegar oss gott þiker/ sm̄ kan̄skie seint þike/ edur þegar oss Synden̄ leid verdur/ er mæskie alldrei verde/ ad þesse Ydia og indruckenn̄ Vane til syndsamlegs Athæfis / meige snuast upp i fraleitt Sin̄e/ Rom. 1. upp i forbren̄da Samvitsku/ 1. Tim. 4. um̄ hvøria Paulus talar / Eph. 4. ad þeir gange i Hie-goma syns Hugskots formyrkvader i Hugrunū/ fraskilder Lyfe Guds/ fyrer þ Þeckingarleyse sm̄ i þm̄ er/ sokū Hardwdar þra Hiarta/ hvør ier þa þeir høfdu mist alla Tilfin̄ing/ gæfu þr sig til Lausungar / ad fremia allan̄ Ohreinleik med Agyrne / so sem voru Pharao/ Judas / Achithophel/ og þr adrer sm̄ Postulen̄ kallar sialfdæmda/ Tit. 3. En̄

þad

Þad seige eg i Guds Stad/ og i umbode hans Eingietens Sonar JEsu Christi mijns HErra/ hvørt eg a Hende hefe/ ad jafnvel þott ad Naaden yfergnæfe Syndena/ þa er sa aungvañveigeñ Konungsins Christi riettur Þegn/ nie sañur Limur hañs Kyrkiu/ er vijsvitande og ydrunarlaust fram fer i Syndū og Glæpū/ med þvi Mooke sem ádur hefe eg sagt: þvi Guds Sonur er til þess i Heimeñ komeñ/ ad kalla Synduga til Ydranar/ Matth. 9. eñ ecke til þess ad þeir skule syndga uppa Naadena/ til þess ad Meñ skyrest i hans Nafne til Ydranar/ Act. 2. eñ ecke til Athugaleysis nie Vndañdrattar/ til þess ad þiona hm̄ i Endurnyungu Lijfdagaña/ eñ ecke til þss ad giefa Dioflenū hiñ mesta Hluta þra/ eñ ætla Gude hiñ sydarsta Part Æfeñar/ sem eingeñ veit nær þrytur. Eg veit ad þr sm̄ komu um̄ elleftu Stund i Vijngardeñ/ feingu jafnt vid hina/ sem bored hofdu Hita og Þwnga Dagsins/ Matth. 20. eñ þu hefur kalladur vered um̄ siøttu og nijundu Stund/ hvad veistu af þvi ad þu muner na hiñe elleftu/ muntu kuña Gud þ þ/ þott hñ læte þig hafa jafnañ Hlut med þm̄ til hverra sagt var: Eingeñ þra Maña sem bodner voru munu smacka mijna Kvølldmaaltijd/ Luc. 14. Villtu heimta þ af Konunge Himens & Jardar/ þu s ecke ert einasta Mold & Aska/ helldr Landraadañ sekur vid hiñ lifanda Gud/ ad hñ liete kvelia siñ eingieteñ Son til þss/ ad þu þss tryggvar mætter i allre Ohæfu þiona Fiandanū/ hvør ad er Guds svareñ Ovinur. Er þ ecke noog/ ad hñ hefur læted grepta þig fyrer Skyrnena med Christo til Daudans (þ. er til ad deya Syndeñe) so ad lijka sm̄ Christur er uppvakeñ fra Daudū fyrer Dyrd Fødursins/ so kuñer þu ad ganga i Endurnyung Lijfdagaña. Reined þar fyrer Christner Meñ/ hvørt þier erud i Trwñe/ 2. Cor. 13. hvada List þier hafed til goodra Verka/ Hvørn Leida a Syndeñe/ og ef þier fiñed Brest a slijku/ þa gæted ad ydur i JEsu Nafne/ forsmaaed ecke Rijkdoom hñs Þoleñmædis og Langlundargieds/ helldur gæted þar ad/ ad hñs Giædska leider til Ydranar/ so ad þier ecke safned ydur Reide a Dag Reideñar/ og Guds Riettlætes Doms/ Rom. 2. hvør Eyru hefur ad heyra hñ heyre Þad/ og bidie Fødur Liossaña/ fra hverium ad kiemur øll good Giøf/

og øll Fullkoomeñ Giøf/ Jac. 1. ad giefa sier Ydran til Saññleikssins Peckingar. JEsu Læresveinar løgdu Klæde sijn yfer Asnuna/og settu hañ þar uppa/ Þra Dæme fylgde Folked / er breidde sijn Klæde a Weigeñ. An alls Efa hefur þßu til Mugar komed/ ad JEsus munde i þ Stiñ ætla ad upprietta hid jardneska Jsraels Rijke/ þvi þ var Mallt ur Gydinga ad breida þañeñ vid þa sem nijlega høfdu Skiootn teked/ Hvad sia maa af 2. Reg. 9. Þegar Spamañsins Þienare hafde smurt Jehu til Konungs / þa breidde hvør af hñs Herra Þienurum sitt Klæde under hañ a þad hædsta af Trøppunu/ z søgdu: Jehu rijk-er. Og þo nu ad bæde Læresveinarner og Folked/ villtust i þessu/ þa er þ samt skied af Drottne/ til ad teikna þar med hñs Konungs Tign/ hvørn Gud Fader hefur smurt yfer sitt heilaga Fiall/ Psalm. 2. Eñ giæt ad þvi Christeñ Madur/ ad þesse Konungur Dijrdareñar rijdur hvørn Dag iñ til siñar Borgar/ sm er Christeleg Kyrkia/ z so sm hñ er eirn andlegur Konungur/ so og er hañs Rijke andlegt/ þviad Vopn Herfarar vorrar eru ecke Lijkamleg seiger Paulus/ 2. Cor. 10. helldur Kraptur Guds til ad nidurbriota Gyrdingarnar. Hañ kiemur til vor i Ordenu og Sacramentunu/ i Krapte sijns Heilaga Anda/ sm straffar i Mañenu Syndena/ uppvekur Ydranena/ ebler Truna/ kveiker Elsk-una til Guds/ iñræter Kiærleikañ til Naungans/ verkar Þolinmæd-ena. Þegar þu christeñ Madur/ fiñur i Hiarta þijnu nockrar þßhætt-ar Hræringar / þa vit þad/ ad sa Drottnareñ er þar komeñ til sijns Musteris/ sm Malachias um spaer/ Cap. 3. Þegar Phariseí spurdu Drotteñ ad fordum Daga/ hvenær Guds Rijke kiæme / Svarade hañ þm: Guds Rijke kiemur ecke so þß giætt verde/ þeir skulu ecke seigia/ Sia þad er þar/ edur sia þ er hier/ þvi siaed/ Guds Rijke er iñe hia ydur/ Luc. 17. Gud kiemur ecke i Hiorsu Mañaña/ eins og Herodes og Bernice fordum/ med stooru Yferlæte/ Act. 25. Sia þiñ KOnung-ur Kiemur Til Þijn Hoogvær / seiger Gudspialled. Þoott Christur bwe i Himnenu/ þa bijr hañ under eins i sundurkrømdum Hiørtum / Esa. 57. JEsus sagde fordum vid Nicodemum/ Vindureñ blæs/ og þu heyrer hñs Þit / eñ þu veitst ecke hvadañ hañ kiemur/ edur hvørt-

hañ

hañ ser / so eru og aller þeir sem af Andanum fæddter eru/ Joh. 3.
Nu er Endurnyungeñ Doottet Endurfædingareñar/ bædar koma af
Anda Guds sm̃ verkar i Mañenũ fyrer Orded : Eñ ecke veit hañ edur
skilur med hvøriu mote hiñ alvitre Gud þ Verkar / Verkanena siñur
hañ/ eñ Verkunareñar Mæka skilur hñ ecke. JEsus reid einũ Asna
iñ til Jerusalem / og so þocknast Gude a stundũ margañ þ fafrooda
Predikun hoolpeñ ad giøra/ 1.Cor.1. Eñ þegar hañ so viliar þyn/
syndugur Madur/ þa breit epter þessu Folke: Þeir breiddu syn Klæde,
a Veigeñ. Eñ hvørneñ fær þu þad epter þeim giørt : Pad kieñer
St. Pæll/ Eph.4. Afleggeð þañ gamla Mañeñ/ epter hiñe fyrre
Umgeingne/ sem fordiarfast i Gyrndum Villudoomsins/ eñ endurnyiest i Anda ydar Hugskots. Afklædunst þyssũ Illskuñar Ham/ og køstũ
hønum fram fyrer Fætur JEsu: Hønum byriar þo med øllum ødrũ
hñs Ovinũ ad leggiast til Footskarar hønũ / þvi ecke er þvilykur Ovinur Christs næst Fiandanum/ so sm̃ Holldeð/ hvørs þænkar ad eru
Reide z Fiandskapur i giegn Gude. Eñ Iklædunst einũ nyũ Mañe/sm̃
epter Gude er skapadur/ i Riettlæte og Heilagleika Sañleikañs/Eph.
4. Minnunst Elskañleger a þad/ad JEsus Christur Konungur Dyrdareñar/hañ var flettur synum Klædum/og hñs blessadur Lykame var
Allsnakeñ reirdur vid Stoolþañ i Þyng-Hwse Pilati / hvar hañ var
Hudstryktur / til þess ad vier yrdum frelsader fra eilyfum Hudstrokũ
i ytstu Myrkrum / eñ Iklædder nyum hvytũ Skruda med Pælmavidum i vorum Høndum/ Apoc. 7. Ja / þetta allt hefur hañ þolad til
þess/ad vier mættum hønum Iklædast/ so sm̃ Paulus seiger/Gal. 3.
Skylldũ vier þa ecke leitast vid ad deyda vora Jardneska Limu/sem er
Saurlifnadur/ Ohreinleike/ Gyrnd/ Illfyse og Agyrne/ hvør ad er
Afguda-Dyrkan/Col. 3. Sierdeilis þar Gud hefur oss sialfur Vopneñ i Hendur feinged/ hvør Paulus kallar Lioossens Vopn / Rom.13.
og Guds Alvepne / Eph. 6. Pad ætlar Heimur þesse / ad hañ hafe
eingeñ Not Lyfsins/nema hañ life ad Munudum synum/so sem væru
Meñ alleina þar til i Heimeñ borner/eins og Petur seiger/2.Pistl.2.
Ad þr sieu eins og Skinlaus Dyr/sm̃ ana fram epter þvi sm̃ Nætt-

uran bydr/ alleina til þess skøpud/ ad þau slætrud verde/ nær þau faungud eru/ og er Lijking þesse ægiæt/ þvi so sem Villudyren ecke um akad hyrda/ en ad fylla Magann/ og verda þar fyrer a stundu tæld og lockud med adskilianlegum Veidebrellum/ þar til þau eckert af vita/ fyrr en þau hafa Fooken i Snørunne. So eru og hr ed um eckert skeita/ nema um Lijkamans Epterlæte/ Fijsn Augnanna/ og drambsamlegt Lijferne/ 1. Joh. 2. Þeir giæta ecke ad fyrr en Sælen uppvaknar i Helvijte og Kvølunum. Hvad Postulenn greinelega um þa seiger / er Rijker vilia verda / ad þeir falle i adskilianlegar Freistingar og Snørur og Gyrnder / heimskulegar og skadlegar / er steypa Mønnunum i Tapun og Oluckur/ 1. Tim. 6. En þeir sem Christo tilheira / þad eru þeir sem eru hans Trufaster Nyrdmenn og Læresveinar / þeir Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum / Gal. 5. og hroosa sier ecke nema af Christi Krosse / fyrer hvørn þeim er Heimurenn Krossfestur / og þeir Heimenum/ Gal. 6. Þegar Menn rada einn Þienara til Vistar/ þa giøra Menn Skilmala vid hann/ hvad hann vinna eige/ og hvad hn fa skule i sijn Verka Laun. So hefur JEsus giørt/ Luc. 9. Hann sagde fyrer øllum Mønnum/ seiger Gudspiallamadurenn: Hver sem mier vill epterfylgia/ hann afneyte sialfum sier/ og take Daglega sinn Kross uppa sig og fylge mier epter. Hann sagde þad øllum/ so aller vita mætge/ hvørs þeir vænta eige i hans Þienustu. Hann seiger Daglega/ so ad hr sem Gud hefur ønguann utvortis Kross a Herdar lagt/ skule þo vera vidbuner ad Krossfesta sitt eiged Holld / og deyda sijna Jardnesku Limu / Gal. 5. so ad þann vante ønguann Christi Kross / sem vill under Christs Merke strijda/ edur ganga a Mala med þessum Konunge/ þvi þad stendur þo Oraskanlegt um Alldur og Æfe/ ad i gegnum margar Hørmungar byriar oss inn ad ganga i Guds Rijke/ Act. 14. og er hans Þienusta þo þvi betre/ en allra annara / ad þoott hun þyke hørd Adgaungu/ þa er hans Ok satt og hans Byrde liett/ Matth. 11. þvi hann hiaalpar sialfur til ad bera/ hann er trur og freistar einkis yfer Megn fram/ 1. Cor. 10. Satleike Guds Nadar/ og Smeckur epterkomande Farsælldar/ deyfer so Remmu Krossens fyrer Guds Børnum/ ad þeir giæ-

ter

ker ecke. Eg heyre ad Paulus z Sylas eru glader i Fangelsenu/ Act. 16. Postularner geingu fagnande ut fra Radenu i Jerusalem/ þegar þeir H udstrykter voru/ Act. 5. Jeg heyre ad Paulus Oskar/ ad Festus Landsdoomare og Agrippa Konungur væru eins Men og hn/ ad þm Hleckiunu undankeknu er hn var bunden med/ Act. 26. hvoria hn hefde þo ecke lated fyrer alla Dyrd Verålldarennar / hefde han att annars hvers a mis ad fara. Þess Stiftis var Pyslarvotturenn Babylas/ er beidde ad grafa sig med þm Hleckiu er hn var leiddur til Aftokustadarens med / so ad ecke vantade han sitt Brudarskart i Vpprisunne / Euseb. Lib. 6. Cap. 36. et 40. So lyted ackta þeir sem vel hafa smackad hvad sætur ad DRottenn er/ Ps. 24. So lyted ackta þeir hvorsu med þennan forgeingelega Lykama er hondlad. En vilie Menn epter spyria / hvor ad Launenn sieu i Christi Dyrdar-Ryke / þa seiger han sialfur / Matth. 5. Sæler eru þier nær Mennerner hallmæla ydur og Offsokn veita/ og tala i gegn ydur alla Vondsku fyrer mijns Nafns Saker/ þo liugande/ Fagned þier og vered glader/ þvi ydar Verdkaup er nooglegt a Himnum. En hvada Verdkaup Brædur mijner? Hvilykt ecke hefur Auga sied/ og ecke hefur Eyra heyrt/ og ecke hefur i nockurs Mans Hug edur Hiarta komed/ 1. Cor. 2. Þad er þad Verdkaup er DRottenn hefur tilbued þeim er han elska. Hvor sem nu saman ber þa litlu Hormung / er vier þola meigum i Christi Nadar-Ryke/ og þa Ovmrædelegu Sælu / er han mun launa oss med i sijnu Dyrdar-Ryke/ Han mun jata med Postulanum/ ad Mootlætingar þessara Tijma sieu ei verdar þeirrar Dyrdar/ sem fram vid oss mun koma i eilijfu Lijfe/ Rom. 8. O JEsu unn oss þessarar farsælu Vistar med þier Eilijflega. O JEsu/ lat oss vera þar sm þu ert/ Joh. 17. O JEsu / virdstu ad þurka oll Tar af þinna Barna Augum/ Apoc. 7. O JEsu lat vora Hrygd snuast i Glede/ Joh. 16. O JEsu/ gief ad hvorke Lyf nie Daude/ hvorke Einglar nie Hofdingia-Dæme/ hvorke Hæd nie Dypt/ nie nockur Skiepna/ kunne ad skilia oss vid þann Kiærleika / sem er i þier/ Rom. 8. Og lat oss þier alldrei sleppa/ þar til þu blessar oss med eilijfre Blessan / og vier

þig aptur med eilÿfu Hosianna i hædstum Hædum. Bænheyr þad DRotten JEsu. Þier med Fødur og Heiløgum Anda/ sie Lof/ Prÿs/ Magt og Vellde/ um̃ Allder Allda/ Amen.

## Annañ Suñudag i Adventu.

Gudspialled/ Luc. 21. Cap.

Þañ Tÿma. JEsus sagde til siña Lærisveina: Þar munu skie Teikn a Soolu / Tungle og Stiørnum / og a Jørdu Kvalning Þioода og Orvinglan/ Sioor og Bylgiur munu hlioода / og Meñ munu fyrer Hrædslu uppkorna / og af Epterbÿdingu þeirra Hluta / sem ad koma skulu yfer allañ Heimeñ. Þviad Krapkar Himnaña munu hræraſt : Og þa munu þeir siaa Mañsins Son komanda i Skÿunum med Magt og miklu Vellde/ Eñ nær þetta tekur ad skie / þa stÿted upp og upphefied ydar Høfud / af þvi ad ydar Endurlausn tekur ad nælægiast. Og hañ sagde þeim þessa Epterlÿking : Skoded þier Fÿkiu-Tried/ og øll øñur Tre/ nær þeirra Alldin tekur ut ad sprÿnga / þa vited þier ad Sumared er nælægt. So lÿka nær þier siaed þetta skie/ þa vited ad Guds Rÿke er nælægt. Sañlega seige eg ydur/ þad þesse Kynsłood mun ei forganga/ þanngad til ad allt þetta skier. Himeñ og Jørd munu forganga/ Eñ mÿn Ord forganga eige.

## Exordium.

EG Dæme aungvañ seiger JEsus/ Joh. 8. Hvad er þa þad hañ seiger/ Joh. 5. Fadereñ dæmer aungvañ/ helldur hefur hañ Synenum allañ Doom i Hendur feinged. Tvent hær til þess Bræđur mÿner / ad DRotteñ talade þesse Ord fyrer Gydingum / þad eina ad þeir dæmdu um̃ hañ epter ytre Asynd/ þar þeir søgdu skøm̃u ædur : Þu ber sialfur Vitne um̃ þig / þiñ Vitnisburdur er ecke gylldur / Eñ hañ svarade þessu medal añara / Þier dæmed epter Hollldenu / eg dæme aungvañ / hañ meinte epter Holldenu. So var og añnur / ad hañ i þad Siñ ecke var komeñ til ad læta Doom ganga yfer Illar Athafner Mañaña/ þvi Illgresed enu byrlade ad vaxa allt til Kornskeru Tÿmans / Matth. 13. Eñ ei ad sÿdur var þo DRotteñ komeñ til Dooms a Jørdu/ so sem hañ sialfur vottar / Joh. 9. til þess ad þeir Siaende yrdu / er ecke siaa/ og þeir ed siaa/ skylldu Blinder verda/ og er þad audvitad hver ad sie þesse Doomur / og yfer hverium hañ gieck / sem voru þverbrotner Gydingar / hverier ei villdu JEsum þeckia fyrer Guds Son / af þvi Kraptaverkenu/ er hañ giørde a hønum/ sem Blindur var boreñ/ Joh. 9. Eñ Dooms

ureñ

uren var þesse / Ep þier værud Blinder / þa hepdud þier ecke Synd / en nu seged þier : Vier siaum / þar pyrer blyfur ydar Synd / og þoott Doomuren sie so Riett vijs / ad eckert sie Riettvijsara / þa er han þo nasta þungur og hrædelegur / þvi han er Vndanpare hins Ognarlega Dooms / er a hinum mikla Deige alls Holldz mun an Myskunar ganga yper alla þa / sem ecke hapa trwad a DRottenn JEsum. Þvi so segier Guds Sonur / Joh. 3. Hvør sem ecke trwer / han er þegar dæmdur / aþ þvi han trwde ecke a Napn Eingietens Sonar Guds. Þesse hinn strange / en þo Riett verduge Guds Doomur / gieck yper hinn vesæla Gydinga Lijd ad miklu Leite / þegar þeir høpdu uppeyllt Mæling Syndarennar. Þess gietur Pallus / Act. 28. Ee han strappar Þvermoodsku þeirra / seigiande : Þar pyrer sie ydur Vitanlegt / ad Hialpræde þetta er Heidingium giepid / og þeir munu þad heyra. Þessarar mikilu Guds Nadar erum vier og Hluttakande ordner / er bwum under hinu ytsta Heimsins Skaute / Þennan skielpilega Doom yper Guds eigen Foolke / høpum vier og heyrt: Enn giætum ad þvi er Pall seiger til Heidingiana / þeirra er vid Christne tekned høpdu : Vel / þeir eru pyrer Vantrwna apbrotner / seiger han / en þu stendur pyrer Trwna. Stær þig ecke / helldur vert Ottasleigenn / Rom. 11. Satt er þad sem DRottenn seiger / ad han sem ecke trwer / sie þegar dæmdur / Joh. 3. Enn þvi trwa Menn ecke? Þvi Menn koma ecke til Ioossens. Þvi koma Menn ecke til Ioossens? Þvi Menn Elska meir Myrkred enn Ioosed / aþ þvi ad þeirra Verk eru Vond / Joh. 3. Þad tykier Innvællt ad sopa a Rodda Athugaleysesins / sem Andskotenn dillar sijnum Bærnum a / med hans gamla Vøggu-Kvæde / er þanen latur: Hvar er Fyrerheit hans Tilkomu / 2. Pet. 3. So hepur þad gienged i pra Upphape Veralldar / og þar pyrer eru Menn so treger ad vakna vid Guds Orda Basunu / þar til Daudans edur Doomsins Basunu Hlood tekur yper / og ecke er vært ad sopa leingur. Enn Gud vekur sijdan med Eilijpu Ope og Tanna-Gnijstran i Helvijte. Hvør þad heyrer / han hygge þar ad / og giære þess er Pall sagde til þeirra i Athenu Borg / Act. 17. Gud hepur tilsett einn Dag / a hvørium han dæma mun alla Jardarkringluna med Riettlæte pyrer þann Mann er han hepur pyrerhugad. Þar pyrer vil eg læta mitt Tal vera i þetta Sinn / hvad oss eige ad leida til þess ad bwa oss under hinn sijdarsta Dag / sem vær ecke vitum / nema ad Morgne uppreñe. Hialpe hier til / O þu Allsheriar Doomare pyrer JEsum Christum / AMEN.

## Vtleggingenn.

ÞAr munu Skie Teikn a Soolu og Tungle og a Stiørnum. Þad sijnest audrmaded vera / Brædur mijner / ad ecke mune Endurlausnarenn hafa talad þetta so vegna Lærefveinanna edur Foolksins / er hiä i þad sinn nælægt var / þvi jafnvel þott ad þr til samans hafe i þrre Meiningu vered / ad hinn sijdarste Dagur munde vera skamt i burtu / so sem sia mä af sumu þvi / er þeir hafa skrifad epter sig læted / þa hafa sijdann mørg Hundrud Ar lided allt til þessa Dags / Helldur er þad sagt vegna

vegna vor/yfer hvoria lijklegt er/ ad Heims Endered sie komen/ Fyrer þvi ættum vier / ecke siþst med Agg og Andvara ad vænta Tilkomu Drottens / þvi ef Herrans Postular ætludu a þeim Døgum/ ad hun munde so nælæg vera / hvorsu miklu nær mun hun þa vera oss / er so miklu sijdar lifum. Eg hygg ad Teikn þesse flest/ er Lucas giefur uþþ i Evangelio / mune ecke fiarlæg Doomenum verda/ helldur nærre i sama Vetfange / þvi Herran seiger hier / ad vier munu þa Sia MAnsins SOn komanda i Skiju Himens / og er audsæt / ad þess mune ecke længt ad bijda ur þvi ad allt þetta skiedur / sem ma skie ei anad verde en Storbrot Veralldarennar / þegar Himnarner munu med Stoorbrestum forganga/ og Høfudskiepnurnar af Hita brædna / 2. Pet. 3. Hvad medal annara ma þar af ræda/ad Jesus seiger/ Marc. 13. Ad um þann Dag vite eingen Madur / og ei jafnvel Einglar a Himnum. En ef Teikn þesse skiedu rumum Tijma fyrr enn Himen og Jord forganga/ þa kynnu þeir ed a Jordu bua/ad vita nockud hier um/hvad St. Petur forsekur/ 2. Ep. 3. er hann seiger / Ad Dagur DRottens mune koma sem Þioofur a Nootttu: En Þioofurenn giør er aungva Vitneskiu undan sier / annars være hann ecke Þioofur / So er og Dagur DRottens / Þvi eins og Tælsnara mun hann koma yfer alla þa sem a Jordu bua / Luc. 21. Drage þvi eingen sialfan sig a Tælar/ edur meine/ ad af þvi ad þesse Teikn sem Lucas skrifar um i Gudspiallenu/ eru enn nu ecke øll framkomen/og vier merkium aung va Umbreiting a Soolu / Tungle og Stiornum / adra en hun vered hefur i fra Upphafe Veralldar/ epter veniulegu Nattturunnar Hlau pe/ ad Drottenn mune þar fyrer seinka/so sem nockrer kalla þad Sein læte seiger Petur / 2. Pet. 3. Helldur er hann þolenmoodur vid oss / viliande ei ad nockur fyrerfarest / helldur ad aller snuest til Yorunar.

Læstum oss ei þvilijkt i Hug koma / Brædur mijner / þvi þad eru Spottarana Þankar/ er hann seiger ad upp mune rijsa a sijdurstu Døgum/ þeir ed ganga i sijnum eigen Girndum/ seigiande , Hvar er Fyrerheit hans Tilkomu/2. Pet.3. þvi sijdan Fedurner sofnudu/þa er allt hid sama so sem fra Upphafe Skøpunarennar. Og hann dylur ecke

ecke hvar fyrer ad syndugū Mønnū/ sem alla Hlute mæla / epter Fræ-
fræde Spillingarennar og Smæmunum vorum/ sm̄ þiookum upp eins
og Gufa/enn lijdum i burt aptur a Augabragde/ Hvar fyrer/ seige eg/
ad oss þyke so langt ur verda er hn̄ talar um̄ þetta sama Efne/ seig-
iande: Enn eitt sie ydur vitanlegt Elskanleger/ad eirn Dagur er fyrer
DRottne so sem þusund Ar/ og þusund Ar so sem eirn Dagur. Enn
þeir ed þetta ecke samannbera vid Guds Fyrerheit/þm̄ þyker so sm̄ ad
hann tefie og sie brygdmæll ordenn / so er þad og vijst/ ad jafnvel þoott
ad bæde St. Pæll og adrer lijse þvi/ ad Heims EndeUser være yfer þa
komenn/1. Cor. 10. þa hefur ecke Postulenn vænt hn̄s so brædlega/ þar
hn̄ seiger/2. Tess. 2. Þier skulud ecke skielfast fliotlega i Hugskotū yd
ar/nie trublast/hvørke af Anda nie Orde/nie af Sendebrefe/ sem vier
hefdū skrifad/eins og Dagur Drottenns være nær þvi komenn: Kannskie
þess vegna/ ad einhvør hafe teked sier Ordsøk af hanns fyrra Pistle til
þra/ad skielfa veikar og Istøduliтlar Samvitskur/þar ed hn̄ skrifar:
Eg hef ei Þørf ad skrifa ydur um̄ Tijma og Hentugleika / þvi þier
giørla viteð/ad sa Dagur Drottenns mun koma/sem Þiofur a Nottu/
þegar þeir seigia: Þar er Fridur og Tryggleike/þa er þeim skyndeleg
Foreydsla nærre / so sem Jood-Soott þungadre Konu / 1. Tess. 5.
Lætum oss þvi ecke Andvaralaust lifa/ Brædur mijner/þott DRottenn
dvelie/þvi Komande mun hann koma og ecke seinka/ Hebr. 10. Enn vier
vitum ecke/ a hvørium Tijma ad hann kiemur/ ad Kvølldе Dags edur
um̄ Midnætte/edur þa Hanenn galar/edur snemma Morguns/so ad þeg-
ar hann kiemur hastarlega/ad hann finne ydur ecke sofande. Þad eg seige
ydur/þad seige eg øllum/seiger DRottenn/Vake þier/Marc. 13. Lætū
ecke vora Ydran bijda epter Soolarennar Formyrkvan / þvi þegar hun
allra sijdarst tekur ad forkna/mun Ydranar Tijmenn ute vera/hun hefur
so leinge þionad oss i Heime þessū/ so leinge afmarkad tilsetta Tijma
af Gude/og bored Vitnisburd um̄ hn̄s Visku/ hn̄s Dijrd/hn̄s Giæ-
sku og hn̄s Almætte / so leinge hefur hun skyned yfer Ogudlegann He-
im þennann/ so leinge upprunned yfer Ranglæta og Riettlæta/ ad aller
hafa haft nogann Tijma til ad ydrast/og leita Guds Nadur enn þad sijd

arsta Myrkur byrger hennar fagra Lios/ so hun mun upp þadañ alldrei ad Eilijfu skijna. Nun hefur alldrei fra Veralldar Upphafe formyrkvast a mooke Nattúrunnar Edle/ nema øllu Einu-Siñe/ þegar Himen og Iørd byrgdu þ Augu sier/ og so sem skielfdust vid ad horfa þar a/ ad þra Skapare var eins og ein Bølvan a Krossenn uppheingdur/ Matth. 27. Eñ ef hin Nattúrlega Sooleñ miste sijna Byrtu af þvi/ ad Sool Riettlætesins formyrkvadest um Stundarsaker/ hvad er þa ad undra þott hun afldeilis blind verde / þegar hañ kiemur i Skyñ Himens med hañs heiløgu Þusundum/ Judæ Pist. v. 14. Ja/ þegar þeir munu fyrer hiñ hærsta og skiædasta Riett kallader verda/ sem Konung Dijrdarennar hafa ad niju Krossfestañ/ og Sattmalañs Blood almeñelegt hallded / med hvøriu þeir helgader eru/ Heb. 10. Lat þier þetta jafnañ fyrer Augum vera / Syndugur Madur / þegar þu sier hid blessada Heimsins Lioos / sem alla Verølldena upplijser/ þu sier hana i Dag upprenna/ þacka Gude þar fyrer/ eñ þu veitst ei hvørt hun nu mune sijnu veninlega Takmarke ad Kvøllde Dags/ þu sier hana i Ægeñ ganga/ og ad Tungled og Stiørnurnar taka aptur ad lijsa/ eñ þu veitst ecke nema a þeirre sømu Nootku rene upp Jacobs Stiarna Christur/ Num. 24. añad Siñ / sem bæde Sool og Tungl mun formyrkva og ad aungvu giøra/ og Stiørnunum af Himne ofañ steipa/ so sem þa eitt Fijkiutrie kastar sijnu Avøxtu fra sier/ nær þad hristest af Stormenum. Lat þar fyrer Soolena ecke underganga þijna Vonsku. Tru ecke so Natur-Myrkrunum fyrer þier/ ad þu miñest ei vid Soneñ/ a medañ þu ert eñ a Veige med hønum/ so ad hañ verde þier ecke reidur / Psalm. 2. Ef kañskie hañ byrtest i Skyum Himens a þeirre sømu Nootku. Haf þiñ Lampa tendradañ/ sem er Lioos Truar þiñar / ad ei verder þu utelokadur / þegar Brudgumeñ kiemur um Midnætte/ Matth. 25. Hlijd Bode Peturs er hañ seiger/ 2. Pet. 3. Þar fyrer Elskanleger/ þar þier bijded epter øllu þessu/ þa kostgiæfed ad þier hreiner og Ostraffanleger af hønu fundner verded med Fride/ og hallded Seinlæte Drottens til Reidennar/ ad vera Hialpræde. Eñ hyggiñ ad þvi/ hvørsu ad hañ mun Obærelega strangur og hardmadur

ur

ur verda øllum Gudlausum og þverbrotnū/ er sier hafa a Rœdarkūm-
anum Reide safnad. Hañ mun ei koma so sem fordum Daga/liggian-
de i einū Stalle/ ecke so sem þier heyrdud Fyrra Suñudag / Sitiande
a Asnu/og a Fola klifbærrar Asnu/ Matth. 21. Ecke so sem hñ var
utleiddur af Þijnghuse Pilati/berande eina Purpura Kapu og Þyrne
Koronu/ Joh. 19. Eñ þeir ed allt þetta hafa ad aungvu haft/ þeir
munu sia hñ so sem eirn strangañ Doomara. Elldureñ breñur fyrer
hañs Auglite allt til nedsta Helvijtis / Deut. 32. J honum munu
Himnarner sundurglidna/og Høfudskiepnurnar smelltast/ 2. Pet. 3.
Krijngum hañ mun geysa eitt hrædelegt Stormvidre/ Aller hñs megt
uger Einglar munu honū fylgia/og hñs heiløgu Þusunder um̄hverf-
is hñ skijna / med skielfelegre Høfud-Eingelsins Basunu mun hañ
kalla Lifendur og Dauda i Lopted upp til mots vid sig/ 1. Tess. 4. og
eingeñ Skiepna mun standast hñs Tilkomu/ Mal. 3. Þa mun Sool-
eñ formyrkvast / af þvi ad Guds Forsmænarar geingu formyrkvader
i Huxunum søkum þeirra Þeckingarleysis / vegna Hardudar þeirra
Hiarta/ 2. Tim. 3. Þa munu Kraptar Himnaña hrærast/af þvi þeir
hafa so tijtt syndgad i Himeneñ / og forsmad hañ sem i Himnenum
byr/ þa mun verda a Jørdu Angist og Rædleysa Þioodaña/so sm̄ þa
Sior og Bylgiur hlioda/sm̄ vite þær ecke hvar þær eige ad falla edur
hvad af sier ad giøra/þañeñ mun allt Hollo verda i Tilkomu Drottens.
Þegar Jeremias spaer um̄ Babylons Eydeleggingu/ þa dunar hñ so
sem eitt Reidar-Slag a þeñañ Hatt: Þeirra Bylgiur munu dyna/
þeirra Raddar Hliood mun verda so sem mikilla Vatna / Jer. 51.
Eñ hvad miklu meira mun verda Oskur hiñar stooru Babylon Ver-
alldareñar / þegar hun hrapar i Dijked þad / sem vellur af Ellde og
Breñesteine/ Apoc. 21. med øllū þeim sem druckner eru af Vijne heñ-
ar Hoorunar/ Apoc. 17. O / hvørsu fegner munu þa þeir/ ed smad
hafa hiñ Fatæka JEsum og hñs Limu/i Velmagt siñe hier a Jord
uñe/ hvørsu giarna munu þeir þa vilia hafa sadt hañ / þegar hañ
hungradur var/ svalad honum/er hñ þyrstur var/hijst hñ/þegar hañ
Giestur var/ klædt hñ/þegar hñ Nakeñ var/vitiad hñs/ þegar hñ var

Siukur og i Myrkva-Stofu/ Matth. 25. Hvørsu lyted munu þeim gagna þa Metord þau/er þeir keyptu fyrer Guds Vinættu/ Epterlæte Heims þssa/er þr møttu framar eñ Drottens Kross/ Eigner og Bugardar/fyrer hvøria þr selldu Sæler sijnar / Sveite Daglaunarans/er þeir hafa iñehallded/Hus Ekkiunar z hiñs Fodurlausa/er þr hafa utsoged/Braud hiñs Einfallda og Naudstadda/er þr hafa svikted under sig med Okre z Rangsleitne? Hvad lyted mun allt þetta duga þeim/ nær Verølldeñ z øll hennar Dyrd og Hoffragt stendur i biørtu Bæle/Eñ hiñ Riettlæte Himens z Jardar Konungur vill segia upp Doomeñ med þessu skielfelega Atkvæde: Fared fra mier bølvader i eylyfañ Elld/sem fyrerbueñ er Diøflenū z øllum hñs Arum/ Matth. 25. O DRotteñ vor Gud / hvørsu mun hañ þa Ognarlegur verda i Augū fordæmdra Maña/er ecke eiga framar neinnrar Nadar Von? Manoha og hañs Kviña sau Guds Son/er hañ stie upp i Foornar-Elldenum / og hañ meinte þau mundu þar fyrer deyia / Jud. 13. Esajas/ sa Gud sitiande a hāum Stoole/ og hønum fiellst Hugur/ so hñ sagde: Vei mier/eg mun uppræktur verda/þvi eg hefe saurugar Varer/ z by a medal þss Folks/er saurugar Varer hefur/þar eg hefe sied Drotteñ Allsheriar Konung/Esa.6. Israels Syner beiddu Moisen ad ganga uppa Fialled og tala siña vegna vid DRotteñ / Exod. 20. Þegar Guds Reider sloou i Horeb / og søgdust eige framar gieta heyrt Raustena DRottens Guds sijns. Daniel sa Christū vid Flioted Chid-Dekel/ og þar var ecke Mættur i hønū/øll hñs Fegurd umbreittest/ so hañ hafde aungva Krapta / Dan. 10. Læresveinarner urdu Otkaslegner/ er hañ kom til þeirra ad lycktum Dyrum/Luc.24. Þesser voru þo aller Guds Viner / þeim byrte hañ sig i Nad siñe og Giæsku/ þo kuñe ecke Breisklette Holldsins ad standast Nalægd Guddomsins/hvad mun þa vid Ovine Drottens skie i Domenum? Þegar hañ utheller þeirre Reideñe i einu Augnablike / sem þeir hafa safnad sier a Reideñar Dag / Mañ epter Mañ um alla Æfe. Þegar Josua hiñ ypparste Kieñemadur stood þ Eingle þess mikla Rads z Andskoteñ hønū til hægre Handar/ til ad mootstanda hm i Jerusalems Bygg-

ingu/

ingu/ þa stood hañ i saurugum Klædum/ þar til DRottẽn took hañs Rænglæte fra hönum/ Zach. 3. og var þa Guds Sonur hñs Tals-Madur. Eñ hvørneñ munu aller Gudlauser verda/ þegar þeir standa fyrer Domara alls Hollds/ þegar Gud sialfur æklagar/ eñ eingeñ afsakar/ þegar Rænglæted ei framar verdur burt teked/ helldur tilreiknad? Þeir munu standa Skömeñe Jklædder/ Psalm. 109. Og um Allder Allda utrekner fra hiñe Himnesku Jerusalem/ Apoc. 3. Johañes seiger/ þeir drecka af Vijne Guds breñande Reide/ og kveliast med Ellde z Breñesteine i Augliti heilagra Eingla og Lambsins/ Apoc. 14. og þr munu aungva Roo hafa Nott nie Dag/ þeir munu eta Tungur sijnar ut af Ofraun/ og lasta Gud Himensins ut af Kvøl og Særendum sijnū/ og þeir munu Daudans Oska / og hañ mun fra þeim flija/ Apoc. 9. J ollu þessu fæ þeir ecke eirn Dropa Vatns til ad kiæla med Tungu sijna/ Luc. 16. Þetta er ad søñu Ognarlegt ad heyra/ Brædur mijner/ eñ þad er þo Guds Ord sem ecke kañ ad liuga/ eñ ef þad kañ ad ofbioода nockrum ad heyra alleina/ hvad mun þad þa vera ad sia og reyna/ Ecke hefur Guds Ande forgiefens talad þetta/ og so skÿrlega uppteikna læted/ eckert af Guds Ordū mun a Jørdu falla/ Himen og Jørd forganga / eñ hañs Ord forganga alldrei / Luc. 21. Tak þau þvi duga þier til þess / ad þu verker þijna Sæluhiælp med Ygg og Otta/ Phil. 2. ad ei komer þu i þeñañ Kvala-Stad/ edur stert varbueñ vid hinum sijdarsta Deige / sem þu ecke veitst nær ad þier upprenur. Hugleid Christeñ Madur / hvad JEsus seiger/ Joh. 12. Hvør sem forsmæer mig/ og medtekur ecke mijn Ord/ hñ hefur þañ sem hñ dæmer/ þad Orded sem eg talade/ þ mun dæma hañ a sijdarsta Deige. Vert þvi ecke Ygglaus edur Ohræddur Barn Guds/ þegar þu situr under Heyrn hñs Orda/ þvi þar er þiñ Domare/ þad mun a hinū efsta Deige uppskætt verda/ hvørneñ þu hafer epter þvi leked/ hvørneñ þu hafer epter þvi lifad/ hvørsu fws þu hafer vered a ad heyra pad/ hvad vandlega þu hafer med þ høndlad/ i hvad goodu z sidsømu Hiarta þu hafer geimt þ/ hvørt þu hafer fært þar Avøxt af i Þoleñmæde/ Luc. 8. Allt þvilijkt verdur bert þegar Bækurnar verda upplætnar



nar

nar i Doomenum / Apoc. 20. Og epter þvi munku dæmdur verda. Þvi so seiger Paulus / Ad DRotteñ mune dæma leynda Hlute epter sïnu Evangelio a sÿdarsta Deige fyrer Christũ JEsũ/Rom.2. Seig mier/Barn Drottens: Munder þu þora ad forsmaa þañ/er ætte ad dæma um̃ Lïf þitt edur Æru/ edur svara hõnũ fullum Hælse/sierdeil-is ef þu þig sekañ visser/og þier uggvænt þætte/ad þu munder falla a Maalenu? Þad þorer eingeñ ad giøra. Ecke eru Dæme til þess/ad nockur hafe so bited Hofuded af Skomeñe. Eñ þad þora Meñ ad seigia/ad Prestar seige so margt/þ sie ecke allt satt/jafnvel þott þeir ra Embætte sie DRottens/og þeirra Verk/þeirra Guds/Esa.49. Þetta voga Meñ ad seigia og hugsa under Heyrn Guds Orda/sm̃ eiga ad dæma þa a sÿdarsta Deige. Veistu ecke sagde Pilatus/ad eg hefe Valld til ad Krossfesta þig/ og Valld til ad læta þig lausañ/eñ hañ laug/ þvi hañ hafde eckert Valld yfer hinũ Alvallda Konunge / nema hõnũ hefde vered giefed þad af Himnum ofañ. Eñ Christur hefur til þess Valld i hñs heilaga Orde/syndugur Madur/ad fordæma þig/ ef þu kastar þvi a Bak þier aptur/ og so til ad læta þig lausañ/ ef þu hlÿder þvi. Hvar fyrer læta Meñ þa hid goda Ord Guds/so sem Vind um̃ Eyruñ þioota? Meñ hrædast allañ Voda / eñ Guds Ord ecke/ þier þyker þeim Tÿma vel vared/er þu giefur skoted þier undañ þess Heyrn/ og munder þar kañskie alldrei koma/ nema þu meir ottad-est Meñena eñ Gud/Eñ munku og giefa skoted þier undañ hinũ sÿdar-sta Dome/hvar þu skallt þo af þßu sama Guds Orde dæmdur verda. Og fyrst þu villt ecke heyra Christ/þar ed hañ seiger: Komed til mïn aller þier sm̃ erfided og Þunga erud þiender/ eg vil Endurnæra ydur/ Matth.11. Þa skalltu þo heyra hñ a sÿdarsta Deige/ hvørt þu villt edur ecke/er hñ seiger/ Fared fra mier aller Illgiørda Meñ. J einu Orde ad seigia / þar er eingeñ Hlutur sem meir ætte ad hvekia upp syndugañ Mañ til ad fuast vid Daudañs/eñ sialft Guds Ord/hvørt hñ mun dæma/epter hvøriu hñ mun dæmast/ꝫ fyrer hvørs Forocktun hñ mun dæmdur verda. Sie þ þier kient ꝫ predikad af hinũ Aumasta ꝫ Vesælasta/af einũ Fatækũ og lïttkuñande/hvør halldeñ er þ Afrak

og

& Hreinsun Verralldar/ forsmaa þ eige ad helldur/ ef þ eru Guds Ord hn̄ hefur i Munne/ & hn̄s Evangeliū/ er sagde til sinna Postula & allra þra er leitast vid ad feta i þeirra Footspor/ og hans Vmbod a Hende hafa: Hvør sem forsmaaer ydur/ hann forsmaaer mig/ en hvør hn̄ mig forsmaaer/ hann forsmaaer þann er mig sende/ Luc. 10. Jaa/ þoott þad sie frammbored af einhvørium / sem eckert giører af þvi hann kienner / þa kannast þo þar vid/ ad Jesus sagde til sinna Læresveina: A Moisis Stoole sitia Skriftlærder og Pharisæi/ allt hvad þeir segia ydur ad vardveita/ þad vardveited og giøred/ en epter þeirra Verkum skulud þier ecke giøra/ þvi þeir tala og giøra ecke/ Matth. 23. Hvør sem nu umm þetta vandlega hugsar/ hann mun þess betur færa ad buast vid þessum hrædelega Deige/ med Daglegre Ydran og Apturhvarfe fra Syndum og Glæpum/ og þad þess helldur/ sem lijklegra er ad DRottens Tilkomu sie ei all-langt ad bijda/ þvi þott þau Teiknen er Lucas i þessu Gudspialle ummtalar/ sieu en þa ecke øll frammkomen/ og lijkast sie/ ad ei frammkoma mune fyrr en under sialfann Doomenn/ þa geingur þ eins til hier/ so sem fyrer dauðlegum Manne/ ad Helsottenn er leinge ad bua umm sig i hn̄s Lijkama/ aadur en hun slijtur Lijfed af honum. So hefur og Gud openberad oss i sijnu H. Orde nockur Teikn/ þau er a sijdursti Døgum skie munu/ og eru Vite hins efsta Dooms/ er vier vel meigum þeckia og vidkannast a vorum Døgum. Christur seiger/ Matth. 24. Ad Evangelium Rijkesins skule predikast umm allann Heim/ til Vitnisburdar øllum Þioodum / og þa mune Endarenn koma. Sijmed hvørsu Guds Orda Domur skal yfer alla Menn ganga/ þar eru og miøg faar Þioder nu i Heimenum/ a medal hvørra ei hefur skined Lios Evangelij/ þott aller hafe ecke vid þvi teked / Hann gietur umm þar mune verda Hungur/ Drepsoott og Jardskialftar i øllum Stødum / Matth. 24. og kallar þad Upphaf Hørmunganna/ Þetta høfum vier sialfer reynt/ Brædur mijner/ og er ecke langt a ad minnast / Gud giæfe vier værum þess so minnuger sem vera byriade/ ef Menn vilia ecke ønnur Teikn þeckia/ þa mættu Menn þau vidkannast er almennust eru/ og JEsus ummgietur/ Luc. 18. Þegar Mannsins Sonur kiemur/ meinar þu hann finne Tru a

Jordu:

Jordu ? Noog er af Guds Orde / Noog af Evangelij Lærdoome/ til Vitnisburdar yfer øllum Mønnum/ Matth. 24. Enn hvørt hin sanna Guds Otta er so vyda ad finna / maa stoorlega efast umm / edur seiged mier/hvada Nyrtne er þ/ad Almenningur hefur a ad læra Christelega Tru/edur kienna hana þm er vid þurfa: enn þo allrasydst epter henne ad lifa. Eg hygg þad gange til eins og a Noe Døgum/ hvad og er Teikn Mannsins Sonar Tilkomu/ Matth. 24. Þeir aatu og drucku/ þeir gyptust z sig gypta leetu/allt til þess Dags/ad Noe gieck inn i Ørkena og þeckktu ei Flooded/ fyrr enn þad kom og took þa alla i burtu. Jaa/nu a þessum Døgum aadur enn þeir vita hvad Hioonaband er / edur kunna meir enn eirn Asne ad uppfræda Børn syn i Christelegre Tru og ærlegum Lifnade. Þeir gifta þau epter sinne Mynd/og ala þau upp epter sinne Mynd/Andskotanum til Þioonustu a sinudum/enn ecke Gude. Enn fyrst Truenn er þannenn/ þa er ei Von ad Kiærleikurenn sie betre/ so ad rætest eirnenn þad er Frelsarenn seiger ad framm mune koma fyrer hinn sydarsta Dag/ad af þvi Rangslæted vex/mune margra Kiærleike kolna/ Matt. 24. Þetta er so vyst frammkomed/ ad mig undrar þad Menn ecke hafa gleymt Nafnenu/ þar Hlutenn siaalfann er valla hiaa nockrum ad finna. J einu Orde ad seigia: Menn þreifa a þvi sem Paulus skrifar/ 2. Tim. 3. seigiande; Vited/ ad a sydurstu Tijmum munu verda faarlegar Tyder/ þar munu verda Menn Stergooder/ Agiarner/ Hoelsamer/ Drambsamer/ Gudlastarar/ Foreldrumm Ohlyduger/ Othacklaater/ Glæpafuller/ Hardbriostader/ Heiptræfner/ Laussinnader/ Othyder/ Eotl hafande/ Svikarar/ Þverbrotner/ uppblaasner/ elskande meir Sælgiæte enn Gud/ hafande Skyn Gudhrædslunnar/ enn afneita hennar Krapte. Allt þetta hygg eg ad Noe þeckta munde/ ef hann nu mætte lyta upp af Grøf sinne/ og þad þecker hvør eirn/ sa ed giører nockurn Greinar-Mun a millum Dygda og Odygda. A Døgum Noa slæckte hinn Rietlaate Gud Vaal Oleyfelegrar Elsku og Lostagyrndar med Vatnsfloodenu / fyrr enn þeir nockud af vissu/ enn nu tekur Kiærleikurenn so ad kolna/ ad Hiortu sumra Manna maa stockfredenn kalla/ jaa hardare enn Kopar og Staal. Hvad er lyklegra enn ad hinn alvitre Heimsins Smidur mune bræda þau og

z smellka med hinu sydarsta Bæle/fyrr eñ nockurn varer? þetta vil eg nu hafa sagt/ Brædur mÿner/ Ydrunar og Athugalausñ til Vidvørunar/ eñ ecke sturludum edur angrædū Samvitskum til Skielfingar/ øllū til Sidboota og Leidrietingar Lifnadarens/ eñ aungvum til Orvænlingar/ þvi so sem Tilkoma hiñs mikla Guds og Drottens vors JEsu Christi mun hrædeleg verda øllum Ogudlegū Mønum/ so mun hun gledeleg verda øllum þeim er a hñ vona/ og heñar med þolenmæde bijda. Pad kieñer oss St. Pall/ 2. Tess. 1. seigiande: Pad er Rieltvÿst fyrer Gude/ ad endurgiallda þeim Piæninguna er ydur þia/ Eñ ydur sm̄ þiaest Endurnæringu medur oss/ þegar Drotteñ Jesus opeñberast af Himne med sÿnum megtugum Einglum. Ad sønu byrlar oss øllum ad mæta fyrer Doom-Stoole DRottens / 2. Cor. 5. og þar Reikning ad standa / jafnvel af hvøriu Onitiu Orde/ i Doomenum / Matth. 12. Eñ þad er Ohult ad mæta fyrer hañs Doome / sem sialfur er Talsmadur sñña Barna. Sa fer ecke sekur af þÿngenu/ sem sialfur a ad dæma/ Eñ nu eru aller Truader eitt med hønum/ so sem hañ og Faderen eru eitt / Joh. 17. Og hañ er Høfud Lÿkamans / sem er Christeleg Kyrkia/ Eph. 1. Pad er og ifidællt ad standa hønum Reikning / sem sialfur hefur betalad fyrer alla Skulldena / Par fyrer seiger JEsus/ Joh. 3. Sa sem truer a Soneñ/ sa dæmest ecke. (hvar Doomsins Ord merker Fordæming) Og aptur seiger hañ: Sa sm̄ heyrer mÿn Ord/ og truer hønū er mig sender/ hñ hefur eilÿft Lÿf/ og hñ kiemur ecke i Doom (þad er i Fyrerdæming) helldur fer hañ fra Daudanum til Lÿfsens / Joh. 5. Pvi skylldu þa Guds Børn fælast hiñ sÿdarsta Dag? Mun ein Brudur ottast sÿns Brudguma Tilkomu/ og ecke helldur a allar Lunder bua sig til ad fagna hønū? Mun eitt Barn fela sig fyrer sÿnū Fødur: Eñ so sm̄ Faderen er Børnunū lÿknsamur/ Ps. 103. so vill hiñ eilÿfe Fader og Fridar-Høfdinge/ Es. 9. vera oss nædugur a þeim Deige. Par fyrer seiger hañ og i þessa Heilaga Dags Evangelio: Eñ Nær PEtta TEkur Ad SKie/ þa lÿfted upp / og upphefied ydar Høfud / af þvi ad ydar Endurlausn er Nælæg. Pad er sem hañ segde: Pier skulud ecke leingur nidurluter

ganga/ af peirre Sorg er þier hafed i Heimenū / þvi þa ſkulud þier i mier Glede hafa/Joh. 16. Þier ſkulud ecke leingur ſtynia med ſialfum ydur / bijdande epter Arfleidſluſte ſem er Endurlauſn ydar Lijkama / Rom. 8. þvi hun er þa nalæg. Þier ſkulud ei leingur kveliaſt i Fangelſe þeſſa daudlega Lijkama/ þvi þetta er Dagur Endurnæringareſtar/ Act. 3. Dagur Endurfædingareſtar/ Matth. 19. Dagur Endurlauſnareſtar/ Eph. 4. Dagur Endurnijungar allra Hluta/ þa munud þier ecke framar ſyrgia þa Guds Mynd er þier i Adam töpudud/ þvi þier munud ſiaa i Skijum Himens hiñ aſtaſt Adam / ſem er DRotteñ af Himne / 1. Cor. 15. Og þo Holld af ydar Hollde / hvør ad er ydar Brooder / og þo ydar Doomare / ydur ad øllu ſamlijkur. Ebr. 2. ad Syndeñe fra tekeñe / Eñ þo J-mynd ſijns Födurs Dijrdarfullrar Perſoonu/ Ebr. 1. Hvør ydar forgeingelega Lijkame mun forklæra og ſamlijka giøra ſijnum dijrdlegū Lijkama/ Phil. 3. Lijted upp þier ſem leinge hafed leitad ad þvi ſem þar uppe er/ Col. 3. þa ſkulud þier þad finna. Upphefied ydar Høfud/ ſem aſamt allre Skiepnuñe hafed med ukriettu Høfde beded epter ydar Endurlauſn / Rom. 8. og ſiaed ydar Høfud komanda i Skyum Himens. Lijted upp þier ſem med Ahyggiu hafed leinge þraad epter þiñe Himneſku Jeruſalem / Gal. 4. ſem þar uppe er/ og gaanged nu iñ i hana/ Þa mun DRotteñ ſeigia: Komed þier ſem nakter erud / eg mun giefa ydur hvijtaſt Skruda og ſaa Palmavid i Hendur ydar. Komed þier ſem þyrſter erud/ eg mun drycktia ydur af Straumum lifanda Vatns/ Joh. 4. Komed þier ſem hungrader erud/ eg mun metta ydur af nægdar Giædum Guds Huſſ / Pſ. 36. Komed þier ſem Erfided og Þunga erud þiaader/ eg mun endurnæra ydur/ Matth. 11. Komed þier ſem ſijted og grated/ eg mun þerra øll Taar af ydar Augū/ Apoc. 7. Komed þier ſem bored hafed mitt ſæta Ok/ og mijna lietta Byrde/ eg vil ydur endurgiallda med eilijfre þijngd Dijrdareñar / 2. Cor. 4. Komed þier ſem reiknader erud fyrer Afrak og Hreinſun Veralldar/ eg vil ſetia ydur til Bords med Abraham/ Jſaac og Jacob/ Matth. 8. Jaa/ Komed bleſſud Børn mijns Fadurs/ og eigneſt þad Rijked / ſem ydur er fyrerbued fra Upphafe

Hafe Veralldar/ Matth. 25. Kom O Herra JEsu/ kom og fyleid oss i þetta Fagnadarsæla Lambsens Brudkaup og þijna Dyrd/ þu sem lifer og rijker ad Eilijfu/ AMEN.

# Þridia Suñudag i Adventu.

## Gudspialled/ Matth. 11. Cap.

Þañ Tijma. Eñ þa ed Johañes heyrde i Bondunum Verkeñ Christi/ sende hañ ut tvo af sijnum Lærisveinum/ og liet seigia honum: Ertu sa sem koma skal/ eda eigum vier ad vænta eins añars? JEsus svarade og sagde til þeirra: Fared aptur og kuñgiøred Johañi hvad þier sioed og heyred. Blinder sia Syn/ Hallter ganga/ Lijkþrær hreinsast/ Daufer heyra/ Dauder uppryssa/ og Fatækum verda Gudspiølleñ bodud/ og sæll er sa sem ecke hneixlar sig a mier. Eñ ad þeim i burt geingnum/ hoof JEsus ad seigia til Folksins af Johañe. Hvad foorud þier ut a Eydemørku ad sia? Reyr þañ sem af Vinde er skiekeñ? Eda hvad foorud þier ad sia? Mañ Miuk-klæddañ? Sioed/ ad þeir sem miukañ Klædnad bera/ eru i Kongaña Husum/ Eda hvad foorud þier ad sia? Eirn Spamañ? Eg seige ydur fyrer Sañ/ þañ meire er eñ nockur Spamañ/ þviad þesse er sa/ af hvøriu skrifad er: Sia þu ad eg sende miñ Eingel fyrer þinu Augsijn/ sa er þiñ Veg skal tilreida fyrer þier.

## Exordium.

HVersu stoor ad sie Mindugleike Heilagrar Ritningar / Þad kieñer oss best hañs DRottens JEsus/ er hañ sagde vid Gydinga/ sem ecke villdu trwa hønum fyrer Kraptaverkeñ / er hañ giørde. Rañsaked Ritningarnar / þvi þier meined ydur i þeim ad hafa Eilijft Lijf / og þær eru þad / sem bera Vitne af mier/ Joh. 5. Vel hefur JEsus þetta hvorutveggia samañteked / ad høndla um Eilijft Lijf/ og ad bera Vitne af sier / þvi þad er Eilijft Lijf / ad þeir þecke þig sañañ Gud ad vera/ og þañ þu sender JEsum Christum / sagde hañ/ Joh. 17. An JEsu Vitnisburdar/ verdur eingeñ Hoolpeñ / og hvør sem hañ hefur og medtekur / hañ hefur Lijfed i sier blijfanda / og kañ ecke ad fara a Mis vid Sælu hiælpena / þar um vitnar St. Petur / Act. 4. Ad ei sie i ødrum Hiælpræded/ og ad þar sie eckert añad Nafn Møñunum gifed under Himnenum / i hvøriu oss byrie Saluhoolpnum ad vera / eñ Nafned JEsu Christi. Nu / þar ed heiløg Ritning høndlar um so mikla og veglega Hlute / hvad kañ hene þa jafne edur samlijkiande ad kallast/ af øllu þvi/ er Synduger Meñ hafa Mætur a. JEsus

sagde vid Kvinnuna i Samaria / Ef þu vissir Guds Giøf / og hvør sa være / er vid þig seiger : Gief mier ad drecka / þa munder þu bidia hann ad giefa þier lifande Vatn / Joh. 4. Enn eg vil seigia : Gud giæfe / Menn þeckte Gud vid sig talande i heilagre Ritningu / þa mundum vier fuſare vera ad drecka af hans Naadar Straumum / er þar ut af flioota. Hvør hefur kiennt oss ad þeckia Gud vorn Skapara ? Hvør hefur Opennberad oss hans Villa ? Hvør hefur vijsad oss Veigenn hønum epter ad fylgia ? Hvør hefur uppløked vorum Augum ad vier þeckium Syndena ? Hvør hefur sijnt oss hvørnenn vier ættum ad blijdka Gud nær hann Reidur er og þa hennar Kvittan ? Hvør hefur Opennberad oss Leindardoom Heilagrar Guddoomsins Þrenningar / Dyrd Fødursins / Elsku Sonarens / Afgiafer Heilags Anda ? Hvør hefur sijnt oss þad sem marger Konungar og Spamenn gyrntust ad sia / og sau þad ecke ? Luc. 10. Þad sem huled var fyrer Spekingum og Vitringum / enn nu er Opennberad Smælingium ? Matth. 11. Hefur ecke hinn Naaduge Gud oss allt þetta auglijst og fyrer eckert giefed i heilagre Ritningu ? fyrer sinn Eingietenn Son sem er i hans Skaute / Joh. 1. Af þessare Andlegu Fiehyrdstu audgade JEsus Lærefsveina Johannis / þegar þeirra Meistare sende þa til hans / ad spyria hann ad / hvørt hann være sa sem koma skyllde / edur ættu þeir eins annars ad vænta / ecke i þeirre Meiningu / ad Johannes vissi þad ecke siálfur / þvi hann hafde adur vid hann talad / Matth. 3. helldur til þess / ad þeim hiálpad yrde i þeirra Andlegu Fatæcde / Hvad hinn goode Meistare JESUS giørde med þvi Moote / ad hann vijsar þeim til Verkanna sem af hønum giørdust / og under eins til Ritninganna sem um Messiam spaadu / og þo ad hvørt eitt af þeim Kraftaverkum sem hier standa i Gudspiallenu / sie noog til ad vitna þar um / ad hann Guds Sonur være / þar Gud er alleina sa sem Dasemdar Verkenn giører / Psalm. 72. Þa er þo eckert þeirra sem so berlega vitne um Embætte Messiæ / so sem þad sijdarsta er hier stendur. **Fatækum verda Gudspiallenn bodud.** Hvør Blessud Ord vier villum i þetta Sinn oss fyrer Hendur taka / og af þeim sierdeilis Tvennt Hugleida. Sem er. 1. Um þa Fatæku er hier nefnast. 2. Um þad Evangelium er þeim bodad verdur / Med þeim Lærdoomum er þar af leida.

Þu Myskunsame goode Gud / sem oss hefur med Kloose þyns Sonar Evangelij / vijsad hinn retta Veg Saaluhialparennar / Vertu i Verke med oss / ad vier þetta framkvæmt getum / þijnu Nafne til Dyrdar / enn oss til Eilijfrar Velferdar / AMEN.

## Utleggingen.

FAtæker / sem hier nefnast / eru ecke alleinasta þeir / sem vantar Audlegd Heims þessa / helldur og aller þeir / sem a einhvørn Hatt eiga vid bargann Kost ad bua. David var rijkur Konungur / og hafde Aura Nægter / þo seiger hann / Ps. 9. Myskunna mier / og lijt a Fatækt mijna. Nu kunna Menn þo ecke ad mootseigia þvi / ad vor Frelsare / a medann hann umgieckst hier a Jørdunne / hefur sier i Lage utvaled hina Fatæku og

Aud-

Audvyrdelegu fyrer Heimenum. Siælfur var hn̄ i Fatækt aleīn/ hans blessud Mooder fieck eckert annad Rum i Giesta-Herbergenu / en̄ eitt Stall til ad fæda han̄ i, Heimenn/ Luc. 2. sem æ allra Hluta Valld / bæde a Himne & Jørdu. Hans Fooftur-Fader var eirn Tre-Smidur/ Matth. 13. sem nærde sig af Hand-Biørg sinne. Hans Lærefveinar voru Fatæker Fiske-Men̄. Flestaller þeir ed han̄ umgieckst med hier a Jørdunne/ voru Fatæker og umkomuliftler. Skamast þu̇n̄ ecke þess vegna Fatæktarennar/ Christen̄ Madur/ fyrst hn̄ hefur hana utvaled/ sm̄ æ þo allt Sylfur og Gull/og øll Dy̆ren̄ i Skognū/ Ps. 50. Ærleg Fatækt/ er heilagur Hlutur/ þar han̄ hefur vy̆gt hana/ sem eirn er Heilagur/ & þo allr-eina Ry̆kur. Fyrerly̆t & ecke Fatækan̄/ þu sm̄ Audugur ert/ þvi þad er ad forsmaa hans Skapara/ sem giørdest Ovreige hinna vegna. Edur þvi skilldu Men̄ han̄ Ovirda/ er Gud hefur so mikels virdt/ ad han̄ hefur fyrer hn̄ py̆nst/ & læted hønū sitt Evangelium opennbera? En̄ hvar fyrer mun vor Frelsare seigia hier/ Ad Evangelium sie Fatækū bodad? Sannlega/ fyrst þess vegna/ ad Johannis Lærefveinar þeckia mættu/ ad Spaadoomur Esajæ 61. uppfylldur være. En̄ Guds Ande/ sem þ Esajam talade/ hefur giørla fyrer sied/ ad ei munde þr marger verda/ er Christū medtæke/ sem lifdu i Velgeingne Heims þessa/ so sem Raun gaf Vitne. Skule Men̄ og Sannleikan̄ seigia/ þa kiemur Fatækten̄ betur saman̄ vid Christs Evangeliū/ en̄ Ry̆kdomuren̄. Hans Ry̆ke var ecke af þessum Heime/ Joh. 18. og þvi er ecke Von til/ ad þeir mune vel skipast under hans Stioornan / sem hafa Gull-Hnøtten̄ fyrer sitt Athvarf/ og ei vita af annare Sælu ad seigia/ en̄ Audæfū Heims þessa. Þar fyrer sagde JEsus fordū Daga um̄ hin̄ Ry̆ka Unges-Man̄ / ad hægra være Ulfalldanum ad ganga i giegnum Nalaraugad/ en̄ ry̆kum Manne inn i Himnary̆ke/ Matth. 19. Ecke þess vegna/ ad hn̄ ry̆kur var/ helldur af þvi hn̄ angradest þegar Drotten̄ sagde ad han̄ skyllde giefa Eigur sy̆nar Fatækum og fylgia sier epter. Ja/ sannlega æ Fatækten̄ og Armoodur betur vid Guds Evangeliū/ en̄ Ry̆kdoomur mikell. Þvi seiger & Jacob Postule/ Cap. 2. Heyred/ Brædur my̆ner Elskuleger / Hefur ei Gud utvaled Fatæka

Heims þessa / ad þeir verde Auduger i Trunne og Erfingiar þess Rijk-
is/er hañ heited hefur þeim / er hañ elska. Eñ þar er næsta hætt
vid / ad þeir mune ecke hafa mikla Ast a Gude / sem æstunda miked
Aura Safn. Hvar fyrer Paulus seiger/ad þeir sem rijker vilia verda/
þeir falle i Freistingar og Snorur / og margar Gyrnder skadlegar og
Heimskulegar / sem steipa Mañenum i Fordiorfun og Olucku / 1.
Tim.6. og hier kvedur so ramt ad/ad Endurlausnareñ seiger : Þier
giefed ecke under eins Gude þionad og Mam̃ona/ Matth.6. og þvi
verr/ hvad morg eru þau Dæmeñ/ad Meñ elska meir Akneyte sijn og
Tugarda/eñ Drottens Kvolldmaaltijd/ sem þo er ollum telbodeñ/ þar
fyrer lætur hañ Blindum/Holltum og Vonudum samañsafna/Luc.
14. Vier erum Ahyggiusamer eins og Martha/og mædunst i morgu/
eñ fæer hyggia ad þvi/ad eitt er Naudsynlegt / edur ad utvelia þad
Gooda Hlutskipted / eins og Maria/ Luc. 10. edur ad hafa Þiæning
med Guds Foolke/helldur eñ Ægyptalands Audæfe/eins og Moyses/
Hebr.11. Eñ þott ad þessu sie nu so vared/ munu þa aller utelokader
fra Evangelio/ þeir ed rijker eru/ eñ hiner aller iñteknir ? Fiærre fer
þvi. Abraham hafde Gud giefed Gull og Sylfur / Þræla og Am-
bætter/Ulfallda og Asna/Naut & Saude/Gen. 24. og þo kallast hañ
Fader Truadra/ Rom.4. og þad var honum til Riettlætis reiknad/
ad hañ Gude trude/Rom.4. og þvi Evangelio er Gud honum sialf-
ur bodade / ad i hañs Sæde skylldu blessast allar Þiooder/ Gen.22.
Job var Rijkismadur/ og var hañ þo Guds Vinur / Job.1. og 42.
David/Josaphat/Ezechias og Otal fleire/ J Gamla Testamentenu
voru Magtar Meñ/ og þo eru aller þeir fyrer Evangelium Truar-
eñar holpner ordner. Og ad Meñ vite ad þad ecke odruvijs er i Nija
Testamentenu/ þa er þad alkuñugt/ ad Nicodemus var einn Hofdinge
Gydinga/ þo kom hañ til JEsum a Nættar þele/og þaade Undervijs-
un af honum/ Joh.3. Jairus var Samkundu Hofdinge/ þo leitade
hañ Christi Hiælpar / Marc.5. Vm̃ Hundrads Hofdingiañ sagde
JEsus sialfur / ad hañ hefde ecke funded þvilijka Tru i Jsrael /
Matth. 8. og hefur hañ an Efa eingeñ Smælingie vered/ þar hañ
upp-

þ þbyggde Gydinganna Samkundu/ Luc. 7. Johañа Hustru Chusa/
er var Radsmadur Herodis/ Luc. 8. hefur vered rijk Kona/ þo trude
hun a Drottenn. Joseph af Arimathia var eirn Rads-Herra og Aud-
ugur/ þo var hañ Lærefveirn Christi/ Matth. 27. Cornelius var
rijkur/ þo vottar Eingellenn um hañ/ ad hañs Bæner og Olmusu-
giorder ſieu uppſtignar fyrer Gud/ Act. 10. Dionyſius Areopagita/
var Rads-Herra i Athenuborg/ Act. 17. Paulus Sergius var Hyrd-
ſtioore/ og þo lieſu bæder þeſſer ſkraſt/ og tocku Christne af Paulo/
Act. 13. Og hvør kañ øll þvilijk Dæme upp ad telia? Og ſo ſem ad
ecke eru aller Rijker þeſſare Guds Nаd fraſkilder/ ſo verda og ecke
helldur aller Fаtæker heñar hlufftakande. JEſus læknade ecke alla
Halltа edur Blinda/ ſo hefur hñ ecke helldur giort alla Fаtæka Sælu-
holpna/ jafnvel þott hñ fyrer alla lided hafe. Fiærre ſie þvi ad Fаtæ-
kæktenn kuñe nockrum ad afreka Himnarijke/ fyrer ſialfa ſig. So ſem
Gud hefur bølvad þeim er rietklæter þañ Fаtæka fyrer hañs Fаtæktar-
ſaker/ og æfeller hiñ Rijka fyrer hñs Rijkdoms Skulld/ So giører hñ
og ſialfur hvørugt i ſijnu Riettlаta Doome/ þvi hia hønū er eckert
Mañgreinar Alit/ helldur a øllu Folke ſm̃ giører hñs Vilia hefur hñ
Þocknan/ Act. 10. Ad ſøñu er Rijkdomenum hættara eñ Fаtæktenne/
eñ ſo ē margur/ þvi verr/ brukar Audæfeñ til Ohofs & Drambſeme/
til ad underþryckia hiñ Volada og Lijtelmagnañ/ So er & Fаtæktene
ei helldur alltijd Ohætt/ og þvi afbad Agur hana/ ad ei neyddeſt hañ
til ad ſtela/ Prov. 30. Hvørttveggia þtta er epter þvi ē med þer hønd
lad. Olmuſugiørder Cornelij voru Gude eins þeckar/ Act. 10. og ſmaa
Peningar Eckiuñar/ ſm̃ lagde meira i Guds Kiſtuna af ſijnū Fаtæk-
doom/ eñ aller hiner Rijku/ Luc. 21. Þar eru Fаtæker ſem ecke vilia
erfida med Høndunum/ og læra þvi ad ſtela. Þar eru Fаtæker ſem
øfunda hina Rijku formæla þeim fyrer aungva adra Søk eñ þa/ ad
Gud hefur þm̃ meira lаnad/ hvør þo giører bæde Fаtækañ & Rijkañ
epter Velþocknan ſiñe/ Prov. 22. Sijkia þa i allre Høndlan/ mei-
na ad þeir ſo giøra meige ad Saklauſu/ hælaſt þar um̃ i ſiñ Hoop/
hialpa adrū til ad breyta þañeñ/ kalla þvilijkt ad giøra Kiærleikans
Verk

Verk/so sem hiñ Rijke eige aungvañ Riett a sier/ nema þañ er hñ nær med Ofbellde. Þeir una Fatæktenie illa/og stunda med øllum Nætte/ med Riettu ꝛ Raungu ad drijfa hana fra sier. Munu þetta vera þeir Fatæker er Jesus hier uñ talar i Gudspiallenu/ Brædur mijner ælangt er fra þvi/ helldur þeir ed Fatæktena og allañ añañ Guds Kross med Þoleñmædelijda / sa ed lætur sier nægia med siñ deilldañ Verd. Gud telur ecke Peninga þijna/ Christeñ Madur/ helldur mæler hñ þitt Nugarfar/ hañ er aungvañveigeñ riettelega Fatækur/ sem giarnañ villde taka allt fra øllū ef hañ mætte/jafnvel þott eckert hafe hañ/eins og sa er ecke rijkur/sem vill meira hafa/þott hañ hafe alls Nægter/So er og hiñ ecke Fatækur fyrer Gude/ er med Hiartanu gaper yfer øllu þvi hiñ Rijke a/ hiñ Rijka kañ og ecke ad skada hañs Rijkdoomur/ef hñ brukar hñ Gude til Dijrdar/ og Naunganū til Gagnsmuna/sa ed ecke treyster uppa Oriettindeñ edur Ranglæted / edur helldur sig til þess sem ad aungvu er neitt/ Vilie hønum Rijkdoomur til/ þa fester hañ ecke Hiarta sitt vid hañ/Ps. 62. Nañ reiser hiñ Fallna / styrker Mal Eckiuñar ꝛ hiñs Fødurlausa/upphefur sig ecke i Hiarta sijnu/ helldur fellst a Jacobs Rad/er hañ seiger Cap. 1. Sa sem rijkur er/ hroose sier i Læging siñe. Og fyrer þvi ad Gude hefur þocknast marg añ audugañ ad giøra/til ad audsijna i þvi so s̄ øllu odru sijna Giæsku vid Mañañ Sonu/eñ añars vegar er nærsta hætt vid/ad Audureñ s̄ er fagur meige blinda Mañsins Hiarta/ þa giører St. Paull Rad þ̄ þm̄ sem rijker eru i Christelegre Kyrkiu/ 1. Tim. 6. (So laugt er fra þvi ad þr sieu fra Evangelio utelokader)seigiande: þm̄ sm̄ rijker eru i Olld þessare/Predika þu ad þeir ecke metnest i Hiørtū/ og treyste ecke a Audæfeñ/helldur a hiñ lifanda Gud/ s̄ oss alla Hlute annægiañlega giefur til Notkunar/ad þeir sieu goodgiarner/ad þeir sieu rijker i goodum Verkum/sieu giafmillder og fuser a ad medbijta / safnande sialfū sier goodum Grundvelle til hiñs epterkomanda / so ad þr hreppe eilijft Lijf. Fare nu nockur þessum Postulans Radū fram / þa er so langt fra þvi ad hñ fare hlutlaus af Guds Velgiørningū i Evangelio/ad hñ hefur meire Ordsøk og Efne til ad giøra þad Gud hefur i Evangelio

gelio boded/helldur en hin sm snaudur er/ eda hvad er þad ad Christur seiger/ ad ei skule Vatnsdryckur Olaunadur vera i Læresveins Nafne giefen? Matth. 10. Hvad er hitt er han byduri? Ad Men skule giora sier Vine af hinum Ranglata Mammona/ so ad þeir medtake oss i eilyfar Tialldbuder/ Luc. 16. Allt er þetta til þess sagt/ ad Madurenn lockest med Guds Nadar Fyrerheitum / til ad dyrka han med hns Gafum/ og Naunganum ad gagna/ en ef ødruvys er/ þa klynger þar og ofur Bialla/ hun lætur a þeßan Hlioot/ hia Luc. 6. Vei ydur sem ryker erud/ þier hafed ydar Huggun uttekeð. Og Jacob talar nockud skorikordt þar um Cap. 5. seigiande: Nu vel þier Auduger/ grated og veined yfer Hørmungum ydar/ sem yfer ydur koma munu/ ydar Audæfe eru fuen/ ydar Klæde eru uppetenn af Mol / ydar Gull og Sylfur er ridgad/ og þeirra Rid vitnar a moote ydur/ og mun uppeta ydar Holld so sm Elldur/ þier hafed geimt Fiesioodenn til hinna sydustu Daganna/ Siaed Laun Verkamanañana/ sm hafa sleiged ydar Lønd/ er þier hafed inehalded/ þau hroopa/ Hroop þra er yrkt hafa/ er inngeinged i Eyru Drottens allsheriar. þannveg hefe eg nu synt/ Brædur myner/ ad Ryke domur z Fatækt eru Gude jafn kiær/ þegar mz hvortveggia er riettelega fared. Þvi vil eg þy ei dylia/ ad eg hygg ad Frelsaren i þessa Dags Evangelio innebinde þa i þisu Orde/ sm hn talar um/ Matth. 5. seigiande: Sæler eru Andlega Volader/ þviad þra er Guds Ryke. Þetta synest rada meiga af sialfum Spadome Esajæ 61. til hvors ad Frelsaren vysar Johanni i Andsvare synu. Hvør Spadomur so hlioodar: Ande DRottens er yfer mier/ af þvi han hefur smurt mig/ hn hefur sendt mig ad boda Evangelium þm Hoogværu/ og ad binda vid þa sm i Hiortu eru sundurknosader. Þetta skilst mier ad vera sama og Andlega Volader/ Matth. 5. Þad eru þeir sm ad til þess finna/ ad i þeim/ þad er i þeirra Hollde byr ecker gott / Rom. 7. Þeir ed þeckia ad þeir hafa Skort a þeirre Hroosunenne/ sem fyrer Gude gillder/ Rom. 3. Þeir ed med hinum Fortapada Syne audmykia sig fyrer synum Fodur / Luc. 15. Þeir ed med Tollheimtu Manenum voga ecke ad upplypta synum Augum til Himens / helldur beria sier a Brioost og

seigia : Gud verku mier Syndugum Lijknsamur / Luc. 18. Þeim er so eru Andlega Volader/ og reikna sig so or-fataka/ af ollu þvi sem fyrer Gude gyllda kan/ad þeim mislijkar allt a sialfum sier/ þeim hygg eg ad bæde fyrst og sijdarst tilheire Evangeliũ/ hvort helldur þeir rijk-er eru edur Fatæker/ þvi so seiger DRottenn/ Es. 66. A þañ lijt eg sem Fatækur er / og sundurkramenn i Anda / og skielfest fyrer Ordum mijnum. Þegar Guds Sonur kom i Heimenn / þa villdu Menn af Verk unum Riettlater verda/ Enn hvad seiger JEsus þar umm? Nema ydar Riettlæte yfergnæfe meir enn hinna Skriftlærdu z Phariseañа/þa kunn ed þier ecke inn ad ganga i Guds Rijke/Matth. 5. Þa Tijundudu þeir Mintu Anis og Cumen/þad var þeirra Guds Þioonusta/ enn gleymdu þvi sem mest var i Logmalenu/Doomnũ/ Mijskunsemenne og Truñe/ Matth. 23. Þa færdu þeir stoorar Foorner Marc. 7. a HErrans Altare/og ætludu þar fyrer Hoolpner ad verda. Enn DRottenn seiger þar umm/Es. 66. Hvor ed slatrar Naute/þ er/sem hann slæe Mann i Hel/ hvor sem offrar nockrum Smaa-Frenade/ þad er/ sem hann Halsbrite Hund/ so miked gillte su utvortis Guds Þioonustann i hans Augum: Þar fundust ecke marger/sem giordu soddann Jatning fyrer Gude/sem David/helldur hiet þad so: Eg þacka þier Gud/þad eg em ecke eins og adrer Menn/Luc. 18. Þesser þottust rijker vera af goodum Verkum/ og jafnvel odrum lana kunna / enn hvad seiger JEsus vid Biskupenn i Laodicea/þu seiger: Eg em full-rijkur z hefe einskis þorf/enn þu veist ecke/ad þu ert aumur z vesæll/blindur z nakenn/Apoc. 3. og þ hygg eg seigia mætte umm Mnga Manns a þm Dogum. Þar fyrer var Evangeliũ Fatækũ bodad/ þar fyrer flycktust Tollheimtumenn og Bersyndu-uger til JEsum / Luc. 15. Þar fyrer komu jafnvel Heidner Menn a hans fund. Þar fyrer sagde hann til þessa Foolks/Matth. 21. Sannlega seige eg ydur/ad Tollheimtumenn z Þutur munu ganga framar ydur inn i Guds Rijke / þvi Johannes kom til ydar med Riettlætesins Veg/ og þier trudud honum ecke / enn Tollheimtumenn og Þutur trudu honum/ enn þier/ sem ad saud þetta / ydrudust ecke epter a / so ad þier trijdud honum. Og hofum vier nu so nockud heyrt þar umm/ hvilijker ad þesser

Sealaker sieu/ sem vor Frelsare talar um i Andsvare synu til Johañem.

Nu vilium vier hier epter nockud um sialft Evangelium tala/ sem þeim bodad verdur. Meñ kyñu ad efast um hvorneñ þad skilia eige/ ad JEsus seiger hier alleina/ Ad Fatækum sieu Gudspiølleñ bodud/ þar þo St. Pall vottar/ Tit. 2. Ad heilsusamleg Guds Nad sie openber ordeñ øllum Møñum. Hier byrtar oss þad ad athuga/ad jafnvel þott Christi Evangelium sie ecke nema eitt/ þa verdur þo eitt og hid sama Evangelium med Tvøfølldum Hætte predikad/ sa eine hefur nockud af Løgmalenu allthd med sier / og framleidur Guds Nad siefens veitta med Fororde / ef Meñ ydrast Syndaña og af þeim læta. Hvilyk var su Predikun Christi / er Marcus umgietur/ Cap. 1. JEsus kom i Galileam / predikande Evangelium Guds Rykis/ seigiande: Tymeñ er uppfylldur/ Guds Ryke er komed/ giøred Ydran/ og trued Evangelio. Þess hattar var Predikun Johañis Baptistæ/ er hañ sagde: Giøred ydran/ þvi Guds Ryke er nalægt. Øxeñ er sett til Rootar Triaña/hvort þad Trie/sem ecke ber goodañ Avøxt/skal upphøggvast og i Ello kastast/ Matth. 3. Hier er Oleum Evangelij blandad med sterku Løgmalsins Vyne/ til Lækningar þeim sem medal Ræningia hrasader voru/ Luc. 10. Med þyssu Hætte a Evangelium eñ nu ad kieñast i Guds Søfnudu/hvar iñe ad bæde eru Bonder og Good er/ Matth. 3. Og þañ Veg byriar Guds Fiarsioodum ut ad skipta i hentugañ Tyma/ so hvør eirn fae þad hoñu ber/ þvi ei kom JEsus til ad upplevsa edur afma/helldur til ad uppfylla Løgmaled/ Matth. 5. Guds Nad i Evangelio hryn ecke a Mañenu fyrer utañ eina lifande Tru: Vndañ eirne lifande Tru verdur ad ganga søñ Ydran: Søñ Ydran er alldrei nema med søñu Angre og Hiartañs Trega: Trege Hiartañs kañ ecke i Mañenu ad uppvektast fyrer utañ þeckingu Syndareñar: Þecking Syndareñar framkiemur af Løgmalenu/ Rom. 7. hvar fyrer þott ad Løgmaled giøre øngvañ holpeñ af sialfu sier/ samt þionar þad under Evangelium/ truudum Mañe til Sæluhialpar / so þegar Bookstafureñ hefur deydt/ þa lyfgar Andeñ/ 2. Cor. 3. Þegar Løgmaled hefur sundur mared/ þa læknar Evangelium/

um/ þegar Mañeſkiañ af Løgmálenu þecker ad hun hefur eckert añ=
ad forþienad eñ Helvijte / Guds Reide og eilijfañ Dauda / þa tekur
Trueñ vid høñu og giører hañ lifande aptur fyrer JEſu Dauda/ og
endurnijar hañ til ad giora framveigis Guds Vilia : Þeſſa Atferd
brukade hiñ ædſte Biſkup z mikle Hyrder Saudaña optaſt til ad leida
ſynduga Meñ til Guds Rijkis/þa ſømu brukudu og aller hañs Þien=
arar uñ alla Æfe. Noe var Rietlætis Predikare/ 2. Pet. 2. Na=
than ſtraffade David/ædur eñ hañ huggade hañ/2. Sam. 12. Atferd
Johañis Baptiſtæ / er øllum kuñug/ Matth. 3. So er nu þeſſe hiñ
alnienilege Nattur og Mate til ad predika Evangelium / ſem aller
Guds Ords Þienarar eiga ad vita og bruka. Añar er ſa ſem tilhlijder
ængrædum og ſturludum Mañeſkium/þeim ſem allareidu hafa þeckt
Syndena/ og ſo eru af heñar Umþeinkingu ſundurmarder/ ad þr reik=
na ſig Overduga Guds Nadar/og ſo Færæder/ad þeir vita ecke hvad
þeir eiga af ſier ad giora: Þeckia ad ſøñu Guds Nad/ eñ ofbijdur þo
Stærd Syndaña: Þeir vita ad Sool Rietlæteſins JEſus Chriſtur
er þeim uppruñeñ/Mal. 4. Eñ fyrer þvi ad þeir treyſtaſt ecke til ad
hypta ſijnum Augum til Himens upp/Luc. 18. og ad Þoka Syndaña
ſkilur a millum Guds og þeirra/Eſa. 59. þa fa þeir ecke i giegnum
hana ſied ( fyrr eñ Heilagur Ande ridur Truareñar Smyrſlum a
þeirra Hiartans Augu) hvad fagurt hun ſkijn/ peir þeinkia helldur a
Stærd Syndaña/ eñ til Fiolda Guds Myſkunſemda/ og i einu Orde
ad ſeigia/þad eru þeir Fatæker/er ſier i Lage uñ talad er hier i Gud=
ſpiallenu/þm̃ tilheyrer Evangeliũ eintomis eñ Løgmalſins ſtraungu
Hootana. Hvar fyrer? Þviad Guds Ande hefur allareidu verkad allt
þ ſm̃ Løgmaled atte ad verka/ſm̃ er Þeckingu Syndaña og ſaña Yd=
ran/er af heñe kiemur. Þeim verdur bodad/ad hvar ſem Syndeñ yfer=
gnæfe / þar yfergnæfe Nadeñ miklu framar / Rom. 5. Þeim verdur
ſagt ad Mañſins Sonur kom til ad kalla Synduga/ eñ ecke Rietlata
til Ydrunar / Matth. 9. Þeim a ad Predika / ad Blooded JEſu
hreinſe þa af øllum Syndum/ 1. Joh. 1. Og þo ad þeirra Synder
ſieu raudar ſm̃ Blood/ſkyle þær eins hvijtar og Snioor verda/Eſa. 1.
Þeim

þeim seiger David/ Ps. 34. Nalægur er DRottẽ þeim sem sundur-
kramder eru i Hiørtū og Narmþrungner i Anda/ til þra seiger Esaj-
as Cap. 55. Heyred þier ſ þyrster erud/komed til þssara Vatna/ z sæ-
ed æungvañ Pening hefur / komed/ medtaked og snæded. Komed seige
eg og kæ-ed Okeypis og fyrer eckert/ bæde Vijn og Miolk. Til þeirra
hroopar sialfur JEsus / sem bored hefur Synder Veralldareñar /
Matth. 11. Komed til mijn aller þier sem erfided og þunga þiader er-
ud/ eg vil ydur endurnæra/ til alls þessa seiger øll heiløg Guddomsins
Prediking/Amen. Ezech. 33. Þier seiged/ af þvi ad vorar Yfertrodslur
og Synder liggia a oss / þar fyrer visnum vier upp i þeim/ hvørneñ
skylldum vier meiga lifa? þa seig þeim: so sañarlega sem eg life seiger
DRotteñ/ þa vil eg ecke Dauda hiñs Ogudlega/ helldur ad hañ snue
sier og life. Ecke eru þijs Dæme/ ad Fader Myskunsemdaña hafe nock-
urn þañ fra sier reked/ sem til hañs komed hefur / Joh. 6. Þetta er
Evangelium Fridarens / sem hier bodad verdur/ Esa. 52. Lat þvi
ei syndugur Madur þijna Sæalu vera Oroolega i þier / þvi þu hefur
Frid vid hañ feinged/ hvørs Ovinur þu varst/ þegar hañ gaf siñ Son i
Daudañ fyrer þig / Rom. 5. Þad skiedur hia goodum Konungum/
nær þm fædest eirn Sonur/ ad þr giefa einhvørn Bandingia lausañ/
Eñ Gud Fader liet hroopa til allrar Veralldar i sijns Sonar Fæd-
ingu/ Fridur a Jørdu og Møñum goodur Vilie/ Luc. 2. Þetta er E-
vangeliū Fagnadarens/ Luc. 2. Þvi Einglarner sungu/ Eg boda ydur
mikeñ Føgnud/ þañ er skier øllu Foolke. Lat þier þvi ecke so Ogna
Synder þijnar/ þott þær yfrid margar sieu og storar/ ad þu ecke under
eins glediest i Gude Heilsugiafara þijnum/ Luc. 1. Meire Glede er i
Himnenum/ seiger JEsus/ yfer einum Syndara/ sem Ydran giører/
helldur eñ yfer niju og nijutiju Riettlætum / Luc. 15. Nu fyrst ad
sialfur Gud og hañs Herlager fagna so møg þijnu Apturhvarfe / þvi
skyllder þu þa hryggur vera? Þetta er Evangelium Guds Nadar/
Act. 20. og Embætte Forlijkunareñar/ 2. Cor. 5. Eñ þu hrædest øll
þijn Verk eins z Job/ og veitst ad jafnvel þitt Riettlæte/ er so sem nid-
lags Fat/ Esa. 64. Nu er þetta Nadareñar Evangelium/ i hvøriu

Syndaranum verdur frambodeñ Naad ut af Naad/ eñ ef þ er af Naad/ þa er þ ecke af Verkunū/ seiger Postuleñ/ Rom. 11. Þyn Verk eru vond/ eñ þetta er þo Evangeliū goodra Hluta/ Rom. 10. Þitt Hiarta fordæmer þig/ eñ Johañes seiger þo/ ad Gud sie meire þynu Hiarta/ og vite alla Hlute/ 1. Joh. 3. Veit hñ alla Hlute/ þa veit hñ og þ/ ad þu ert Andlega voladur/ þvi vill hañ þier Himnarijked giefa/ Matth. 5. Eingeñ er sa snaudur/ er hañ a hellt Kongs Rijke/ þo er Syndareñ rijkare/ þegar hñ a Guds Rijke/ og verdur þa rijkastur/ þegar hñ er sm fatækastur/ og mattugur / þegar hañ veikur er eins og St. Paall/ 2. Cor. 12. Veit Gud alla Hlute/ þa veit hañ og þad/ ad þig hungrar og þyrster epter Riettlætenu/ Matth. 5. Eñ ef þu sem Vondur ert/ kant ad giefa Börnum þijnum goodar Gafur / ef þu sem ert aleñ i Synd/ munder ei neita daud-þyrstum Mañe Vatns-Dryckiar/ mun þa Gud sm er alleina goodur/ tefia leinge ad svala þier med Heilogum Anda/ þa þig langar epter honū/ so sem Hiörteñ epter ferssku Vatne / Psalm. 42. Þu fellur i þær Synder er Gud hefur þier adur fyrergiefed/ og þad optar eñ Einusiñe / þad er illa giort/ Lat þig þ af Hiarta angra/ og syndga ei þañeñ framar/ ad þu ecke uppauser Bruñ Myskunareñar / Eñ gæt þo þess ad þetta er Evangelium Forlijkunareñar/ 2. Cor. 5. Christur er Kieñemadur ad Eilijfu/ Hebr. 7. og situr til Födursins hægre Handar / til ad bidia fyrer oss O-aflatañlega. JEsus skipade Petre ad fyrergiefa synum Broodur Siötijusiñum sio siñum / Matth. 18. Huxa ecke ad Fader Myskunsemdañа mune vera sijdur nadugur/ eñ hñ ætlar til ad þu skuler vera/ sierdeilis þar hañ seiger: Vered Myskunsamer/ so sem ydar Fader er Myskunsamur/ Luc. 6. eñ bruka samt ecke þessa Guds Naad til Hyrduleysis edur til ad giefa Holldenu Taum. Hæd ecke ad honū sm Augad hefur skapad og Eyrad hefur plantad / Ps. 94. og er Hiartnañа og Nyrnañа Rañsakare/ Apoc. 2. Þvi hañ lætur ecke ad sier hæda/ Gal. 6. Hafe Gud fyrergiefed þier margar Synder/ þa vit ad þier er þess vandara. Þeink a þañ Tijma / hvorsu ad Syndeñ var þier Obærelig/ adur eñ Gud huggade þig med Evangelio/ hun mun þo

betur

hefur bÿta / ef þar kynne ad koma / ad hann yrde fyrer Alvøru reidur. Slæckved ecke Heilagann Anda seiger Pall Postule/ 1. Tess. 5. Giæt ad þvi syndugur Madur/ þvi kannskie/ hann verde ecke so hægt aptur ad kveikia. Sia nu ertu heilbrygdur sagde JEsus vid hann/ sem hann læknade vid Dyked Bethesda / synda nu ei framar / ad ei hende þig annad verra/ Joh. 5. Þu hefur eitt Sinn leiged vid Dyke Guds Nadar/ og Eingell hins mikla Nads hefur so hrært þ / ad þier vard til andlegar Heilsubootar. Sia til ad þu ei aptur misser Heilsuna og verder so ad kvarta umm med Sjuka Manne/ þad þu aungvann fær sem ad kaste þier i Dyked/ þegar JEsus er fra geingenn. Hafe hann eitt sinn utrekeð Diøfulenn fra þier/ þa giallt varhuga vid/ ad ei hverfe Satan aptur/ og take sio Anda sier verre/ og verde so þitt hid Sydara/ argara hinu Fyrra/ Luc. 11. Nu hef eg so med faam Ordum sagt/ Brædur mÿner/ hvilÿkt ad sie þad Evangelium/ sem Fataktum bodad verdur. Þennann Veg gieck Jesus til ad leita ad þeim sem annadhvort harmþrungner voru/ og sundurkramder i Mootlætenu / edur Særder og Lemstrader af Tilfinningu Syndanna. Hann hafde ecke mørg Ord vid hina Bersyndugu i Simons Huse/ hann took Ordalaust hennar Forsvar a Hendur/ og sagde: Ad henne fyrergiæfust hennar mørgu Synder/ af þvi hun elskade miked/ Luc. 7. Hann skipte ecke mørgum Ordum vid hina Bloodfallssiuku / er gieck Bak til vid hann/ og snerte Falld hans Klæda/ hann sagde alleina/ Vertu hughraust mÿn Dootter/ þÿn Trua giørde þig heilbrigda / Matth. 9. Hann hafde og ecke langordt vid hinn Limafallssiuka/ er þeir lieku sÿga ofann af Þakenu nidur fyrer hans Blessadar Fætur/ hann reiste hann strax upp med þessu Huggunar Orde ; Vertu Hughraustur Sonur/ þier eru þÿnar Synder fyrergiefnar/ Matth. 9. Hann atalde ei stoorum Hoor-konuna / til hvørrar hann sagde : Kona / hefur neckur fordæmt þig? Enn hun kvad nei vid/ þa sagde hin eilÿfa Giæska/ so fordæme eg þig ecke helldur/ far burt z syndga nu ei framar/ Joh. 8. Eingenn er þvilÿkur Guds Velgiørningur / af øllum þeim Fiølda sem hans Fødurleg Nad hefur tiad syndugum Mønnum/ sem þesse/ Eingenn Hungradur verdur so feigenn ad eta/ eingenn Þyrstur

ad drecka/ eingeñ Nakeñ ad klædast/ eingeñ Þreyttur ad hvylast/ eingeñ Villægur ad nm Landsvist apftur/ eingeñ Sioohrakeñ Landenu/ eingeñ Siukur Bakanum/ eingeñ Þrall Frelsenu/ eingeñ Fiøtradur Lausnene/ so sem Fatækur verdur Evangelio/ og eirn Syndare sem einskis Von a nema eilijfra Helvijtis Pijna/ so sem hñ verdur þvi feigeñ seige eg/ ad Guds Nadar Lioos skijni i hñs Hiarta/ so ad hañ sier med Truareñar Augũ/ ad hañs Synder kvittar eru. O Herra Jesu Christe/ þu saklausa Lamb Guds/ sem burtu ber allar Veralldareñar Synder/ Kieñ þu oss ad þeckia vorn Overdugleik/ Drag þu Skijluna fra vorum døpru Augum/ so ad vier mættũ sia vora Bligdan/ straffa þu Syndena i oss/ med saññe Ydran og Angre Hiartans fyrer allt þad Illa/ sẽ vier fra Barnæsku vorre høfũ drigt a moote þier/ og þa vier erum so nidurslegner i Hiørtũ vorũ/ og þijn vollduga Hønd er oss so sterk ordeñ/ þa riett oss apftur þijna Nadar Hønd/ ad vier ei sockvum i Diup Orvæntingareñar/ helldur forlatum oss þar uppa/ ad þu sieit oss af Gude giefeñ til Riettlætis/ til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar/ 1. Cor. 1. Bænheyr þad HErra fyrer þijna Forþienustu/ AMEN.

# Fiorda Suñudag i Adventu.

Gudspialled/ Joh. 11. Cap.

A Þeim Tyma. Gydingar sendu af Jerusalem Presta og Levita/ ad þeir skylldu spyria hañ ad/ hvør ert þu? Og hañ medkieñdest og neitade þvi ecke. Og hñ medkieñdest/ seigiande: Eige em eg Christur. Og þeir spurdu hñ eñ þa ad/ hvad þa? Ert þu Elias? Hañ sagde/ ei em eg. Ert þu þa Spamadur? Og hañ svarade nei/ ecke. Þa søgdu þeir vid hañ. Hvør ert þu þa? So ad vier meigũ Andsvar giefa þeim er oss utsendu. Hvad seiger þu af sialfũ þier? Hañ sagde: Eg em hroopanda Rødd i Eydemørku/ greide þier Gøtu DRottens/ so sem sagde Esajas Spamadur. Og þeir sem ut voru sender/ voru af Phariseis. Og þeir spurdu hañ ad/ og søgdu til hañs: Þvi skijrer þu þa/ fyrst þu ert ecke Christur/ eige Elias/ og eige Spamadur? Johañes svarade þeim og sagde: Eg

skijre

skyre i Vatne/ eñ sa stood i Mided hia ydur/ hvorn þier þeckud eige. Hañ er sa sem epter mig mun koma / hvor ed var fyrer mig / hvors Skooþvenge eg em ei verdugur upp ad leysa. Þetta skiede i Bethabara / hinumeigeñ Jordanar / þar sem Johañes skyrde.

## Exordium.

Y Þessu Heilaga Evangelio er Tvent sem þarf ad akhuga. Þad eina ad Johañes seigiest ecke Elias vera/ eñ JEsus seiger þo um̃ hañ / Matth. 11. Ef þier villed þad medtaka þa er hañ Elias sa ed koma skal / Og hia Matthæum seiger hañ/ ad Elias komeñ sie/ Matth. 17. Þad er añad/ ad hañ neitar þvi / ad hañ sie Spámadur / eñ hañs Fader Zacharias seiger þo um̃ hañ / Luc. 1. Og þu Sveirn munt kallast Spámadur hiñs Hædsta. Þetta synest hvørt ødru gagnstædt vera/ Eñ þess byrtar ad giæta / sem St. Petur seiger / ad Spádoomarner eiga ecke wt ad leggiast epter eigeñ Þootta / þvi þeir eru ecke af Mañlegum Vilia til vor komner / helldur hafa Guds Heilager Meñ tilknúdder af Heiløgum Anda talad / 2. Pet. 1. Og þvi er eingeñ Vegur betre edur beirne til ad leggia þa wt/ helldur eñ sialf Ritningeñ. Hia Malachiam Cap. 4. seiger Ande Guds / Sia eg mun senda Eliam Spámañ til ydar / ádur eñ kiemur sa mikle og hrædelege Dagur DRottens. Sa Elias er nu Johañes i Raun og Sañleika / hañ gieck undañ Guds Foolke i Anda og Krapte Eliæ / so sem Eingelleñ spáde / Luc. 1. Elias var eirn strangur Vandlætare i Guds Stad. Johañes var og Yrganar Predikare. Elias sagde hinum Oguðlega Achab Konunge til Synda siña / 1. Reg. 21. Johañes átalde Herodem Konung / Matth. 14. Elias upprætte ad miklu Leite Afgudadyrkanena wr Israel / 1. Reg. 18. Eñ Johañem seiger Frelsareñ / Matth. 17. ad hañ mune vidrietta alla Hlute. Elias bodade hiñ saña Guds Veg/ 1. Reg. 19. Johañes kom med Veg Riettlætesins/ Matth. 21. Um̃ Eliam er spád / Malach. 4. ad hañ mune snúa Hiørtum Fedraña til Barnaña/ og Barnaña til Fedraña/ og hañ sama Spádoom þyder Eingell DRottens uppa Johañem / Luc. 1. Og ad Meñ ecke efist um̃ þad / ad Johañes sie Elias sa ed koma ætte/ Þa skrifar Matth. 17. Ad þegar Lærisveinarner sau a Fiallenu Eliam og Moysen tala vid JEsum / er hañ Forklaradest / þa hafe hañ bañad þeim ad seigia þa Syn nockrum / fyrr eñ hañ være upprisen / Eñ þeir spørdu: Pharisæi seigia ad Elias eige ádur ad koma / Eñ hañ sagde: Elias a ad sønnu ádur ad koma og Lagfæra alla Hlute. Eñ eg seige ydur / ad Elias er allareidu komeñ / eñ þeir þecktu hañ ecke / helldur giørdu vid hañ / hvad þeim lystade. So mun og Mañsins Sonur verda þyndur af þeim / þa skilldu Lærisveinarner ad hañ talade vid þa um̃ Johañem / seiger Matthæus. So er nu Johañes sa riettre Elias sem koma ætte / Eñ þo ecke eirn og hiñ same Elias Thesbiter / Og so sem Guds Ande seiger / Hos. 3. Ad þeir mune leita synis Konungs Davids / sem þo er ei añad eñ Christur. So heiter Johañes hier Elias / jafnvel þott hañ ecke Elias være. I ødru Lage neitar Johañes þvi / ad hañ Spámadur sie.

Hier byriar ad athuga / ad Gydingar hafa ann Efa vered i þeirre Villu / ad Gud munde ecke eingsta senda Eliam Thesbiter i eigeñ Persoonu til þeirra / helldur og eirn añañ Spamañ / lykañ Moysi / hvad þeir dreiged hafa af sialfs Moysis Ordum / Deut. 18. Er hañ sagde : Spamañ mun Gud ydur uppvekia af Brædrum ydar lykañ mier / hønum skulud þier heyra. Hvør Ord alleina eiga um̃ DRottenn JEsum ad skiliast / So sem St. Petur þad wtleggur / Act. 3. Þad mæ og ráda af Ordum Foolksins / er sagde um̃ JEsum / Joh. 6. Þesse er sañarlega sa Spamadur / sem i Heimeñ koma skal / edur hvad er þad añad / sem stendur / Maccab. 14. Ad Gydingum og Kieñemøñum synndest ad Simon skyllde vera þeirra Hertoge Æfeñlega / þar til sa visse Spamadur kiæme / 1. Maccab. 14. Vilie Meñ og Grandvarlega athuga Spurn Gydinga / þa er hun þañ Veg : Ertu sa Spamadureñ ? Hvad talad synest um̃ einhvørn vissañ Spamañ / sem þeir væntu epter / Eñ so sem Johañes þvi Rietteleg Neitade / ad hañ være Elias epter þeirra Meiningu / So kvad hañ og Nei vid hinu med øllum Riette / ad hañ sa Spamadur være / sem þeir epter væntu / jafnvel þoott hañ være Spamadur hins Hæsta / so sem hañs Fader Zacharias adur sagt hafde / og meir eñ nokur Spamañ ad Christi Vitne / Matth. 11. Og er þetta ad seigia um̃ Persoonu Johañis. Eñ af hañs Angsvørum / eigum vier Christelega Hoogværd ad læra. Hvar um̃ eg framvegis tala vil. Þar til styrke Guds goodur Ande fyrer JEsum Christum / AMEN.

# Vtleggingeñ.

HJd fyrsta Andsvar Johañis / er hañ gaf Sendemøñum Gydinga / er þetta : EJge Em Eg CHRJSTVR. Spurn þeirra var þañ Veg. HVør Ert Þu? Og synest so sem hañ hafe ei viliad bijda epter þvi / ad þeir spyrde hañ ad / HVort Hañ CHRJSTur Være / þvi hañ hefur ann Efa vitad / ad þess hattar munde Erendeð vera / þar fyrer tekur hñ þad strax / og seiger : EJge Em Eg CHRJSTur / og ma þar af siaa / hvørsu ant hønum hefur þar um̃ vered / ad eingeñ skyllde so mikla Hluke um̃ sig þeinkia / hvar fyrer hañ giekur og ecke bundest sijdar i Gudspiallenu / ad tala so Skoreñordt hier um̃ / ad aller skilia mættu / er hañ seiger : SA STood i MJded Hia YDur / Hvørn þier þeckud eige / hañ er sa sem epter mig mun koma / hvør og fyrer mig var / hvørs Skoo-Þveinge eg em ei verdugur upp ad leysa. Gudspiallamadureñ sem þetta ritar / hñ hefur so mørg Ord hier um̃ / seigiande : HAñ MEDkiendist Og NEitade Þvi Ecke / Og Hañ Medkiendist / og sagde : EJ EM EG CHRJSTVR. Og er þad audsiært þar af / ad hañ hefur a allar Lunder viliad gyrda fyrer þad /

ad eingeñ skylde þvilykar Offgar i Hug sier leida. Þañ veg hafa aller Guds Elskendur Lynder vered / ad þeir hafa fyrerorded sig/ þa þeir a einhvørn Haatt hafa orded añadhvørt ad nalægiast Gud/ edur og ad þeirra hefur under eins giefed vered og hiñs stoora Konungs/sem øllu rædur/bæde a Himne og Jørdu. Heiløgum Johañi var þetta nærsta Akkgeingt ad blygdast fyrer synum Gude og Skapara. Þegar Guds Mooder Maria heimsokte Moodur hñs Elisabeth Frændkonu syna/ er hun var Olett ad hønum / þa fagnade hun heñe a þeñañ Haatt: Hvadañ kiemur mier þad/ad Moder DRottens mijns kiemur til mijn? Luc. 1. Eins var sialf Maria Skape fareñ/ er hun sagde til Eingils sins: Eg em Ambaatt DRottens/Verde mier epter Orde þijnu. Abraham visse ei hvad hñ aatte af sier ad giøra/þegar DRotteñ vyrdte hañ Vidtals/þvi sagde hñ: Eg villde nu giarnañ tala vid DRotteñ Gud/þott eg sie Dupt og Aska/Gen. 18. Eg vil ei þar um tala/hvør su Postular DRottens vørdust allre þeirre Lotningu / er adrer syndoger Meñ villdu veita þm/þa þeir kiendu JEsu/edur giørdu Krapta verk i hañs Nafne. Þegar Cornelius fiell til Foota Peturs/ þa reiste Postuleñ hñ jafnskiott a Fætur/og sagde: Statt upp/eg er eirneñ Madur/ Act. 10. Þegar Folked i Lystris sagde ad Guderner væru Møñum lijker ordner/ og til þeirra ofañkomner/ Act. 14. af þvi ad Paall reiste þañ a Fætur med einu Orde/er Fotþrumur var fra Moodur-Lijfe/ og villdu hafa fært hønu og Barnabæ Foorner/þa sundurrifu þeir syn Klæde/stucku iñ i Mañþraungena/hroopudu og søgdu: Þier Meñ/hvar fyrer giøred þier þetta/ vid erū Meñ/sama Breiskleika og þier underorpner. Jaa/ ecke einasta Guds Heilager Meñ og Astviner/hafa þañ veg blygdast fyrer Gude/sem meir eñ skylldugt er/ helldur og hafa hañs volldugu Einglar hid sama giørt. Þad maa medal añara lesa/ Apoc. 19. Þegar Eingelleñ talade vid Johañem/ þa skrifar hañ a þeñañ Haatt: Og eg fiell fram fyrer hñs Fætur ad tilbidia hñ/ z hñ sagde vid mig: Siaa ad þu giører ei þetta/eg em þiñ Medþienare og Brædra þiña / þeirra er hafa Vitnisburdeñ JEsu/ tilbid þu Gud. Hafe nu Guds heilager Meñ og Postular/hafe Johañ

es Baptista/ um̃ hvørn Sañleiks Muñureñ vitnar/ ad eingeñ sie mei-
re af Kvinnu fæddur / Matth. 11. Nafe hañs blessud Mooder/ sem
hina mestu Tign hefur af Gude þeiged allra syndugra Mañа / sem
borner eru i þeñan Heim: Nafe Guds heilager Englar/ sem eru all-
deilis an Syndar: Nafe þesser/ seige eg/ so audmiükt sig fyrer hñs Ma-
ieſt. z Vellde/ hvad miklu framar byriar þier þa syndugur Ormur/ ad
audmiükia þig under vollduga Guds Hønd/ sem allur ert i Synd/ z ecke
eitt Augnablik lifer an Syndar i hñs Auglite. Nafe Sonureñ giørst
Fødurnū hlydeñ allt til Daudañs/ ja/ allt til Krossens Dauda/ Phil.
2. Ef St. Pall/ 1. Cor. 15. seiger/ ad a sijdarsta Deige/ þegar hañ
afhender Rijked Gude og Fødur/ þa mune hñ (þo epter Mañdomenū)
Vndergiefeñ verda hønum/ sem alla Hlute giørde hønū undergiefna/
ætler þu þa ecke ad skamast þijn ad standa upprietur i hñs Auglite /
þu sem optsiñis ert Ohlijdugur/ Yverbroteñ/ Tomlatur/ og forsmaaer
hñs myklu Myskunseme/ sem Daglega er nij og ferst yfer þier a hvør-
ium Morgne/ Thren. 3. Hvar fyrer hafa Guds Heilager so audmijkt
sig fyrer Gude ? Þvi þeir elskudu hañ. Þvi hafa þeir hañ elskad ?
Þvi þeir þecktu hañ. Þvi þecktu þeir hañ ? Þvi þeir lærdu fyrst ad
þeckia sialfa sig. Hvad þecktu þr. hia sialfū sier: Eckert nema Eymd
og Volæde. Hvad hia Gude? Eckert nema Dyrd og Vegsemd. Giør
slijkt hid sama og muntu fiña / hvørsu ad þu ert miñа eñ ecke i Guds
Auglite. Ber þig samañ vid hañ/ þott nockud Olijkt sie samañ ad be-
ra/ og nærsta sundurleitt/ giør þ þo/ þvi slijkur Samburdur mislijkar
hønū ecke/ ef hñ mætte duga þier til ad kañast vid Eymd þijna og hñs
Dyrdarfulla Hatign/ hvøria þo Daudlegur Madur alldrei kañ ad
þeckia so sem hun er. Judar spurdu Johañem ad / HVØR
ERT ÞV ? Ef þu spyr ad hvør Gud sie / þa verdur ei svarad /
nema med hañs eigeñ Ordum. Gud er eirn Ande / Joh. 4. þo ecke
so sem adrer Andar/ helldur Fader Andañа/ Hebr. 12. Og svo Dyrd-
legur / ad hønum̃ mã vid aungvañ Hlut samlijkia / Esa. 40. Vm̃
hañ verdur ei nær komest ad tala / eñ med þeim Ordum / er under-
ærns medkieñа Vanfrære vora til ad utmala hñs Dyrd/ sem er/ ad hun

sie

sie Omælañleg/ Oendañleg/ Oransakañleg og Utseigiañleg. Eñ spur sialfañ þig ad/ Hvad ert þu? J Fyrstuñe eckert/ og sijdañ Leyr Jardar / sem Gud skoop hiñ Fyrsta Mañ af / Gen. 2. Gud er Eilijfur / sa sem er / og sa sem var / og sa sem koma mun/ Apoc. 1. Eñ hvør ert þu? nockurskonar Gufa/ er siest um̃ Hrijd/ eñ hverfur sijdañ/ Jac. 4. Gud er Omælañlegur/ hañ uppfyller bæde Himeñ og Jørd. Þad vottar Zophar af Naema/ seigiande: Job. 11. Muntu med Huganum gieta komest ad Stærd hiñs Almættuga/ hañ er hærre eñ Himneñ/ og diupare eñ Helvijted. Eñ hvør ert þu? Mæl sialfañ þig/ sem ert fæærra Foota Leingd / og megnar ecke med ølle þiñe Ahyggiu ad auka eirnre Aleñ þar vid/ Matth. 6. Gud er Alvitur/ aller Hluter eru berer og nakter fyrer hañs Augum / Hebr. 4. Eñ hvør ertu? Þu veitst ecke hvad a Morgun mune skie / Jac. 4. Gud er Almættugur/ hia hønum er eingeñ Hlutur Omættugur/ Luc. 1. Eñ hvør ert þu? Þu formætt ecke ad giøra eitt hvijtt Haar svart a þijnu Høfde/ Matth. 5. DROttiñ er Riettlætur og goodur / seiger David / Psalm. 25. Og so sem hañ er i sialfum sier/ so er hañ i sijnum Verkum. Eñ hvør ert þu? Þijner Þankar eru vonder i fra Upphafe/ Gen. 8. og so eru þijn Verk / þvi þar er eingeñ sa ed gott giøre / og ecke eirn/ Psalm. 14. Gud er Sañordur / øll hañs Bodord eru Sañleike/ seiger David / Psalm. 119. Ef vier Otruer erum / þa er hañ trur/ Sialfum sier kañ hñ ecke ad neita/ seiger Paall/ 2. Tim. 2. Eñ hvør ertu? Spur St. Paal ad/ hañ mun svara þier/ Rom. 3. Verde Gud Sañordur/ eñ aller Meñ Lygarar. Hvad virdest þier nu syndugur Madur? Muntu ecke/ þegar þu so helldur Reikning mille Guds og þijn/ munt þu ecke (seige eg) fulla Orsøk hafa til ad skamast þijn fyrer hñs Auglite/ sem þier so miklu mættkare/ miklu ædre/ miklu betre/ miklu Riettlætare er/ og i einu Orde ad seigia/ hia hvøriu þu ert miña eñ ecke ad reikna/ Og þ. utañ allt þetta/ þa hefur hñ þig so Aumañ/ so Fæærædañ/ so Vondañ og Onogañ sialfum þier um̃ alla Hlute/ upp ur Þreckinum hafed / og sett þig i sijns Sonar Rijke / Col. 1. Eñ Utelæckad hañ / og giort þier ad øllu Samlijkañ / Hebr. 2. Ad þvi

einu undanteknu er hann var straffadur fyrer/enn þu ert frelsadur fra/ sem er Synden/ Hebr. 5. Fyrer hvoria hann er deyddur/ Enn þu fieckst Lijfgiøf fyrer hans Dauda. Þui skyllder þu þa Aumastur allra skap adra Hluta Guds a Jordunne/ Skyllder þu (seige eg) skæra þig edur melnast i Hiarta þijnu/so sem værer þu nockud fyrer utan Gud/Og ei miklu helldur med Audmykt þijns Hiarta/ þacka honum þess innelegar/ sem hann hefur giefed þier meira Vit a ad þeckia þad/ og meira til þijn lagt enn allra annara. Eirn Guds Eingell hefur honum meira ad þacka fyrer hinn minsta Dropa hans Giæsku/er hann hefur til hans lagt/helldur enn allar skynlausar Skiepnur/fyrer øll Nattúrunnar Giæde og Sköp un allra Hluta. Enn þu syndug Manneskia hefur meira af honum þeig ed i hinum minsta Nædar-Mola Andlegra Giæda/ helldur enn allar Einglanna Hersveiter i øllu þui sem øllum þm er tillagt/hvar fyrer; þui ad til þss/ad þu lifa skyllder fyrer Næd Guds/hefur hann læted Son sinn ecke Einglanna/ helldur Abrahams Sæde uppa sig taka/ Hebr. 2. og giørt þitt Hold sem hann uppa sig took Einglunum so miklu ædra/ sem hann hefur framar þeim ædra Nafn ødlast/ Hebr. 1. og þo læted hinn lifanda Gud i Mannlegu Hollde deya mannlegum Dauda/so þu mætter Gudlegu Lijfe lifa/þui hefur hann so miklu meira til þinnar Upphefdar unned enn til Einglanna/sem JEsum hans Son hefur meira kostad ad endurskapa þig/helldur enn alla Einglana ad skapa/fyrer þui ættu hm so miklu meira ad þacka enn þeir/sem hann hefur meira uppa þig kostad. Enn hvar med villtu honum þacka? Ecke etur hann Kiøt Hafranna/ edur dreckur Blood hinna feitu Uxanna/ Psalm. 50. Offra honum Lofgiørdenne / og giallt honum þijn Heit / þad er audmiukur Ande og sundurkramed Hiarta/ hvørt hann mun ecke fyrerlijta/ Psalm. 51. Þu kannt ad seigia/ Eg iafna mier ei saman vid Gud/ ei hef eg mig upp a moote honum/eg veit/eg a honum allt gott ad þacka/og ef hann vill Doom hallda vid mig/ þa hefur hann Vald til ad kasta Lijfe og Sæ- lu i eilijfann Elld/ Matth. 10. Þu seiger vel / þui allt þetta er meir enn satt / Enn rannsaka Hiarta þitt vel / hvørt Hugur hefur alltijd fylgt Mæle/ Hefur þu audmykt þig so fyrer þijnum Gude sem tyriad

hefur

hefur / bæde med Orde og Verke? Ef hann er þinn Fader/ hvar er þa hans Heidur? Giæt ad þvi JEsus seiger / Matth. 21. um þann Son/ er Faderenn skipade ad ervida i Vijngardenum / og hann kvad jaa vid/ enn foor þo hvørge/ Þad er ei noog ad nalægiast hann med Vørunum/ ef Hiartad er langt þar fra. Vier seigiumst aller eiga ad elska Gud framm yfer alla Hlute/og þad er þad sanna Audmyktar Merke ad elska hann/enn Gud naade hvørnenn þad efnt er/ þar vier latum oss a Stundum alla Hlute skylldare vera enn hans Ord. Þegar Hollded og Andskotenn freista þijn til Syndarennar/ enn þier kiemur þa i Hug ad Gud hafe þ bannad/ samt hlyder þu Holldenu i þess Gyrndum/og lætur Syndena i þvi drottna/ Rom. 6. Er þad ecke ad upphefia sig a moote Gude / og meta framar þess Munad enn hans Bodord? Hvørier erum vier þa a medann? Ecke Guds Þioonar/ helldur Þrælar Syndarennar/ þvi hvør hann Syndena æfer/ hann er Præll Syndarennar/ seiger JEsus/Joh. 8. Vier eigum ad hrædast og skielfast hans Ogurlega Nafn/ enn Menn vanbruka þad a Stundum/ til ad Liuga/ Stela/og Svykia. Hvørier erum vier þa? Peir ad vyssu/fyrer hvøtra Skulld Guds Nafn lastad verdur medal Heidingianna / Rom. 2. Vier seigiumst vera skyllduger a hlyda hans Orde / og giøra þar epter / enn Menn daufheyrast þar vid/ sitia under eirne Predikun Hyrdulauser/og ganga þadann Avaxtar lauser/ og sumum maa valla þangad koma/sem þad er um Hond hafft. Hvad erum vier þa? forgleymannleger Tilheyrendur / enn ei Giørendur Ordsins / Jac. 1. J Krosse og Mootgange siest allra best Audmyktenn fyrer Gude. Sa audmyker sig riettelega under hans volldugа Hønd/er kysser a Vønd Drottens med Þacklæte/þvi hann er hans sann ur Læresveirn: Enn þar vill a Stundum nærsta miog afbera/ þar Menn eru Opolenmoder under DRottens Krosse. Sumer skiooka sier undann hans sæta Oke a allar Lunder med Oleyfelegu Moote/og leita þeirra Bragda er Gud bannad hefur. Er slijkt ad audmykia sig fyrer Gude? Siærre fer þvi. Hvørier erum vier þa? Lyker þim er lyda so sem Þiofar og Mordingiar/ edur þeir sem falla inn i annars Embætte/ 1. Pet. 4. Þvi hvar er vor Audmykt fyrer Gude / Ef vier viljum eckert þola

hans

hans vegna/ Og so sem vier erum nu skylduger a allar Lunder ad audmyk ia oss fyrer Gude vorum Skapara / So vill hann og et helldur ad vier skulum forsmaa vora Brædur i Heimenum/ þvi hvør hann seigest elska Gud/ en hatar sinn Brodur/ hann er Lygare seiger Johannes/ þvi ef hann ecke elskar sinn Broodur/ hvørn hann sier/ hvørnen maa hann Gud elska/ þann hann sier ecke/ 1. Joh. 4. Nu er eckert Verkfære Kiærleikans handhægara en Lytelæted / þvi þad verdur af øllum elskad : Og med þvi dregur Kiærleikuren alla til syn / þa sem ecke Kiærleikann hafa / Þess vegna seiger Paulus um Dygd þessa / Kiærleikuren er ecke miklatur/ hn þykur ei upp/ hn leitar ecke epter þvi sem hns er/ 1. Cor. 13. Og so skum þess ad hann vissi/ ad Lytelæted var Band Kiærleikans/ þa byodur hann Christnum Monnum/ ad þeir hafe hvør annan sier i Virdingum ædra/ Phil. 2. So hefur og JEsus lmted øllum synum Lærisveinum þad Bodord epter/ Hvør sem vill stoor vera ydar a mille/ hn sie hinna Þienare/ Matth. 20. Nefde Johannes vered ægiarn Niegosma Dyrdar / þa hefde hann ecke neitad þvi ad hann Elias edur Spamadur være/ þar hn mætte þo hvørtveggia um sig sæla/ Þviad þad Eina vitnar Christur / Matth. 11. um hann / Enn Annad hans Fader Zacharias / Luc. 1. sem adur er sagt/ Og allt Foolked hiellt hann fyrer Spamann/ Matth. 21. Enn hann villde a moote hvørugu taka/ so hann giæfe Gude Einum Dyrdena. Ecke Olykur i þessu synum Herra / hvørs Eingell hann var / Mal. 3. Hvør þa hann var af hinum Skriftlærda kalladur goode Meistare/ svarade hann : Hvad kallar þu mig Goodann ; Einginn er Goodur nema Gud eirn/ Marc. 10. Ecke neitade HErrann þvi ad hann Goodur være / villde þo ecke þiggia þann Titel af hans Munne/ er hann so kallade epter synum þanka / þad er eins Goodann og Pharisæi voru/ hvøria Folked kallade Gooda/ af þvi þr gæfu so miklar Olmusur/ Enn Saduceos Riettlæta/ af þvi þeir gæfu eckert epter/ toku ei helldur neitt rangglega fra neinum. Hvar til St. Paall synest lyta/ Rom. 5. er hann seiger/ ad valla mune finnast nockur sa ed þ Riettlætann deyr/ þvi kannskie einhvør finndest sa ed dæe fyrer hinn Gooda. Þann veg forsmæde Christus og hans Eingell Johannes

hañes ſannlla Virdingu Heims þeſſa / Og ei var St. Paall odruvyſe ſyndur er hañ ſeiger / 2. Cor. 12. Ef eg hrooſade mier / þa være eg þo eingeñ Dare / þvi eg ſkal ſatt ſeigia / eñ eg hlyfeſt vid þad / ſo ad eingeñ þeinke um̃ mig fram̃ yfer þad ſm̃ hañ ſier mig vera / edur heyrer af mier. Johañes ſeiger hier i Gudſpiallenu: GReide þJer GOtu DROTTeñs. Ord þau eru tekeñ af Eſaiæ Spaadoms Bokar 40. Cap. þar ed ſo ſtendur: Þar er Rødd eins Hroopanda i Eydemørku / Greide þier Gøtu DRottens / og gøred ſlietta Vegu Gude vorum i Obygdeñe. Þegar Meñ ridia eirn Veg og giøra hañ færañ / taka Meñ i burtu Storgryte z allar Ojøfnur ſo greidt verde um̃ ad fara. Offe og Hroke Veralldar Barnanna eru Torfærur þar ſem Guds Veg hindra i Mañſins Hiarta. Hvadañ kiemur Stryd z Baraatta Mañanna a medal? Hvadañ kiemur Ofund og Vlfbud / hvadañ vex Agg / Reide og Þræta / hvadañ uppſtygur Agyrne z Fiedrat tur / hvadañ framkiemur Mord og Mañſlag / hvadañ er þ ad Meñ tøñlaſt og tiggiaſt iñbyrdis / þar til þeir um̃ ſyder mætti verda uppetners Zach. 11. Kiemur ecke allt þvilykt af hiñe bølvudu Drambſeñe / er Satan iñrætter i Mañañna Hiørtu? Hvørneñ a Zions Konungur ad ryda um̃ ſlykañ Veg / þegar ſa Drottnareñ kiemur til ſyns Muſteris? Mal. 3. ſem er Mañſins Hiarta. Þeir breiddu ſyn Klæde a Veigeñ fyrer hñ / þegar hñ ſydarſt iñreid til Jeruſalem / og dreifdu Kviſtu Triaña a hñs Gøtu / þad var Audmyktar z Fridar Merke / þvi a og i burtu ad ridia Stoorgryte Drambſemeñar og Offſtopans af hñs Leid / ecke med Lykamlegum Verkfærum / helldur med Guds Orde / um̃ hvørt Paall ſkrifar / 2. Cor. 10. Ad Vopn Herfarar vorrar ſieu ei Lykamleg / helldur kroptug fyrer Gude / nidurbriotande Hugreñingarnar / og allar Hæder ſem ad upphefiaſt a mote Guds Þeckingu: Eñ hvøriar munu þær Hæder vera? Þad eru medal añara Fiøll Drambſemeñar / þvi eckert mootſtryder ſañre Guds Þeckingu meir eñ Þeckingarleyſe ſyns eigeñ Overdugleika / ſm̃ er Mooder Drambſemeñar. Þvi ſeiger Rødd Hroopandans / ad aller Daler ſkule upphefiaſt / og øll Fiøll og Hælſar nidur þryckiaſt. Hvad er þad añad eñ þad ſem Guds Mooder ſyngur i Lofkvædenu / Luc. 1.

Dramblætum hrinder hn̄ af Stoole/ en̄ upphoof Lijtelæta. Og þott ad þysse Hroopandans Rødd/ spaae sier i Lage um̄ Guds Rad i Evangelio/ og Lagfæring allra Hluta fyrer Christū/ hvørrar Frumkvødull Johan̄es var/ þa ma eg þ vel heimfæra uppa þetta Efne/ þvi Fatækum/ þad er andlega Voludum og audmiukum i Hiarta verda Gudspiøllen̄ bodud/ og þ ecke sijdst vegna þeirra Orda er hier standa skømu sijdar i þessū 40. Cap. Esajæ/ a þen̄an̄ Hatt. Þar er ein Rødd sem seiger: Predika þu/ og eg sagde: Hvad skal eg predika? Allt Holld er Hey/ og allt þess Agiæte so sem Bloom Akursins. Grased uppþornar og Bloomstred fellur af/ þa Ande DRottens blæs a þad/ ia Foolked er Hey. Hvar er þa seiged mier/ hvar er þa allt vort Afgiørfe? og allt þad Men̄ dramba af i Heimenū? Er þad Audur og Rijkdomur? Fallvallt er þ/ og giører margan̄ vondan̄/ þ ablast med Ahyggiu/ en̄ tapast med Sorg. Og nema Men̄ giøre so sem Jacob bijdur þeim Rijku/ Cap. 1. Ad hroosa sier i sin̄e Lægingu/ þa er þad Volædenu verra. Er þad Mekord og Virdingar? En̄ David seiger Maduren̄ blijfe þo ecke leinge i Heidrenum/ Ps. 49. og Prældomur eru þau reindar. Er þad gøfugt Forelldre og Affspreinge? En̄ vier erum þo aller af Adam komner: Han̄ var Utlage Guds ur Paradys. Fyrer hvøria Søk/ er oss alkun̄ugt/ Gen. 3. Fegurd og Prijde Lijkamans/ þad er fallvallt/ þvi Bloomstrid fellur af seiger Esajas i 40. Cap. Eirn Siukdoomur fær þvi øllu umbreitt: Þvi þegar þu tiptar DRotten̄/ þa følnar øll þra Fegurd/ fagur Bunadur og skrautleg Klæde/ Ps. 39. Þad sagde eirn af þeim gømlu/ ad være eins og ef Þioofuren̄ stærde sig af Snørun̄e. Þrootthur og Styrkleike Lijkamans? En̄ Hesturen̄ er en̄ þa sterkare/ þvi skylldu Men̄ þa ecke han̄ virda. En̄ hin̄ Almattuge hefur et Lyst a Styrkleika Hestsins/ edur a Footleggiū Man̄sins. Nia DRottne eru þeir vel þockader/ sem̄ hn̄ Ottast og til hn̄s Myskunar vona/ Ps. 147. Hvad er þa framar/ sem Maduren̄ kun̄e so ad meknast af? Kun̄atta og Vijsdomur er mest tignad i Heimenum/ og er hin agiætasta Guds Giøf/ en̄ so er han̄ bestur/ ad han̄ sie med Guds Otta kryddadur/ þad vottar St. Jacob/ seigiande: Ef nockur

er vÿs / edur med Skynseme gáfadur medal ydar / þa auglÿse hañ
Verk sijn i goodre Vmgeingne med skynsamlegu Hooglæte / Cap. 3.
Og hvad eru aller vorer Vitsmuner fyrer utañ þetta / Páll seiger / ad
þeir sieu Hálfverk / 1. Cor. 13. Og hvad meira er / ad þeir eru einskis
verder / og jafnvel skadleger / nema þeim Guds Otte og Kiærleikureñ
fylge. Þvi seiger Postuleñ eñ aptur / 1. Cor. 8. Ef einhvør þykest
nockud vita / þa veit hañ þo eñ nu eckert / so sem vita byriar / Eñ ef
nockur Gud elskar / hañ er fæddur af hønum. Og þott ad Skynsemeñ
og Vitsmunerner sieu ein su hin besta Guds Gáfa / er hañs Giæska
hefur sæmt oss med / þa verdur heñe med Drambsemeñe so spillt / ad hun
verdur Ovite argare / þvi seiger Paulus / 1. Cor. 3. Eingeñ ville sialf-
añ sig. Ef nockur þykest Vitur vera medal ydar i Olld þssare / hñ ver
de Heimskur so hñ vitur verde. Þar skilst mier Postuleñ meine / ad hñ
skule giæta ad hvad lÿted hñ veit / so hañ stære sig ecke / þvi Skynseme
Veralldar þessarar seiger hañ / er Heimska hia Gude / 1. Cor. 3. Nu
þo ad allar þessar Guds Gáfur sieu harla goodar / ef þær eru riett
brukadar / þa er samt þess ad giæta / ad þad er ecke vort eiged / og hañ
má frialst / sm̃ þad allt liente / ad taka þad fra oss a hvøriu Tÿma / sm̃
vier þad vanbrukum. Af øllu þessu siáum vier / hvad lÿted ad þad
sie / er daudleger Meñ bruka til Stærelætis / giætande ecke þess / ad
Virdingeñ ellter þañ / sem hana flÿr / eñ flÿr fyrer þeim hana ellter /
ef ei añarstadar / þa hia Gude. Postuleñ seiger til Gal. 6. Ef nockur
þykest vera nockud / þar hañ er þo eckert / hñ viller sitt Hiarta / Eñ ef
vier eckert erum / þvi vilia Meñ þa krefia þess / so sem añarar Vita-
Skulldar / ad vier sieum virdter af Møñum. Ei seige eg þad / ad þm̃
skule ei Heidur veita / er Heidur heyrer / Rom. 13. þvi þad er Guds
Bod. Hitt seige eg / ad þeir sem vid eiga ad taka / skule ecke una þvi
Illa / þott af slÿku meige bera a stundum / þvi sa sem mætar fyrer Gu-
de / þad hañ eckert sie i hañs Auglite / og þad af Alvøru og Hræsn-
islaust / þa sie eg ecke ad hñ þurfe meir ad spyrgia fyrer Virdingu siñe /
helldur eñ hiñ / sem ecke er eñ nu fæddur. Hia oss er eckert gott / þvi
skylldum vier stæra oss? Hia oss er margt illt / þvi skylldū vier ei skam-

ast vor? Oss kañ margt illt til ad falla/ þvi skylldum vier ecke jafnañ hrædder vera? Oss kañ sialfa margt illt ad henda/ þvi skylldū vier ecke jafnvel hrædast oss sialfa og leggia af ad forlaka oss uppa þad sem eckert er? Ef vier jatum þad fyrer ødrum ad vier eckert sieū/ og meinum þad ecke/ þa svykium vier adra. Eñ ef vier meinū þad og þeckium þad sem vier vel meigum meina og þeckia/ eñ hegdum oss ecke þar epter/ þa svykium vier sialfa oss. Gud sa sem er allt i øllu/ 1. Cor. 15. Hañ lytelæckade sig þiña vegna/ Syndugur Madur/ og þu sem ecke ert neitt i neinu / Villt ecke briota Odd af Oflate þijnu hañs vegna/ Gud/ seige eg eñ nu/ lytelæckade sig til ad verda Madur/ eñ Madureñ vill þo ecke lytelæcka sig til þess / ad verda eirn Ande med Gude. Þess meir sē þu audvirder þig fyrer Gude/ þē meire verdur hñ i þier/ og þess stærre sē hñ i þier verdur/ þess verdur þu stærre i honum/ þvi Gud mootstendur Dramblatum/ eñ Lytelatū giefur hañ Naad/ seiger Jacob/ Cap. 4. Og hvad hellst sem stoort edur ágiætt kallast/ þad er alleina stoort og ágiætt i Gude / og fyrer utañ hañ / allsdeilis eckert. Hvar fyrer Paall seiger: Hvor hañ hroosar sier / Hañ hroose sier i DRottne/ 2. Cor. 11. Þar fyrer / nær sa Guds Madur hefur upptaled allt þad/ er adrer reiknudu sier til Gylldis/ sem er/ ad hañ være Hebreskur eins og þeir / Israels Madur eins og þeir / Abrahams Sæde eins og þeir/ Christs Þienare eñ framar eñ þeir/ Hañ hafe ervidad meir eñ þr/ optar i Hæska vered eñ þeir/ þa endar hñ med þessu Atkvæde/ Ef hroosa skal/ þa vil eg hroosa af þm̄ Hlutum er Veikleika mijnum vidkoma/ 2. Cor. 11. og eñ framar seiger hañ/ Cap. 12. Eg mun mikklu fegnastur hroosa mier af Veikleikanū/ so ad Mættur DRottens bue i mier / þar fyrer em eg vel til Frids i Veikleikanū / J Forsmaanenē/ J Naudunū/ J Offsoknunū/ J Angistenē fyrer Christum/ þvi þa eg er Veikur/ þa er eg Mættugur. So er þar nu eingeñ Rijkdoomur/ eingeñ Styrkleike/ eingeñ Heidur/ eingeñ Fegurd/ eingeñ Skynseme/ eingeñ Mattur/ eingeñ Dijrd/ eingeñ Prijde nema i Gude alleina/ og eckert þad Meñ kuñe ad vegsamast fyrer/ nema einsømul og hræsnislaus Audmykt fyrer honū. Þvi vil eg enda þetta mitt Tal til

ydar

ydar Guds Børn med Pauls Ordum / af Pistlenum til Gal. 6. Pad verde mier ecke / ad eg hroose mier nema af Krosse DRottens vors JEsu Christi / fyrer hvorn mier er Heimurenn Krossfestur / og eg Heimenum. Honu DRottne JEsu med Fødur og Heilogum Anda / einum og þrenum Odaudlegum Konunge / og alleina Vijsum / sie Lof og Heidur / Kraftur og Styrkleike / Æra og Vegsemd / søgd og sungenn af øllum Tungum Eingla og Manna / nu hiedann i fra og ad Eilijfu / A M E N.

# A Joola Noottena.

Gudspiallid / Luc. 2. Cap.

Vann Tijma. Og pad bar til a peim Døgum / ad pad Bod gieck ut fra Keysaranum Augusto / pad Heimurenn allur skyllde Skattskrifast. (þesse Skattskrift hoofst fyrst upp þa Cyrenius var Landstioornare i Syria.) Og þeir fooru aller ad lata Skattskrifa sig / hvør til sinnar Borgar. Pa foor og Joseph af Galilæa ur Borgenne Nazareth / upp i Judæam / til Davids Borgar Bethlehem / af þvi ad hann var af Huse og Kyne Davids / so ad hann liete Skattskrifa sig þar med Mariu sinne Festar-Konu Olettre. Enn pad skiede so / pa er þau voru þar / ad þeir Dagar fullnudust / ad hun skyllde fæda / og hun fædde sinn Frumgietenn Son / og vafde hann i Reifum / og lagde hann nidur i Jotuna / þviad hun fieck eckert annad Rum i Giesta-Herbergenu. Og Fiarhyrdarar voru þar i sama Bygdarlage um Grandana vid Fiarhusenn / sem geymdu og voktu yfer Hiørd sinne um Nootthena. Og sia þu / pad Eingell DRottens stood hia þeim / og Guds Byrte liooinade i kringum þa / og þeir urdu miøg Ottasleger. Og Eingellenn sagde til þeirra : Hrædest þier ecke ad hrædast. Siaed / Eg boda ydur mikenn Fognud / þann er skier øllu Foolke / þviad i Dag er ydur Lausnarenn foddur / Sa ad er Christur DRottenn i Borgenne Davids. Og hafed pad til Merkis / ad þier munud finna Barned i Reifum vafed / og lagt vera i Jotuna. Og jafnsnart þa var þar hia Einglenum mykell Fiølde Himneskra Hersveita / sem lofudu Gud og søgdu : Dyrd

ſie Gude i Upphædum/ og Fridur a Jørdu/ og Mønnum goodur Vilie.

# Exordium.

SKielfeleg Ognan munde Veſølu Mañkyne hafa ſtaded af þvi þrædelega Straffe med hvøriu hiñ Riettlaate Gud fargade hiñe Vantruudu Verølld a Døgum Noa/ nema hañs Gæſka hefde giørt Saattmaala vid Mañkyned/ ad hañ framar ecke villde Eydeleggia Jørdena med Vatns-Floodenu/ og þeſſu til Merkis ſett Bogañ i Skyeñ/ ſeigiande: Þegar þeſſe Boge verdur i Skyenu/ þa vil eg miñaſt a Saattmaalañ a mille Guds og allra lifande Skepna/ af øllu Hollde a Jørduñe/ Gen. 9. Med þeſſum Hætte lyſte hiñ Naadnge Gud Fride yfer Jørduñe og þeim þar ꝥ lifa. Og er þad viſt/ ad hañ hefur lited under eins til þeirra/ ſem a hañs Eingietens Sonar Nafn trua mundu. Færre ſie þvi/ ad Regnbogeñ kyñe þvi ad vallda/ ad Gud yrde Mañenum Naadugur/ eſ helldur þurfte hañ ad lꝍta miña ſig a þad hañ giøra vilde/ jafnvel þoott Ritningeñ ſo tale ad Maña plagſid/ Aller Luter eru opner og nakter fyrer hønum/ Heb. 4. Eñ þar JEſus ſitur til hañs hægre Handar/ og hañ ſier þar Liooma ſiñar Dyrdar og Jmind ſiñar Guddoomlegrar Perſoonu/ Heb. 1. voru Hollde Jklædda/ og bidiande fyrer oſſ/ þa maa hañ ei añars eñ miñaſt ſiña miklu Myſkunſemda/ ſem vered hafa i fra Upphafe/ ſydañ hañ lofade ad Kvinuñar Sæde ſkyllde ſundur mola Høggormſins Høfud/ Gen. 3. Bid þier eins Teiknis af DRottne þynum Gude/ ſagde DRotteñ til Achas/ hvørt helldur þad er nidre i Undersdiupunum edur a Hædum uppe/ Eñ hañ ſagde: Ei vil eg þeſſ bidia/ ſo eg freyſte ecke DRotteñs/ Þa ſagde Spaamadureñ: So heyred þier þa af Huſe Davids/ Hvørt er þad oflyted/ ad þier þreyted Meñena/ þad þier eirneñ villed mæðra miñ Gud/ fyrer þvi mun DRotteñ ſiálfur gefa ydur eitt Teikn/ Sia þu Ein Jomfru mun Barn Getta/ og eirn Son Fæda/ og hañ mun hun kalla Jmmanuel/ Eſa. 7. Þetta er Teikn hiñs mikla Guds og DRotteñs vors JEſu Chriſti/ hvør ad er Eingell Saattmaalans a millum Guds og Maña/ Mal. 3. Hañ er øllum til Merkes ſettur/ ecke i Skyum Himens/ helldur fæddur af eirne Jomfru/ a medal vor hier a Jørduñe/ til Stadfeſtu þar uñ/ ad þeir fꝍe aller Kvittun Syndaña ſem a hañs Nafn trua/ Act. 10. Sæl eru þau Augu/ er ſiaa hvad þier ſiaaed/ ſagde Endurlauſnareñ vid ſyna Læreſveina/ Luc. 10. Eñ ecke talade hañ alleina uñ þad/ ad lyta ſig og heyra med utvortes Skilningarvitum/ Marger ſaau hañ og hneixludust a hønum/ þeir ſaau hañ/ og þar var ekert Gyrnelegt a hønum/ Eſa. 53. Þeir ſaau hañ og byrgdu fyrer Slooner hønum/ Luc. 22. Þeir ſaau hañ og hræktu i hañs Andlit/ Matth. 26. Þeir ſaau hañ/ og ſaau undir eins ſyna Vilid a hønum. Eñ ſo ſem Gud ſette ſiñ Boga i Skyeñ til þeſſ/ ad hañ være Naadar-Teikn øllum Møñum/ Og hefur hañ þo ſialfum ſier geimt ad ſtraffa þeirra Oguðlegt Framferde/ ſem hañs Naad forſmaadu/ ſo hafa þeir marger ſied Chriſti Pioons Mynd hier i Nadeñe/ er ſiaa munu hañ reidañ og Ogurlegañ/ þegar hañ kiemur i Skyum Himens med Magt og miklu Vellde/ Luc. 21. Eñ ef vier villum vita uñ hvørra Sioon hañ talar/ þa heyrum hvad hañ ſagde vid Thomas Poſtula/ Joh. 20. Af þvi þu ſaaſt mig Thoma/ þa trwder þu/

þu/ Eñ Sæler eru þeir sem ecke sia / og trwa þo. Þad er ad sia JEsum Christum Guds og Mariu Son / vorn Hollde klæddañ / med Augum hiñs tñra Mañs / oss til Riettlætis / til Helgunar og eilijfrar Saaluhiælpar giefeñ / 1. Cor. 1. Oss seige eg / sem ad i Synduñe erum getner / og i Synduñe fæddet / Psalm. 51. Reideñar Børn / Eph. 2. og Guds Oviner af Natturuñe, Róm. 5. Þesse Dyrdarfullu Sioon verdur ydur og øllu Mañkyne þraamboden i Lofsaung Heilagra Guds Eingla þar þeir syngia: **Fridur a Jordu / og Mønum Goodur Vilie.** Og villum vier a þessare Hatijdes Nootte þesse H. Ord nockud giør yfervega / og af þeim hugleida / hvørsu Gledelegur ad þesse Fridur sie / og hvørnen vier eiga um hønum ad taka. Til þessa Eptwndis Framkvæmdar virdest ad hiælpa oss vor Nijfæddur Immanuel / Fyrer Krapt siñar Forþienustu / A M E N.

## Utleggingeñ.

HVad mun þvi valldа/ Brædur mijner / ad hiner Himnesku Andar eru so glader a Fædingar Nootttu Mañkynsins Endurlausnara? Ecke þurftu þeir Frelsis vid / þvi þeir høfdu ecke syndgad. JEsus hafde Abrahams z ecke Einglañа Sæde uppa sig teked/ Hebr. 2. Hvad mun þa vallda Gladværd þessarе? Guds Sonur er ad sonnu fra Herra/ eirneñ epter Mañdoomenum / Hefde hañ beded siñ Fødur / þegar hañ var i siñe mestu Angist staddur vor vegna / þa munde hañ hafa giefed hønum meir eñ Tolf Legion Eingla / Matth. 26. Einglar komu og þioonudu hønum / þa hañ var hartnær yfergiefeñ/og so ad seigia Andskotanum ofurselldur/ þad hañ freistadur yrde/ Matth. 4. Fyrer hvi var þad ecke ad undra / þott þeir gladst hefdu / ef hinum Nijfædda Syne Guds hefde nockur Heidur edur Upphefd hlotnast / Eñ þad mætte ecke so kalla / þvi Paulus talar so hier um/ Phil. 2. Ad hañ hafe lijtelæckad sialfañ sig / takande a sig Þioons Mynd/ og ordeñ Mønum lijkur. Þad fyrsta hañ sa þessa vesæla Heims Lioos/ var hañ lagdur i Eirn Stall/ Luc. 2. Og stømmu þar epter vard hañ Landflootta / Matth. 2. og um allar synar Æfe-Stunder hafde hañ ecke þar hañ synñ Høfde synu ad halla ad / Matth. 8. Þvi synest so sem ad hañs Kiørum være ecke so miøg ad fagna i þessa siñ. Hvad þa/ Brædur mijner? Vier vitum epter St. Paals Mune/ad Einglarner eru Þionustusamer Andar/ utsender þeim til Þioonkunar / er Saaluhiælpena erfa skulu/ Hebr. 1. Og þott ad vier sieum Vesæler og synd-

ugerf

ugger/ þa er þo meire Glede hia þeim i Himnenum / yfer einum Synd-
ara/sem Yðran giører / helldur enn yfer Niu og Niutyu Rietklætum/
Luc. 15. Þar af er audsært ad þessar Guds Hersveiter hafa so teked Ast
fooftre vid oss auma Menn/ þott vier sieum þeim ad øllum Edlis hætt
um Olyker / ad þeir glediast yfer sierhvøriu þvi Happe / er nockur af
oss hlytur/ Enn ef þeir so glediast yfer allre Giæfu vorre : Þvi mundu
þr þa ecke Beniu framar lysa þessu Føgnude/ þegar oss a Nætursty-
ma upprann su Sool/ er alldrei hefur nockur fegre yfer Heimenn skined /
og þegar oss su Heill ad Høndum kom/ af hvørre allra Guds Barna/
Rykra z Fatækra/ Hærre og Lægre Stiettar/ nalægra og fiarlægra/
fæddra og ofæddra/ lymanleg og eilyf Heill og Hamingia uppsprettur
og frammflytur. Þess giefur Johannes/ Cap. 1. Er hann seiger : Ad
af hans Fyllingu hofum vier aller medteked Naad fyrer Naad. Þar fyrer
liooma hin Guddoomlega Byrle i kryngum Hyrdarana/ so sem vitnande
þar umm/ ad hann være i Heimenn borenn/ sem ad er Lioome Fødursins Dyrd
ar/ og Imind hans Guddoomlegrar Persoonu/ Hebr. 1. Fra hvøriam
Lioosanna Fødur/ ad øll Good Giøf/ og øll fullkomenn Giøf kiemur.
Jacob. 1. Hvørium og þocknast hefur/ ad i synum Syne skule øll Fyll
ing bua. Col. 1. Ia sialf Guddomsins Fylling/ hvør ed bygger i hønn
um Lykamlega/ Col. 2. Þad er i hans Blessudum Manndoome/ er hann
af voru Hollde og Bloode hefur uppa sig teked/ og giørt Hlutttakande
Guddoomlegrar Naatturu. Æ oss auma og synduga Menn/ vier sieum
ecke fyrer Blindu Hollsins/ hvad mikeð oss veitt er i JEsu Holldtek-
iu/ Myrkur vors Skilnings fær þad ecke høndlad/ so sem þad er. Enn
Guds H. Einglum er jafnann standa framme fyrer hønum/ Matth. 18.
Þeim er alkunnug Sæla su er øllum Guds Børnum er tilbuenn / hvør-
re vier tapad høfdum i Adams Falle / Þeim eru og ecke Okunnugar
Þysser Gordæmdra er kveliast munu i Augsyn heilagra Eingla/ seig-
er Johannes i hans Openberingum/ Apoc. 14. Þvi er ecke ad undra/
þo Einglarner fagne/ þar hinn annar Adam/ sem er DRottenn af Him-
num/ 1. Cor. 15. var i Heimenn borenn/ til ad frelsa oss fra øllum þeim
Oskøpum/ þvi þeir elska Mannkyned / Enn vissu ad i JEsu Fædingu
var

þar Moñunum giefeñ ſa Koſtur / ad forlykaſt vid Gud / og ſetiaſt
verda i hañs Sonar Ryke / Col. 1. Nu er þad vyſt ad ſoñu / ad vier
ecke ad fullu þeckium hvad vier miſt hofum / edur hvør Olucka oſſ
bueñ være / Nema Guds Sonur være i Heimeñ komeñ ſynduga Meñ
Saluhoolpna ad giøra / 1. Tim. 1. Eñ þo mættum vier ad ſo myklu
Leite þeckia vort Andlegt Volæde / og ſo miked hefur oſſ ſagt vered
af hiñe Eilyfu Dyrdarviſt i Himmarijke / ad ef vier legdum nockurn
Hug a vort Maal / þa mundum vier allshugar fegner verda / ad vier
hofū hana aptur feinged / og rooa ollum Arum ad þvi / ad vier ſleptū
heñe ecke aptur ad nyu. Eg hefe noog ſagt hier um / þegar eg ſeige
þad med Ordum Eſajæ / hvøriu Synder vorar til Leidar koma: Ydar
Synder ſeiger hañ / ſkilia a mille Guds og ydar / og ydar Ranglætinger
vallda þvi / ad hñ byrger ſitt Andlit fyrer ydur / og vill ydur ecke Bæn-
heyra / Eſ. 59. Nu vitū vier þ / ad vier lifū ecke eina Stund an Synd-
ar. Heyred hvad David Konungur talar um allt Hold / Pſ. 14. Pſ.
5. og 10. og 36. Salomon Prov. 1. Eſajas 59. Þar er eingeñ Rietlat-
ur / og ecke eirn / þar er eingeñ ſkyniande / og eingeñ ſa ad Gude leite /
Aller hafa þeir afviked / aller til ſamans eru þeir Onyter ordner / þar
er eingeñ ſa ed gott giøre / og ecke eirn. Nu ſeiger Paall / er hñ fører
þeſſe Ord til ſyns Maals / Rom. 3. Nu vitū vier ad hvad ſē Logmaal
ed ſeiger / þad ſeiger þ þm ſem under Logmaalenu eru / ſo ad aller Muñ-
ar verde tilbyrgder / og allur Heimureñ ſakfalleñ vid Gud. Eñ ef Guds
Sonur være ecke i Heimeñ komeñ til ad frida fyrer oſſ / þa værum vier
aller under Logmaalenu / og eñ þa i vorū Syndū / þvi ad Logmaaled er þ
Moyſen utgiefed / eñ Naad og Sañleike er ſkien fyrer JEſum Chriſt-
um / ſagde Baptiſta / þegar hañ hoof Chriſtne Boded / Joh. 1. So ad-
ſkilia nu Synder vorar a mille Guds og vor. Seiged mier þa / er þ ecke
mikellrar Glede og Fagnadar vert / ad hañ er oſſ i Heimeñ fœdeñ / ſem
heiter Jmanuel / Eſa. 7. Þad er Gud med oſſ? J hvørs Nafne hiñ
naaduge Gud hefur til ſiñar Chriſtne talad / þad er til allra þra ſem a
hñs Nafn trua / Eſa. 54. Þott ad Fioll þeſſe hverfe a Bak aptur / og
þſſer Hallſar ur Stad hræreſt / þa ſkal myn Giaſka ecke fra þier vyk-

ia/og Saktmale myns Fridar ecke vid þig skilia/seiger DRottenn þinn Myskunare. O hvørsu gledelegt er þetta/þegar eirn fatæckur Synd are/hvørs Samvitska vitnar a mote hønum/ad hann hafe eckert aflad enn Daudann forþienad/ þegar hann/seige eg/ huxar til þeirrar Ognarlegu Tydar/nær Konungar Jardarennar z Høfdingiarner/og hiner Ryku z hiner Volldugu/seigia til Fiallanna og til Biarganna/falled yfer oss/og hylied oss fyrer Auglite hans sem i Hasætenu situr/ og þ Reide Lamb- sins/Apoc. 6. Þess er og ad giæta/Brædur myner/hvør hann er/sem ad vier vorum missætter vid/ Ofridurenn er ad þvi Leite hrædelegur / sem hann er Volldugur til/sem heriar a Landed. Hvør er sa Konungur/er hann færer Hernad a mote ødrum Konunge/ad hann eige setie sig nidur og rad- slage/hvort hann giete med tiu Þusundum mætt hønum/sem med tuttugu Þusund kiemur a moote hm̄? sagde DRottenn vid Lærésveinana/Luc. 14. til ad syna þeim hvør ad være Munur Guds og Manna. Mundu vier gieta svarad hinum Riettlata Gude einu a moote Þusund/ ef hann vill i Dom vid oss ganga/Job. 9. Hann er Herrann/vier erum Þrælar ner/Hann hefur skapad oss/vier vanskøpum oss Daglega/ hann hefur oss allt gott giørt/ vier giørum allt Illt a moote hønum. Hann vegur Fiøllenn a Vigt/og Halsana med synum minsta Fyngre/Es. 40. Vier megnum ecke ad giøra eitt svart Haar hvítt a voru Høfde/ Matth. 5. Nia hønum er einginn Umbreiting edur Mynd til Umbreitingar / Jac. 1. Vier erum ein Vatnsboola/ Vier megnum ecke hinum minsta Vesælinge hid minsta Mein ad vinna an hans Vilia/Hann hefur Valld til ad kasta Lyfe z Saalu i eilyfann Elld/Matth. 10. Hvør vill faa stadest nær slykur Herra er reidur? Hvørsu Fagnadarsæll er þa Bodskapur þesse ad vier Fridkeipter erum/og i Saatt komner vid hann sem allt Valld hefur bæde a Himne og Jørdu: Matth. 28. Og ef vier vilium ganga nær og skoda / hvør ad sie Mismunur Løgmalsins/ sem fyrer Moysen er giefed/Joh. 1. og Evangelij/ sem Christur hefur fært oss ur Skaute Fødursins/ þa er þad i mørgum Hlutum audsied : Løgmaled var med stoor- ra Ognan z Reidar þrumum utgiefed/ ef ad jafnvel eitt Kvikinde snerte Fiallsins Ræturnar sagde Gud/Exod. 19. þa skal þad Dauda deya.

Hia

Nid fyrsta Nya Testamentesins Evangelium/ er med Lofsaung Heilagra Eingla bodad/og almenelegu Fridar Bode yferlyst. Af Fialled Sinai skalf z titrade af Guds Ognan/Par saust Leiptraner z Elldingar/so ad Moyses/sem var hin meste Fullhuge/ og so var kunnugur Gude/ad hann talade vid hn eins z Madur vid Mann talar/ Exod. 33. Hann sagde: Eg em hræddur og skialfande/ Hvad Paulus tilfærir til Dæmis um þesse stor Vndur/ Ebr. 12. Enn hier lioomar Guds Byrte i kringum Hyrdarana. Og Eingillenn seiger vid þessa Vesalings Smala Menn: Ottest ecke/ þviad i Dag er ydur Lausnarenn fæddur/ sa ad er Christur DRottenn i Borgenne Davids. Menn hallda ad Einglarner hafe geinged a mille Guds og Moysen/til ad afhenda honum Logmaled/eda ad vyssu a einhvorn Hatt þionad ad þvi/þad seiger Stephanus hinn fyrste Pyslarvottur Guds / nærre med berum Ordum tvisvarsinnum/ Act. 7. Þad stadfester St. Paall/ Gal. 3. og Hebr. 2. Enn ei heyrest ad þeir hafe þa bliddlega til hans talad/ sem ei var Von/ þvi Logmaaled verkar Reide / Rom. 4. Og er vegna Yferrrodslunar utgiefed/Gal. 3. Eg vil ecke fa mier til Orda þær grimmu Hoofaner/ er Logmalenu fylgia. Ef þu hlyder ecke Raustenne DRottens Guds þyns seiger Moises/Devt. 28. þa skulu allar þessar Bolvaner koma yfer þig og hondla þig: Bolvadur skalltu i Borgenne vera/ bolvadur a Akrenum/bolvud skal þyn Hyrdsla vera/ hvar þynar Afgangs Leifar eru/z bolvadur skal þinn Lyffsens Avoxtur vera/ þinn Jardar Avoxtur z þinna Sauda/Bolvadur skalltu vera nær þu geingur inn/bolvadur nær þu utgeingur/med ødru fleira/og allre þeirre Olucku er Logmalsins Yferrrodsla steiper yfer syndugar Manneskiur z hrædelegt er upp ad telia. O/hvørsu er þ Olyyt honum/er sagde: Komed til myn aller þier sem Erfide dryged og þunga erud þiunder/eg vil endurnæra ydur/ Matt. 11. Hann medtok Tollheimtumenn og Bersynduga/ aat og drack med þeim/ Luc. 15. Til ad mvinna þa til Guds Rykis / þolde Brygsle og Amæle vondra Manna / þeirra vegna. Hann ed sagde vid hina Bersyndugu Hoorkonu/hafe eingenn fordæmt þig/so fordæme eg þig ecke/ helldur/gack burt og syndga ecke framar/Joh. 8. So ad þad maa satt

 segia/

saka / ad hinn naduge Gud hefur ecke um Skør fram spaad um sinn Eingieleen Son / Esa. 42. Sia mijn Pioon þann er eg afiast / og minn hinn Utvalde / a hvarium eg hefe Velþocknan / eg hefe hønum minn Anda giefed / hann mun Doomenn utflytia medal Heidinna Piooda / hann mun hvørke kalla nie hroopa / og hans Raust mun ecke heyrast a Strætunum / þann brakada Reyr-Legg mun hann ecke i sundur briootal / og þann lijtt logande Hørkveik mun hann ecke utslockva / hann mun kiesa ad hallda Domenn med Sannleikanum / hann mun ecke Mæglunarsamur nie hrædeleg ur verda / so ad hann a Jordu Domenn uppbyrie og Eyarnar munu epter hans Løgmaale vænta. Þegar þier nu þetta hvørtveggia samansbered / Brædur mijner / og ef þier þykest nockuvid Gud seker vera / þa er lijkt legt ad þier munud finna til i Hiarta ydar / hvørsu glødeleg ad sie JEsu Fæding. Eydinginn var Fegnudur þsse allra fyrst bodadur / so sem Von var til / so ad Spaadomarner yrdu uppfyllder / þss gieta þeir Sk. Paall og Barnabas / Act. 13. er þeir søgdu vid þa : Til ydar byriade fyrst ad tala Guds Ord / enn vær adret høfum þss sijdann noted / þar fyrer spaaer Esajas so um Jerusalem. Myrkred mun hylia Jordena / og Dimm a Þioodernar / Esa. 60. Enn Drottenn mun upprenna yfer þier / og hans Dyrd mun sioast yfer þier / og Heidingiarner munu ganga i þinu Liose. Þvi lijser Eingillenn i Samtalenu vid Hyrdarana / þar hann seiger : Eg Boda ydur mikenn Fegnud / þann er skier øllu Foolke. Hier er ecke Gydingur nie Grickur edur Schyta / ecke Þrall edur Frelsinge / Gal. 3. Helldur aller eitt i Christo Jesu / Col. 3. Epter hans Løgmaale munu Eyarnar vona / seiger Esajas 42. þad eru heidnar Þiooder / So plagar Ritningenn þær opt ad kalla. Þetta meigum vier bæde ad Raun og Nafne tileinka oss / sem byggium Hoolma þennann : Ad sønnu hefur Guds eilijf Fyrerhyggia skoted oss ut under hid ysta Heimsins Skaut / kann skie og ad mørgum þykia meige / ad vier høfum Var-Hluta fared af marg re Fullsælu Heimsins / enn þar a mote høfum vier ecke ad seigia af marg re Þraut Olucku og Andstreime / sem annarstadar i Heimenum plagar synd arga. Menn / so vier erum skylldugar ad vidurkienna / ad Gud hefur vel til vor giørt / ef vier kyñum med ad fara. Enn hvørnenn sem þessu er var-

ed /

ed/ þa hefur hn̄ ecke giørt oß Afskipta af Andlegū Hlutum/ sm̄ mest á ryður. Stutt Stund er þad/ ad vier eigum vid þetta Tymanlega ad bua/ hvørt helldur oß geingur med edur moot; En eins vel er oß JEsu Blessud Tilkoma i Holldet bodud og ødrū/ eins vel hns Pijna og Daude/ eins vel hañs Vpprisa/ eins vel hañs Vppstigning/ eins vel Vtsending hins Heilaga Anda/ a eingu af þssu høfū vier nockurn Skort/ helldur eñ hvør øñur Þiood i Heimenū/ og ef eg má seigia/ þa erū vier betur hiet med forsorgader/ eñ marger/ þvi høfū vier aungvu-sijdur Ordsøk til ad fagna og Lof sijngia hinū gooda Gude i Hiørtum vorum/ Col. 3. helldur eñ allur Heimureñ/ Jaa øll Guds Christne/ hvar hellst sem hun er i Heimenū/ hun maa jaata þad satt ad vera/ er Paulus seiger/ Eph. 2. um Heidingiana: Nu eru þier i JEsu Christo/ sm̄ ádur fiarre voruð/ nálæger ordner fyrer Blood Christi/ þvi hañ er vor Fridur/ hañ sem gıører eitt af bædum/ og Gyrdingū Midveggiarens hefur nidurbroted. J krijngum Jerusalems Mustere var eirn Stein-Veggur/ þangad leyfdest Heidingium ad koma/ eñ ecke leingra/ so ad Þionustugiørdeñ ecke saurgud yrde af Oumskornū Møñum/ og til þessa lytur Postuleñ i þessū Ordū. Eñ sijdañ Guds Sonur er i Heimeñ boreñ/ þa er i Christo hvørke Vmskurn nie Yferhud/ Gal. 5. þvi seiger og Paulus aptur/ ad hañ afmaad hafe Løgmaal Bodordañ/ sem var iñefaled i Setningunum fyrer sitt Holld/ so hañ giørde i sialfum sier tvo ad einum nijum Mañe/ og giørde Frid/ Eph. 2. Þetta er medal añars sa Fridur er Einglarner boda/ Fridur millum Guds og Mañs/ þvi Gud er Madur orden/ Fridur millum Himens og Jardar/ þvi Gud hefur i Christo alla Hlute forlijkad vid sig/ (semiande Frid fyrer Blooded hañs Kroß.) hvørt helldur þeir eru á Jørdu edur a Himne/ Col. 1. Fridur vid Heilaga Guds Eingla/ hvørra Samneyte vier høfdū af oß broted/ þvi seiger Paulus/ ad vier sieū komner til Fiallsins Zion/ og til Borgar Guds lifanda Jerusalem hiñ ar Himneßku/ og til margra Þusunda Einglaña/ Hebr. 12. Fridur a millū Gydinga og Heidingia/ þvi þad er i Jesu blessadre Hijngadkomu framkomed sem Drotteñ spaer/ Zach. 8. seigiande: A þm̄ Døgū sku-

J 3 lu

christner Men̄/ O þier sm̃ med Guds Sonar Blode erud Endurkeypter z i hans Dauda skyrder/ Act. 20. Giefed Giætur ad sialfũ ydur og allre Hiordenne / sem Gud hefur afrekad med sijnu eigen̄ Bloode / hvør i sin̄ Stad/ Punded er stoort/ Reikningskapuren̄ er mikell / Guds Blood er dyrt/ hans Reide er þung/ Doomaren̄ er strangur/ Lyfed er stutt/ Dauden̄ er vijs/ Helvijte er heitt/ Eilijfden̄ er laung/ og þier vited ecke nær ed Hussbonden̄ kiemur. En̄ i hvoria þa Att sm̃ Eiken̄ fellur/ þar liggur hun / Eccles. 11. Læted ydur þvi ecke villa med Ogudlegum Heimsins Dæmũ/ hered ydur eige saman̄ vid þa sm̃ þier kalled ydur verre/ þeirra Fordæming verdur ecke ydar Afsøkun/ þvi hvør eirn mun sijna Byrde bera/ Gal. 6. Nema þier ætled ad ydur mune þar fyrer verda roorra i Helvijte z Kvølunũ/ ad adrer sæta þyngre Hefndũ en̄ þier þikest hafa tilunned. Satt er þ ad sønu/ ad Guds Rietlæte mun skamta Hegningunna epter Tilverknadenum/ og vega Straffed ut epter þyngd Syndañna/ en̄ giæt þess ad øllũ mun verda þar Obærelegt/ og so sem ad Utvolder i Dyrd Himnañna munu ei ofunda hvør annan̄/ þott eirn skijne fegra en̄ añar / so munu eige helldur Fordæmder hafa neina Roo af þvi/ þott eirn kveliest meir en̄ añar/ mæl þvi ecke Vendsku þyna saman̄ vid hans/ sẽ forþienad hefur heitara Helvijte/ helldur giør Ydran a med an̄ þar seigest en̄ þa i Dag/ Heb. 3. so ei komer þu i þan̄ Kvalastad/ Luc. 16. helldur skijna meiger eins og Sol i Ryke þyns Fødurs. Þad veite hin̄ gode Gud/ øllũ þm̃ sẽ under hans Merke stryda/ i Blessegd þessare/ fyrer JEsum Christum/ A M E N.

## A Hreinsunar Hatijd Mariu.

### Gudspialled/ Luc. 2. Cap.

A þeim Tyma. Þa Dagar hennar Hreinsunar fullnuddust epter Moyses Løgũ/ høfdu þau han̄ til Jerusalem/ uppa þad þau a Hendur fæle hn̄ Drottne/ so sm̃ skrifad er i Løgmaale Drottens/ ad allt hvad Kallkyns var/ þad er fyrst opnade sitt ar Modur Kvid/ þa skyllde kallast Drottne helgad. Og ad þau giæfe Offred epter þvi sem seigest i Løgmaale Drottens / tvær Turtil-Dufur / eda tvo Dufu Ungã. Og sia/ ad Madur var þar i Jerusalem/ sa ed Simeon hiet/ z þesse

Þesse Mafi var Riettlætur og Gudhræddur / bydande epter Huggun Israels / z heilagur Ande var med hm. Simeon hafde z Andsvar feingeð af heilögū Anda / ad hafi skyllde ecke Daudafi siaa / nema hfi sæe ádur fyrre Christ Drottens. Og hfi kom af Andans Tilladan i Mustered / og þa Foreldrarner høfdu Barned JEsum i Mustered / og giørdu fyrer hönum epter Sidvenju Lagafia / og hafi took hafi þa uppa syna Armlegge / Lofade Gud og sagde: O Drottefi / lát nu þifi Þioon i Fride fara / epter þvi sem þu hefur sagt / Þviad myn Augu hafa sied þitt Hiálpræde / þad þu tilreidder fyrer Auglite allra Þiooda. Eitt Lioos til Uppbyrtingar heidnū Þioodū / og til Dyrdar þyns Folks Israels.

# Exordium.

Marger Veralldar Høfdingiar / sem og adrer Vyser og Gooder Men hafa sier Óskad / ad þeir mætta lifa so leinge i Heime þessum / ad þeir feinge bunded Enda a Fyrerætlan syna / ef þad hefur þeim misiafnt tekest. Augustus Keysare er sagt ad optlega hafe talad þad vid Vine syna / ad hafi villde lifa meiga / þar til hafi hefde ad fullu skipad Ryklostióornefie i þvi Romverska Vellde / og verdur ecke a moote þvi sagt / ad hönum tookst þad ad miklu Leite. Eige vardar þvi helldur neytad / ad i þessum Asetninge var mikel Hugi prydi. Hin stoore Solimañus Tyrkiafia Høfdinge / óskte sier ad deyia ecke fyrr / efi hafi hefde unned Høfud Stadefi i Keysarans Ryke / efi Gud liet þad ecke epter hönum / Daudefi vafi a hönum ádur efi hafi fieck Borgena unned / Og hender þetta marga þa sem alleina villa lifa til þess ad setlast a adra / og wtrietta gyrugar Hender til þeirra Hluta sem eige eru þeirra. Vysenda Mañafia Ósk er sw gjarnafi / ad þeir mætta lifa so leinge / þar til þeir hefdu afloked Erfide synu / Skriftum og Bookum / og gjøru þvi er þeir fyrer Stafne hafa / Og er i slyku Tvent ad skoda. Eitt er nockurskonar Ærlegur Metnadur / og Elska goods Nafns og Riktis epter sig Daudafi / hvad ecke er Lasto vert / þvi hun hefur mørgum komed til Vone og Astundunar. Afiad er Vilie og Asetningur til ad Tiena ødrum / og sierdeilis Epterkomendunum / sem Lofslegt er og mikellrar Hroosunar verdt / þvi þad ber epter sier Elsku og Hugþocka miken til Mañkynsins / hvørju eckert er ás giætara / eckert Gude Þeckara / og ef eg maa so ad Ordе komast / eckert Gude lyk ara / þvi hafi elskar øll syn Handaverk. Efi hvørnefi sem ølu þessu er vared / þa er eitt Naudsynlegt / og eitt er þad gooda Hlutskifted / sem eingefi maa af þeim taka / Luc. 10. er þad hafa wtvaled / sem er ad hafa svo lifad / svo trwad og svo tilreidt sig / ádur efi Madur geingur Vegfallrar Veralldar / Jos. 23. ad hafi fie fullvíss þar um / ad hafi i Fride fare af þessum Heime. Þvi prysa eg Hlutskifte hifis gooda og gamla Simeonis / Ecke svo miøg i þvi / ad hönum hlotnadest ad siaa Heimsins Skapara og Endurlausnara med synum Augum / so sem hafi hier seiger i Lofsøngnum / og ad taka hafi uppa Armlegge syna / so sem hier /

ad hañ var af fullu Trauste um̃ Guds Rad og eilyfa Vist med hønum / saung so
ad segia þessa Gledelega Lofsaung yfer sialfum sier : **Nu læt þu DRott-
eñ Þion þiñ J Fride Fara Epter Orde þijnu / Þviad Mijn Augu
Hafa Sied þitt Hiælpræde.** So þad ma kalle/ ad hans Lyk-Psalmur/ og
Fædingar og Fagnadar Vijsur Endurlausnaranum tilkvedeñ / være eitt og hid
same. Sæll er sa Kvidur er þig bar / og þaug Brioost er þu mylkter / sagde
Kviñañ Fordum vid vorn HErra / Eñ hañ svarade heñe: Hvad um̃ þad / Sæler
eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau / Luc. 11. Þetta kiemur mier
til þess / ad mier þyker meir koma til þess / ad Simeon beid med Þolenmæde epter
er Huggun Jsraels / og ad Heilagur Ande var med hønum / helldur eñ hins / ad
hañ sa JEsum / og took hañ i Fang sier / adur eñ hañ skyldest vid þetta Lyf /
Þvi eingen er þvilijk Sæla og eingeñ Styrkur i Daudanum so mikell / so sem ad
hafa sied JEsum med Truareñar Augum / og fadmad hañ med heñar Ormum /
Þad kieñer hañ sialfur er hañ sagde vid Thomam / Af þvi þu sast mig Thomas
truder þu / Eñ sæler eru þeir sem ecke sia og trua þo / Joh. 20. Þessa Kost eiga
aller þeir ed Ord Guds heyra / i hvøriu JEsus Christus hiñ Krossfeste er oss
fyrer Augum afmaaladur / Gal. 3. Sa sem epter þvi geingur / hañ mun med
Simeone allshugar feigeñ og gladur skilliast vid þreckvysa Verølld þessa / og kalla
Daudañ siñ Abata. Og fyrer þvi ad þessa gooda Mañs er minst i Gudspiall-
enu / er strax var upplesed / Þa villum vier af hønum læra / hvøreñ vier eigum
Fridsamlega ad lifa / so vier kuñum i Fride hiedañ ad fara. Þar til hiælpe hiñ
Naadarfulle Gud / fyrer Forþienustu sijns Eingetens Sonar JEsu Christi / Amen.

## Utleggingeñ.

HVad Maña ad Simeon þesse vered hafe greiner ecke Ritningeñ um̃/ Þeir ed skrifa ad hañ hafe Kieñemadur vered/ færa eckert til sijns Maals/ þ er eige helldur lijklegt/ añars munde Gudspiallamadureñ ecke hafa þagad um̃ þ helldur eñ um̃ Zachariam Fødur Johañis Skijrara/ Luc. 1. Lijklegre er þra Meining er ætla ad hñ vered hafe Sonur Hille-lis er Gydingaña Meistarar segia ad vered hafe Lærefader Gamalie-lis/ hvør ed sagde hina røksamlegu Meining sijna um̃ Christne Boded/ er Ølldungarner hielldu Radstefnu um̃ Postulana z þra Lærdom/ Act. 5. Þetta er ad sønu ecke vijst/ eñ ef so er/ þa var þ ecke ad undra þott Gamaliel framar ødrū skiggndest i þeña Lærdom/ þar hñ hefur æn Efa heyrt af synū Meistara/ ad Huggun Jsraelis/ epter hvørre hañ beid/ munde ecke fiarlæg vera/ hvad hñ raaded hefur af Spaadomunū þm̃ er voru af Messia/ er þa toku marger fram̃ ad koma. Meistarar Gyd-

inga

inga høfdu marga Læresveina/Joh. 4. sem sia ma af Christo og Joh- hañe/Luc. 10. So hefur ꝫ man Efa Simeon haft fleire eñ færre/og er þ vjst/ ad hñ hefur ecke sijdst talad þ þm̃ um̃ þssa Høfudgrein Truar- eñar/er hlioodade um̃ Messiam og hñs Tilkomu/þvi ecke hefur hñ ver- ed sa einasté er vænte epter hinũ sañá Messia med Ahyggiu so mik- elle/Pad seiger oss Lucas i þssũ sama Capitula/af hvøriũ Gudspiall- ed er teked/þar hañ skrifar ad Anna Dotter Phanuelis af Kyne Ase- er/hafe talad af hønũ til allra þeirra er Endurlausnareñar bidu til Jerusalem / hvøriet man Efa vered hafa af Skoola Simeonis edur hñs Lyka. Hvar af oss sie pad kieñdt/ad Meñ velie til ad uppfræda Børn sijn/ Ecke einasta Vjsa Meñ og Lærda / helldur Sidsama og Gudhrædda/þa ed undervjse þm̃ i Otta Drottens/og kenne þra ungu Ar a Rietltvjse og Gudrækne/ ef þr vilia ad þau life so i Heime þssũ/ ad þau sieu viss um̃ ad deya Rietllatra Mañá Dauda/Num. 23. nær þaug leysast hiedañ. Pad stendur hier i Gudspiallenu um̃ Simeon/ Ad hñ hafe Rietllatur Madur vered. Ecke meinar Ritningeñ hier/ ad hñ hafe af sialfũ sier vered fullkomlega Rietllatur/pad er ecke hia Mañlegũ Kroptũ ad fiña. Aller vier meigũ seigia med Job. Cap. 9. Vilie eg Riettlæta mig/þa fordæmer miñ Muñur mig. Ef eg seige mig saklausañ/ þa sijner hñ ad eg er Ranglatur. Vilũ vier þ Gude Rietllater vera/þa meigũ vier kasta fra oss/ bæde voru Riettlæte og voru Ranglæte. Rietllætenu i þañ Mata/ad Madur treyste ecke a þ/ helldur reikne þ Dreck ad vera/so hñ avine Christũ/og fiñest i hønũ/ hafande ecke sitt Riettlæte/ sem er af Løgmalenu/helldur þ sem er af Trune a Jesum Christũ eins og Paulus/Phil. 3. Eñ Ranglætenu þss vegna/ad Trueñ er daud an Verkaña/seiger Jacob. Cap. 2. Og Gud er heilagur/hm̃ lijkar ecke Ogudlegt Athæfe/Ps. 5. Hvad ecke er i þre Veru sagt/ad Madureñ giete alldeilis afklædst þssũ vonda Synd- areñar Ham/a medañ hañ lifer i Holldenu/helldur a hañ af fremsta Megne ad leitast vid ad krossfesta hiñ gamla Mañeñ / Rom. 6. Judar seigia i Skrøksøgu sinne eirnre / ad þegar Noe giørde Sonu sijna fra sier til ad byggia Verølldena/þa hafe hñ feinged þm̃ i Hendur nockrar

Reliqvias edur Meniar hiñs gamla Adams/ Fødur vor allra/ kañske likar þm̃ ed Papistar hafa þykiast epter sijna helga Meñ/ z eru i miklu Gillde hia þm̃. Fæväslegt er Saga þsse ad søñu/ eñ þo miñer hun mig a ad hugleida med Trega nockrū/ ad Forfadereñ Noe/ sem var Riettlætur Madur/ Gen. 6. og Riettlætesins Predikare/ 2. Pet. 2. til hvørs ad aller Meñ i þiñe seirne Verølldu eiga Kin sitt ad rekia/ hañ hefur oss epterlæted nockrar Leifar hiñs gamla Adams/ er vier Daglega fiñum i vorū Limū/ so ad Paulus seiger: Holldid girnest i mote Andanū/ og Andeñ i mote Holldenu/ og þau eru hvørt a moote ødru/ so ad þ þier vilied jafnvel ecke giøra/ þ giøred þier/ eñ ef þier leidest af Andanū/ þa erud þier ecke under Løgmælenu/ Gal. 5. Eñ ef vier ecke erū under Løgmælenu/ þa erū vier Riettlæter/ og þañeñ var ad søñu hiñ gamle Simeon Riettlætur. Eñ ecke meinar þo Gudspiallamadureñ hier þra Riettlæte/ edur þ oss verdur þ Lausnarañs forþienustu til reiknad/ helldur merker þra Ord Rietklætur i þssū Stødū/ þad sama og vier køllū godañ Mañ og Rædsvitañ/ þañ er vandar Ord sijn og Giørder/ bæde fyrer Gude og Møñū/ og so merker þad ofta i Ritningūñe. Vertu Fromur og Riettvijs seiger David/ Ps. 37. þvi sliktt mun ad sijdurstu vel ganga. Hiñ Riettlæte sa ed framgeingur i Einfelldne sijns Hiarta/ mun læta farsæl Børn epter sig seiger Salomon/ Prov. 28. Þessa Riettvijse a hvør Christeñ Madur ad temia sier/ añars er hañ ecke Christeñ/ um hana hefur margur Heidinge vel talad/ og hana so tamed sier/ ad lyted hefur sijnst Aboola vant þ Maña Auglite/ hvar med þr hafa giørt Skøm til Christeña margra hvørra/ þeir ed øngvañ elska nema sialfa sig/ z hyrda eckert um hvørneñ þr asælast Lijtelmagnañ. Aristoteles seiger/ ad hun sie hin kostulegasta Dygd/ og allar Dygder sieu i heñe folgnar/ þ er og satt/ þvi an heñar meiga þær ecke Dygda Nafn bera. Vitskañ z Framsijneñ er ꝛ reckvijse/ ef ecke fylger heñe Riettvijseñ. Hugprijdeñ er eitt Bøduls Sverd/ nema hun stiornest af Riettvijseñe. Orlæted hvørt aller Meñ elska/ þ er þo Glopska og Athlæe Maña/ ef þ vantar Riettvijsena. Sa sem eys ut Femunū sijnū til Diigtis/ edur giefur þm̃ er sijst skyllde/ eñ lætur Þurfamañeñ og Dag

launarañ

launarañ nissa/ mun hn̄ ecke Osvikur z Dære kalladur. Sparsemeñ er ein ægiæt Dygd/ eñ þo er Hun best mz Rietsyne. Sa ỏ sparar þui þ þm̄ byrtar ad giefa/ hn̄ er kargur z ecke sparsamur/ og ef hañ sparar sialfū sier þad sm̄ Lykameñ vid þarf/ þa er hn̄ sialfs syns Ophocke/ ef hn̄ giører þ af Kiergiu eirme/ og ecke til ad temia sitt Holld / ad hn̄ þss betur sine Gude þioonad / eins og Paulus seigest þrælka siñ eigeñ Lyokama: Eñ hitt er Loflegt z Gude þægt/ ef nockur sparar Lykama synum/ jafnvel leifelegt Epterlæte fyrer hañs saker. Eingeñ Dygd er ægiætare eñ Myskunsemeñ/ med hesse kuña synduger Meñ allra mest ad lykiast Gude Skapara synū/ Luc. 6. Eñ ef hun er an Rietskiñis/ so Meñ vægia þm̄ sm̄ Gud bydur ad straffa/ þa er hun ein Syndvirding og mesta Glæpur i Auglite hiñs hæsta Domara. Og i einu Orde ad seigia: Rietvyskeñ er su Mælesnura/ a hvøria ad stikast eiga Ord vor og Giørder. Veit eg ad einhvør kañ ad seigia: Eg hef ecke Vitsmune til þss ad sia z þeckia hvad riett er/ hvørneñ ma eg þa giøra þz mier kañ optlega ad skiotast i slyku. Þar til svara eg: Ad helst er þad i Domū og ødrū Vandradū/ ad Meñ þurfa so mikillrar Skynseme med/ z er þm̄ rædlegt/ sm̄ eru sier Fævitsku siñar medvitande/ ad þr sieu þar fra/ og ecke trode sier iñ i Doomara Sæte/ edur hlaupe til þess mykla Vanda/ eins z lyfadur Hestur til Bardaga/ sm̄ þo margur Dære giører/ eñ hvørneñ sm̄ þvi er vared/ þa er þ almeñelegt/ ad margur giører verr eñ hn̄ veit/ Eñ ølluñ kañ yfer ad sieast/ þ er Mañlegt/ og ma þad hvør Madur ødrū sæka/ Eñ i Daglegre Vm̄geingne/ i Kaupū og Solum/ i Vm̄tale um̄ Naungañ/ i Spekt og Kyrlæte vid hn̄/ i þre Virdingu/ sm̄ Meñ eiga ad syna Forelldrū og Yferbodurū/ þa er eingeñ Heilvita Madur so fævøs / ad hañ ecke nockurn Veigeñ vite hvad hañ a ad giøra/ ef hn̄ giefur sier Stunder til ad athuga þad. Og hvad um̄ gillder/ er ū vier ecke aller nogu Vidkvæmer og Grañskigner/ til ad þeckia þad/ sm̄ oss sialfū er a mote broted? Eñ þessa Hugreñingu skylldum vier bruka/ nær vier eigū nockru vid adra ad skipta/ þvi hier ætla eg duge su ægiæta Regla/ sm̄ Frelsareñ hefur oss eptersætted: Hvad þier villid ad Meñerner giøre ydur/ þ giøred þm̄ eirneñ/ Matth. 7. Og sa sm̄

hana hefur jafnan fyrer Augu sier/hn mun sijdur syndga. En hia for smaaer nu Heimur hsse z hyker i hvi lytell Vijsdomur vera/samt ætlar hn sier ad deyla Simeonis Dauda/jafnvel hott hm verde ad Skindingu i burtu svipt/a mjan hr hvad mest eru ad æfa Svik/Prette/Fedrmall/ Vnderferle/Fiandskap/ og allra Handa Rangsleitne/eins og ad hvi lijkra sie Himnarijke. En eg seige ydur i Vmbode Guds / fyrer hvort ium eg stend/ad nema hier giored Ydran/ legged af Lijgar og Prettir/ Agyrnd og Vnderhyggiu/og adra hvilijka Lostu/sm motstrijda Riett vijsene / ha munud hier ecke inganga i Guds Rijke. Hetta kiener mier Jesus Christus/ hvor sialfur er alls Holldz Domare/ og rædur fyrer Himnenu/er hn sagde/Luc. 18. Hvor hn ecke medtekur Guds Rijke so sm Vngbarn/hn mun ecke inganga i had. Bered ydur nu saman vid soddan eitt Barn/og ransaked hvort hier erud hvilijker i Goodlyndenu og Einfalldleikanu/og ef hier kuned ad finna hss nockurn Mun/ha vited ad hier erud eins langt fra Himnarijke. Hat er ei vid ad dyliast/ne ma hier vijsied reingia Ord Drottens. Seiged mier/hvorier munu sitia til Bords med Simeone/med Abraham/Isaac og Jacob i Rijke Himn ana/Matth. 8. Had seiger David oss i Psalmenu 15. med hssu Ordu: Drottenn/ hvor mun bua i hinu Tialldbud i Hvor mun stadnæmast a hijnu heilaga Fiallet Hn sa ed framgeingur Flecklaus/og giorer Riett vijsena/og talar Sannleikan ut af Hiarta/hvor ed ecke Bakmæler med sinne Tungu/og Naunga sijnu eckert illt giorer/z leggur ecke sijnu Naunga neitt Lastlegt til/hvor ed einkis aktar hin Ogudlega/en i Heidre hefur hin Gudhrædda/hvor ed helldur had er hn sver sijnu Naunga/ hvor hn giefur ecke Fie sitt ut uppa Okur/z tekur ecke Mutur yfer ha Saklausa/hvor ed hta giorer/hm mun vel vegna Æfenlega. Hier sia ed hier hvorier ad verda mune Bord-Giester i Lambsins Brudkaupe. Ydur hefur h laungu boded vered/ Langt er sijdan Husbondans liet seig ia: Mijner Vxar z ales Fie er slatrad/allt er tilreidu/Komed til Brud kaupsins / Matth. 22. Ransaked nu sialfa ydur hvort ad hier erud skrijdder Brudkaups Klæde/ ef hn kann ad koma um Midnætte/ had er/ nær ydur minst varer. Eg veit hier seiged/ad Gud hafe morgu Synd

ernar

ernar Fyrergiefed/O jæ/ þ er satt/ eñ þo þm̃ einũ sm̃ fra hafa ydrast ut af Hiarta. Lated af Illu og læred Gott ad giora/ Es. 1. Þetta vited þier hin rangsnuna Kynslod/ eñ merked þ þo ecke/ samt uppeted þier þo Guds Folk/ og æted sialfa ydur/ eñ Drottenn akalla þeir ecke/ Ps. 14. So snued aptur i Guds Nafne / snued aptur / Eg grætbæne ydur fyrer hid dyra Blood Jesu Christi og ydar Velferdar saker/leited Fridarens/og fylged hm̃ epter/ Ps. 34. Otteſt Drottenn og gioredRiett visena/ Act. 10. so Gud fære Velþocknan a ydur/ og burtkaste ecke ei-lyfsleg. Og er þad so sagt um̃ Rieltsæle Simeonis.

J aňañ Mata kiendur hier um̃ Simeon/ ad hañ hafe Gudræken vered. So sm̃ ad øll su Skyllda/er vier eigũ Naunganũ ad syna/ z oss er fyrer-skrifud i hiñe sijdare Bodorda Toblune/hun er i Riettvijsene inefalen. So er og hin er vier eigũ Gude ad giallda/ og oss boden er i hiñe fyrre/i Gudrækneñe foolgeñ. Hañ var Gudhræddur Madur seiger Lucas/ hñ brukar þ Ord er merker Guds Dyrkara/ þañ ed ræker hñs Bodord/ecke so af Otta/so sm̃ af Elsku og Virdingu. Þañen a og christeñ Madur syndur ad vera/þoat þ sie ecke Onytt ad hrædast Gud/ af þvi hñ er Riettlætur/og strangur Vandlætare/ Exod. 20. þa er þ eige fullkomeñ Guds Dyrkun. Otten duger til þess ad reka Syndarañ til Guds/þegar hñ hugleider þ/ ad hñ hafe hñs Reide forþienad. Eñ Jhugan Guds Fødurlegrar Giæsku/hñs Speke/ hñs Þolenmæde uppvekur Elskuna i Mañsins Hiarta/s lætur oss verda eitt med Gude/ z kveiker soddañ Unadsemd i vorre Saal/ad Meñ forsmaa alla Hlute jafnvel hia Krosse Drottens/eins og St. Paall/ Phil. 3. so eg maa seigia/Ad Otten er Fader Gudhrædslunar/eñ Elskañ til hñs er Mooder ad hesse. Otten getur hana i Fyrstune/(þvi seigia Gudlauser Meñ/ ad Otten hafe Gudena giørt) eñ Elskañ tekur vid heñe/elur hana og nærer i Hiarta Mañsins/ a medañ hun er ecke Fullburda/eins og ein Mooder sitt Fostur/þar til hun kiemur i Lioos/og auglijser sig i good um Verkũ/z smaamsamañ vex hun eins z añad Ungmeñe/epter fullkomnũ Maler Christi Allдurs/ seiger Paulus/Eph. 4. so ad þvilijk dasamleg Skiepna heilags Anda/ skijn so sm̃ eitt Lioos a medal hinar

hreck-

hreckvijsu Kynsloodar / so sm̄ ein Sool a Himnenū / ecke eins og Sool Ezechiæ Konungs/ hvør ed gieck til Baka/ 2. Reg. 20. Ecke eins og Sool Josuæ / hvør ed stood kyrr / Jos. 10. helldur eins og Sool Davids/hvør ed gledur sig af ad hlaupa siñ Veg/ Ps. 19. Þvi sa ed Gud elskar/hm̄ þyker iafnællt ad giøra þ hm̄ skar/ z lætur sier jafnañ i þvi framfara. Cicero utmaalar Gudræknena þañeñ/ad hun sie Riettvijse a mote Gude/hñ sagde vel/ þvi hñ sagde allt þ hñ visse edur vita kuñe/ z var ecke meire Von a heidnū Mañe/z hefur hñ þo eñ þa talad christelegar (ef eg maa so seigia um̄ eirn Heidingia) i ødrū Stad hier um̄/ þar hñ seiger: Ef Gudhrædslañ er i burtu tekeñ/þa gietur þ eige ødruvijs ordeþ/eñ ad allur Truskapur og allt Samneyte Maña a medal/ og hin kostulegasta Dygd Riettvijseñ fare og i burt/þetta er vijslega talad/þvi sa sm̄ ecke Gud ottast/sm̄ ad i Augnablike gietur kastad hm̄ i Afgruñ Helvijtis/ hñ mun eige verda miøg hlijfeñ vid siñ Jafningia/ þad sem Meñ a hinū Gudlausu Satans Þrælū/er seigia i Hiarta sijnu: Þar er eingeñ Gud/Ps. 14. hvørke hallda þr Ord nie Giørder/og øngvū hlijfa þeir/sm̄ þr fa Høndyfer. Til þssa eru Dæme/jafnvel i Lande voru/ecke miøg gømul/og er hier af audsært/ ad þ er dagsatt er hiñ same skrifar/ad Gudleised take allañ Truskap i burtu ur Verølldeñe/og spille so Sambud Mañaña/ad ecke er vært i Heimenū an þss/ ad Meñ ottest Gud/og þta Vald Guds er so rijkt a medal Mañaña/ ad jafnvel Afguda Dyrkun Heidingiaña/sm̄ voru an Guds i Heimenum/ Eph. 2. hefur þvi valldeþ/ad þr ecke uppætu hvør añañ. So eg vil hier um̄ seigia/vidlijkt og Aurelius Alexander Keysare svarade þm̄ er villdu giøra Samkundur christeña Maña ad Dryckiu z Legu-Kofū/ ad miklu betra være ad Gud þar med ein hvøriu Mote dyrkadest/eñ ad þau skylldu brukast til slikra Odæda. Þad var Roksamlegt z Konunglegt Svar af heidnū Mañe/ so vil eg seigia/ ad betra er/ til ad hallda Samvist Mañaña vid i Heimenū/ad dyrka Gud med einhvøriu mote/ þegar eige eru til þss brukadar hinar verstu Synder og Glæper / sem Diøfulleñ lætur sier þiona med/helldur eñ hafa øngva Tru a hm̄/þvi þ munde giøra Verølldena ad Herbudū Madianita / hvar eirn ryckte

Sverds

Verde á moke sijnu eigen Brodur og Lagsmanne/ Jud. 7. Satt er þ sem Johannes seiger / ad hver sem ecke elskar sinn Broodur hvørn hann sier/ hvørnenn kann hann Gud ad elska þann hann sier ecke: 1. Joh. 4. Enn eg þore og ad seigia/ ad hann sem ecke elskar Gud/ sem hefur skapad hann/endurleyst og helgad/ hvørnenn giettur hann sinn Brodur elskad? Þvi bægt mun oss sem Bonder erum/og under Syndena Fellder/ Rom. 7. ad elska Ovine vora/ Blessa þa er oss bølva/giøra þeim gott sem vid oss Misgiøra/ Matth. 5. Nema vier giørum þad þ Guds Saker/ og verdur þvi Otten og elskan til Guds undann ad ganga/og sie hun alvarleg/ þa er einsætt ad hitt a epterfylger/þvi sa sem hann elskar/hann vardveiter hans Bodord/1. Joh. 5. og er þetta eitt af þeim helstu sem nu sagda eg/ad elska Ovin sinn. Hvad sem nu Heidingiar ritad hafa um Gudhrædsluna er allt samann godra Gialda verdt/og dugar ad vijsu til þess/ad sijna oss christnum Mønnum/ hvørsu ad hun hafe þott Omissande/ jafnvel þeim er mest lifu epter þvi naalæga/og ecke so epter þvi sem þar uppe er. Enn St. Pall kienner oss hennar Nytseme miklu betur/ 1. Tim. 4. Seigiande: Ad Gudhrædslann sie til allra Hluta þarfleg/ hafande Fyrerheit/bæde þessa Lijfs sem nu er/ og so hins komanda. J gamla Testamentenu/hafde þesse Høfud-Dygd mikel Fyrerheit um tijmanlega Farsælld/so sem allvijda maa lesa/bæde i Moisis Bokum og annarstadar/Kannske þess vegna ad Guds Folk a þeim Døgum/ høfdu fleire Bodorda og Setninga ad geima enn vier christner Menn/so og voru ecke Fyrerheitenn so lios um Ovrdnifnar epterkomande Sælu i Guds Rijke/ Enn sijdann Jesus Christus hefur afnumid Ovinskapenn/ Logmaal Bodordanna/ sem var innefaled i Setningunum þ sitt Hollo/ so sem Paulus ad Orde kiemst/ Eph. 2. Sijdann vier høfum feinged ad sia og heyra þ sem marger Konungar og Spamenn gyrntust ad heyra og sia/ og sau þad ecke/ Luc. 10. Sijdann hafa Guds Astvinir ecke so stor Fyrerheit um Lijkamlega Farsælld/ og þ til þess/ad Sætleike epterkomande Alldar/hvørn vier smeckum i hinu goda Guds Orde/Heb. 6. Hann yfergnæfer allann tijmanlegann Fognud og Medlæte/so ad þeir ed Gud elska og lijda þ Christi saker/ eru glader i Hørmungunum/og hallda þ miken Fognud/ Nær þeir rata i ymislegar Freistingar/so sem Jacob skrifar/ Cap. 1. Vit-

ande þ[ad] Reinsla Truar vorrar/hun ablar Þolenmæðis. Ecke er vid þ ad dylIast/ Sr. M. Ad sa sem vill Gudhræddur vera/hann man bua sig Ofsokn under Christi Ok/2. Tim. 3. Eins og þegar eirn Kappe byr sig til Orustu/ z þott Gud læte hann heppnast Luckn z Neidur i Verolldenne/sem hann og hefur mörgum af sijnum Astvinum veitt/ þa er þar þo alltid einhvør Baratta/anar hvort hid innra edur hid ytra. Sie þar icke annad/þa er þar Andskotenn og hans Þrælar/sem jafnan offsækia þa sem geinged hafa a Mala med Christo. Satan kreppest vid af öllu Megne ad nidurbriota Guds Ryke/og alldrei lætur hann af ad skiota sijnum Orfum a Guds Nem i Verolldu þessare/ so lenge sem hann heiter Diofull z Andskote/og þarf til þess mykla Gudhrædslu og Atvørugiefne ad fa hann og hans Arum i mote stadid/bæde Synelegum og Osynelegum. Enn þegar hinn mykle Guds Kraptur er so mattugur i Breyskleika sinna Asvina/ad þeir fa stadest Araser vondra Manna/þegar hann styrker þa og stoduga gioerer i sijnum Ordum og Trunne allt til Æfeloka / þa kalla eg ad hvad mest sanest Ord St. Pals / ad Gudhrædslan hafe Fyrerheit þessa Lyfs/ og hefur hinn Almattuge Gud þad optlega og Undrunarsamlega framkoma lated / og lætur enn nu i Dag a öllum þeim er honum treysta. St. Pall kallar hina Utvøldu Guds/þau Kier i hans Huse / er hann hefur til Heidurs sett/Rom. 9. A þesse Kier fellur Dupt nockud a stundum/ so þad hender sig/ ad þau verda jafnvel groomtekenn. Vonder Menn eru ein Þvaga/ sem hann hreinsar þesse sijn Kier med/so þau verde hæf til Þionustugiordarennar/og setur þau so aptur inn i Guds Hus/nær þau eru hrein orden/enn Þvøgunne kastar hann i burt/ ad hun verde Fotum troden. Gud leifer ad þeir edur hann oftast/verde a stundum nidurþrycter/enn alldrei underþrycter/sa sem fæst vid eirn Gudhræddann Mann/þad er so sem berte hann eirn Klett med Vende/Vandurenn slitnar/enn Kletturenn verdur hinn same/eins og sa er vill kræfa Elldenn med Oliu/hun forkærest/enn Elldurenn logar þess gladar/Þad er eins og ad binda Samson med Streingium/þr hrucku i sundur eins z Norþradur/er hann rietle sig/Jud. 16. Samson hiellt sijnum mikla Styrk/ allt þar til Skiæktann fieck rakad hans Hær af. Guds Børn

eru

eru Osigrande/ allt so leinge þau hallda sier vid Drottenn Jesu/ hver ad er Safnadarens Høfud/ Eph. 5. Eñ þegar þm̃ verdur þ ad taka hina flærœdu Dalila Verolldena i Fadm sier/ þa missa þau allt sitt Afl/ Hun stijngur þeirrra Augu ut og giører þa Philistæis/ þad er Satans Børnū ad Nerfœnge/ jœ ad Spotte og Athlætre/ Nema Meñ danse epter hra Pijpu/ og er þa Dauden vijs/ nema Meñ deyde sialfa sig ad nyu eins og Samson/ Jud. 16. Þad er drepe hiñ gamla Adam med hñs Gyrndū og Tilhneigingū/ og burtkaste Fijsn Augnañ z Drambsømū Lijfcerne/ ad Meñ verde heilskigner aptur og siœū Liosed i hñs Liose/ er oss hefur fyrer siñ Dauda sett til Arfskiptis Heilagra i Liosenu/ Col. 1. So er nu Gudrækneñ a sig komeñ/ og so er hun þorf og Nytsamleg/ jœ / Omissande i þssu Lijfe / Eñ þo gagnar hun hvad mest i Daudanū/ þvi hñ verdur þm̃ Jñgangur til Lijfsins/ er Gud Ottast/ til ad medtaka þar Fyrerheit epterkomande Alldar. Sa sm̃ hefur i Lijfenu tamed sier Riettvijsena vid Nœungañ/ z Ottañ z elskuna a Gude/ hñ fagnar Daudanū/ og seiger gladur med Simeone: Nu lœtur Drottenn Þion þiñ i Fride fara epter Orde þijnu: Þvi eins z Simeon hafde Andsvar feinged af heiløgū Anda / ad hñ skyllde eige Daudañ siœ / nema hñ sœe adur Christ Drottens/ so bera og þsser jafnañ med sier Vitnisburd heilags Anda i sijnu Hiarta/ ad þr sieu Guds Børn/ Rom. 8. nær sm̃ þau leysast i burt hiedañ. Hvorneñ kañ soddañ einn Guds Astvinur Daudanū ad kvijda? Daudeñ er ad sønu hrædelegur/ þvi hñ er Verdlaun Syndareñar/ Rom. 6. Eñ hvøriū er hñ hrædelegur? þm̃ sm̃ ecke eru Heimenū dauder/ eñ ecke þm̃/ hvørra Lijf Christur er/ eñ Daudañ kalla þr siñ Abata/ Phil. 1. Daudeñ er oss syndugū Mønū eins z Myrkrid er Børnunū/ þau ottast þ/ þss vegna/ ad þau ætla i þvi mune bua nockurskonar Bode/ z sierdeilis þau/ sm̃ heimsker Meñ leggia i Vana siñ ad hræla med Grylum og Ofreskium. So er Daudeñ/ af þvi Meñ heyra so myked um hñs Grimleika talad/ þvi kvijda Meñ so fyrer hm̃/ og veit þo eingeñ hvad mykell hñ er: Hvør veit hvørt Meñ fœra meir til i Daudanū/ eñ i Fœdinguñe? Þetta man eingeñ/ Eingeñ er helldur aptur komeñ til ad seigia oss hitt. Þar er varla nockur so lijtelfiørleg

Tilhneiging/ad hun ecke forsmæe Daudan. Heipskræknen agtar Daudan ad øngvu/Þad sÿner oss þeirra Dæme / er selia sitt Lÿf fyrer Lÿfs Dogna sinna. Hvad margur hefur dæed fyrer Ast Kvenna/sem er Hiegoome i sialfu sier. Syrach kiener oss/ad hm sem a moote geingur þyke Daudenn sætur / Otte fyrer Vanvyrdu nockurre /' giører Daudann liettann. Medaumkanen giører hid sama. Þegar Otho Keisare villde helldur taka Lÿfed af sialfum sier/enn ad læta strꝛhøggva Lid sitt nidur med Sverds Egginne/ þa voru marger af hans Fylgiurum/er allteina af Medaumkan løgdu Hendur a sialfa sig/ enn ef Hiegoomenn vinder Daudann so litels/hvad liettur mun hann þa vera þeim/sem fara i Fride hiedann/ og vita ad hann er Inngangur til Lÿfsins. Ritningenn talar um Daudann/ so sem Endurlausn af Fangelse. Allur Israel sa Aaron leysast seiger Num. 20. Eg gyrnest ad leysast hiedann & vera med Christo/hvad mykłu betra er/seiger Pall/Phil. 1. So þyker og øllum þeim/er Heimurenn er krossfestur vegna Christs/og þr Heimenum/Gal. 6. Þeir Andvarpa med Paulo og seigia: Æ eg syndugur Madur/hvør mun leysa mig fra þessum daudlega Lÿkama? Rom. 7. Ottast þvi ei ad deyia / christenn Madur/helldur ad deyia Illa/ þad mun þier til eilÿfs Lÿfs gagna. Þad er gott Daudann ad ottast / til þess ad fordast þann med hvørium vier forþienum hinn eilÿfa Dauda. Tÿmanlegur Daude er ecke i sialfum sier Ognarlegur/nema vier seigia viliun/ ad þad sie Illt/ad sleppa ur Fangelse/ ur Þrældome/ur Sioovolke/ Þvi hvad er þetta Lÿf annad? Þad er hrædelegt sem epter hann kiemur/ ef ødruvÿse fer enn vel. Þad er vitanlegt/ad Daudenn er Guds Barna Inngangur til eilÿfrar Sælu. Og þvi skyllda eg þa ei vilia ganga eitt Sinn i Bardaga til ad vinna heillt Konungs Rÿke? Enn þeim er tapast/verdur hann Leid til eilÿfra Kvala. Nu veit eg ad Þioofurenn hrædest ecke Stigann sem liggur upp i Galgann / enn Snøruna hrædest hann. So er þad og dærlegt fyrer þann sem hefur leitad epter Helvÿte alla Æfe sÿna/ad hann skule hinn tÿmanlega Dauda hrædast/og ecke miklu helldur hinn eilÿfa sem a epter fylger/hann mætte Oska og feigenn verda/ad Helsotten og Fiørbroten mætti vara um alla Eilÿfd/ef hann mætte þar med sleppa fra hinum eilÿfa Ellde/ sem fyrerbuenn

er Diøflenum og öllum hans Einglum/ Matth. 25. þvi þar mun betur hlyta. Þar fyrer / O þu syndugur Madur/ nær þu sier hinn Nakta og villt ei klæda hann/ hinn Svanga og villt ecke metta hann/og hinn þyrsta z villt ei giefa honum ad drecka/ja/nær þu sier Ovin þinn hungra edur þyrsta/og villt ecke giefa honum ad eta edur drecka. Nær hinn Volduge og hinn Visæle standa bader fyrer Dome þijnum/nær þu ætlar ad vandlæta i Guds Stad/edur hialpa hinum Naudstadda til Riettarens/nær Reidenn tekur þig/ nær Lostenn blindar þig/ nær Agyrndenn kvelur þig/nær Ofundenn freistar þijn/og i einu Orde ad seigia/nær Diøfullenn/Holldet z Heimurenn vilia locka þig til ad styggia þinn Gud/lat þa Daudann vera þier Ognarlegann/ Jmynda þier hann þa so sem eirn skielfelegann Helvijtis Ar/ þann er huessi sie til ad gleipa Salu þijna og fara i eilijfar Pijsler: Lat sem hann fyrer Dyrunum stande/og eige ad heimta þig under hins vollduga Guds Dom/til ad giora Reikning fyrer þad/er þu ætlar Samstundis ad fremia. Þannenn skulu Menn Daudann hrædast/og hver ed so giorer/og kemur sier hia Hugarfar/ og lifer þar epter i Guds Otta og Truu a Christum/hann þarf ei ad kvijda/ hann mun med Simeone Daudanum fagna/ hann mun i Fride burtu leysast og deya Riettlætra Manna Dauda. Hvad oss öllum/ ja/ öllum sijnum Bornum/hvar helldst þau eru uti Heimenn/ unne og veite/Gud Fridarens/ Gud Fagnadarens og Gud Lijfsins og Daudans/fyrer sinn Eingietenn Son Jesum Christum/Amen.

## Siøtta Sunnudag epter Þrettanda.

ÞEssa Dags Evangelium sem skrifad stendur hia Matth. 11. Cap. Og so Predikunena þar yfer / Man lesa þann XXVII. Sunnudag epter Trinitatis / hvør og tilheyrer þessum Deige / þvi þegar þesse Sunnudagur inpellur / sem sialldann er / þa eru ecke so marger Sunnudagar a millum Trinitatis og Adventu.

## Fyrsta Sunnudag i Nijuviknafostu.

### Gudspialled / Matth. 20. Cap.

J þann Tyma. Sagde JEsus til sinna Lærisveina/ þessa Eptirlijking. Himnarijke er lijkt einum Husfødur / sem utgieck snemma Morguns / Verkamenn ad leigia i sinn Vijngard. Enn ad gi∅rdum Samninge vid Verkamennena / ad

Daglegu Penings-Gialldе/ sende hañ þa i siñ Vyngard. Og nærre þridiu Stundu gieck hñ ut/ og leit adra Idiulausa standa a Torgenu/ og sagde til þra: Fared þier og so i Vyngardeñ/ og hvad Riettvijst er mun eg giefa ydur/ og þeir geingu burt þangad. Og hañ gieck eñ ut aptur um̃ siottu og nijundu Stund/ og giørde slijkt hid sama. Nærre ellefftu Stundu gieck hañ ut/ og fañ eñ adra standa Idiulausa/ og sagde til þeirra: Hvar fyrer standed þier hier allañ Dag Idiulauser? Þeir søgdu til hñs: Þviad eingeñ hefur leigt oss. Hañ seiger til þra: Fared þier og i miñ Vyngard/ og hvad Riettvijst er skulud þier faa. Eñ þa Kvølld var komed/ sagde Herrañ Vyngardsins til syns Raadsmañs: Kalla þu Verkmeñena/ og gialld þeim Verdkauped/ og tak til fra hinū Seinustu/ allt til hiña Fyrstu. Þa komu þeir sem nærre ellefftu Stundu leigder voru/ og medtook hvør þra siñ Pening. Eñ hiner sem fyrster komu/ þr þeinktu ad þr mundu faa meira. Og hvør þra medtook siñ Pening. Og þa er þeir høfdu hañ medteked/ møgludu þeir a moote Hussfødurnū/ og søgdu: Þesser eñu Seinustu hafa eina Stund erfidad/ og þu giørder þa jafna vid oss/ sem bored høfum Hita og Þunga Dagsins: Eñ hañ svarade og sagde til eins þeirra: Vinur/ Eige giøre eg þier Oriett/ Ertu ecke asaattur ordeñ vid mig um̃ eirn Pening? Taktu hvad þitt er/ og far i burt/ eñ þessum hinum Seinasta vil eg giefa so sem þier. Edur lofast mier ecke ad giøra af mijnu hvad eg vil? Edur ertu þar fyrer Rangeygdur/ þo ad eg sie Goodgiarn? So verda Seinaster hiner Fyrstu/ og Fyrster hiner Seinustu/ Þviad marger eru Kallader/ eñ faaer Utvalder.

## Exordium.

ÞEgar St. Paull/ 1. Cor. 2. skrifar þar/ hvørt ad hafe vered Ærered syñ i Christne-Bodenu/ er hønum var a Hendur faled/ þa talar hañ svo medal añara Orda: Þegar eg kom til ydar Brædur/ þa kom eg ecke med Ryperlære Ordaña edur Spekeñar/ er eg bodade ydur Evangelium. Þad maa vijst a sia i heilagre Ritningu/ ad Gud hefur ecke viljad laata syn Eyrende vera bundeñ vid Maalsnille mikla. Þegar Moyses afsakade sig fyrer Gude fraa Sendeferdeñe til Pharao/ talde hañ þad mest til/ ad sier være þungt um̃ Maal/ þa svarade Gud hønum: Eg skal vera med Muñe þijnum og kieña þier hvad þu maala skallt/ Exod. 4. Ovolgꝛt fieck Jeremias ad heyra/ er hañ taldest undañ ad

flytia

flytia Guds Eyrende til Jerusalems Manna / og sagde: Ach DRottenn / eg er ungur og kann ecke ad tala / En DRottenn svarade: Seig ecke jeg er ungur / helldur til þeirra sem eg sende þig skallt þu fara / og þu skallt tala allt hvad eg skipa þier / Jer. 1. Hvt mun hinum Almaattuga hafa þocknast ad haga þessu svo? Slijkur hefur hann Manninum Munnenn gefed / Exod. 4. Skyllde hann þa ecke villia laata brijska Gaumur skijnar sier til Dyrdar og Lofs? Þar hann aungvann Hlut hefur í Naatturunne Forgiefens skapad / og helldur Maalþæred / sem er eirn med þeim bestu Guds Gaafum. Paulus kienner oss Orsøkena hier til med þessum Ordum / 1. Cor. 1. Seigiande: Christus hefur sendt mig / ecke til ad skijra / helldur til ad predika / ecke med Spakmælum / svo ad Krossenn Christi verde ecke ad øngvu. Hvørnenn mun Krossenn Christi af Spakmælunum nockra Steidrun hafa? Þad kiennir Paull strax epter í sama Cap. Þvi þa Rada um Krossenn / seiger hann / er Heimska þeim sem fyrerfaraſt / enn oss sem Hoolpnir verdum Kraptur Guds. Eingenn Hlutur er svo Forachtanlegur fyrer Heimenum / svo sem Christi Kross / svo ad þa sem hann a Herdum bera / kallar Postulenn Afrak og Hreinsun Verallðar: Ecken er þo Frøþeygra Medal til ad draga synduga Menn til Himnarykis / helldur enn þann. Avreka Verk hefur alldrei þvilijkt unned vered / hvørke a Himnum nie under Himnenum / svo sem þad / er JEsus Guds Sonur vann a Krossenum / þegar hann forþijkade Heimenn vid Gud / enn niðurbraut Djøfulsins Rijke / og took Herleidinguna ad Herfange. Þetta sitt Sigurmerke hefur hann belinged sijnum Sendeboðum / ad þeir bere þad fyrer Hertoga sijnum í hans Bardøgum hier a Jørdunne. Skyllde nu svo dijrmætur Hlutur hafa sier Agiæte af Maalfegre Speke edur Maalsnille / þa være hønum þad ecke lijted Niðurdrep / hins og annars vegna / ad þad nu sæte um oss fara / sem Paull enn apter seiger / Ad vier erum ecke marger Skynsamer epter Holldenu / 1. Cor. 1. Ecke marger Gøfuger / enn hin Guds er ecken Mangreinar Allt / Act. 10. Hann þecker best sijna / hann hefur Framfroodum læted í Framrøde under vijsa / svo hann gjørde þa Hyggna / enn þad er þo sijn Fanfiang ka sem er allre Mannlegre Vitsku ædre / 1. Cor. 1. Hann hefur med hinu sama Framrøde leidt þa Hyggnu til Guds Rijkes / sem hafa villad fylgia Kaudung Raala ad verda Heimsker / svo þeir Vitrer yrde. Þad sie eg a Nicodemo / Joh. 3. hvørn JEsus hendlade med / svo sem annan Brooſtmylking / samþvel þoott hann være Meistare í Israel. Og ecke hefur þetta einasta vered Atferd St. Pauls / helldur og annarra Christi Postula / hvørier í þessu hafa fylgt Dæme sijns Meistara / þvi jafnvel þoott ad allvijda meige rekia Spor hans Guddoomlega Vijsdooms / þa eru þess og mørg Dæme / hvørnenn hann teked hefur Lykingar af Almenlegum Hlutum / til ad kienna Framfroodum Guds Gaatu / til þess ad þess heldur Almeniglega Kraptur Guds Speke / sem í hønum bioo / mætte Samþærr verda þeim Hlutum er þeir best þeckru / og Daglega fyrer Augum saau / er skyllde ann Apþlæto minna þa a þau Lijfsins Ord sem framfluttu af hans blessada Munne: Til Dæmis hier um vil eg taka hina føgru Epterlijking er stendur í þessu H. Evangelio / um hvøre marger Verallðar Vitringar hefur rangar Meiningar spunnid / Enn eg vil med þæim Ordum tala nockud framar fyrer ydar Kiærleika um hennar rietta Skilning / þad framast eg veit af Guds Orde / og þar med hugleida

hvørnig

hvørnenn vier eigum ad skicka oss i Guds Vyngarde / svo oss verde ecke þadan med Osæmd i burtu vysad. JEsu / þu blessada Vyntrie / a hvørtu vier inplantader erum / Send oss þinn Anda / se ed leide oss i allan Sannleika / og kienn oss ettertan Skilning þessa G. Orda / A M E N.

## Vtleggingenn.

ALLt fra Vpphafe Mannsins Skøpunar og inn til þessa Dags/hefur Drottenn utgeinged til ad leigia Verkamenn i sinn Vyngard / og enn nu giører hann þad med Ydranar og Syndanna Fyrergiefningar Predikun. Rødd Hropandans heyrest enn nu i Eydemørku Veralldar þessarar hia oss/seigiande: Giøred verduga Avøxtu Ydraneñe/ Øxenn er sett til Rotar Triamna/hvørt þad Trie sem ecke ber godann Avøxt mun upphøggvast og i Elld kastast/ Matth. 3. Huss faderenn hefur leigt Verkamenn i sinn Vyngard/enn ecke Letingia/þar a Guds Eyrende ad giøra/um hvørt Jeremias svo seiger/ Jer. 48. ad bølvadur skule sa vera sem Verk Drottens giører sviksamlega. Eingenn hefur sig sialfur leigdann i þenna Vyngard/þad er sonnkveded hier um sem Esajas talar under Persónu Guds/ Es. 65. Jeg er fundenn af þeim sem ecke leitudu ad mier/ og mætte þad stor Farsæla vera/hvør sem þar rækt ad hygde/ þar vier svo fundner erum/og i hanns Vyngard/þad er i Ryke Guds Sonar setter / ad læta Syslaner þessa Heims vestrast svo þad sier/ad Menn þeinke annadhvørt ecke a Guds Verk/ edur og giøra þad med hangande Hende / þarfara være þeim ad alldrei hefdu þeir leigder vered/og stæde enn nu a Torgenu idiulauser/ þvi so seiger Endurlausnarenn hia Luc. 10. um þa er ecke villdu medtaka Guds Ryke: Jeg seige ydur ad Sodomæ mun bærelegra vera a þeim Deige/helldur enn þeirre Borg. Notsyket er þetta/ Br. M. ? Husbondenn er utgeingenn ad leita Þrælsins/ Konungurenn ad bioda þeim sem hafde burtu hlauped/ hinn alleina Ryke hinum Allsþurfanda/Domarenn Vtlaganum/ Brudguminn þeñe sem drygt hafde Hóraner med mørgum Elskuga/og hann sem oss hefur elskad i JEsu Christo þegar vier vorum hanns Oviner/Rom. 5. oss sem ad elskudum Heim þenna/og þad sem i honum er/ Fyssn Augnanna og dramblsamt Lyferne/1. Joh. 2. Þess gietur Johannes/1. Joh. 4. J þvi er Kiærleikurenn/ecke ad vier elskudum Gud/helldur ad hann elskade oss / og sende Son sinn til Forlykunar þad Synder vorar/ Þo fæst hinn auma Manneskia svo lyted um þa Jo-

su er hefie bodenn er i Guds Vyngarde/eins z Menn væru þangad leigd er til ad bada i Roosum / og ecke til ad bera Hita og þunga Dagsins. Hefur þa JEsus sveist Bloodenu/ Luc. 22. til þess ad vier skylldum i Syndarennar Epterlæte lifa? Hefur hann Vynpressuna troded/Es. 53. til þess ad vier skylldum fara fur Vynber? Hefur hann litad sinn Kyrtil i Vyne/og sinn Mottul i Vynberia Bloode/Gen. 49. til þess ad Syndarenn Blood Sattmaalans ulmennelegt hallde? Heb. 10. Hefur hann þar fyrer afdrucked hinn fleitefulla Kaleik Guds Reide/ad vier skulum sitia ad Heimbode hinnar vondu Babylon/ af hvørrar Hoordooms Vyne ad Þiood-ernar drucknar eru? Apoc. 18. Fiærre sie þvi. St. Pall kiennir oss þad langtum ødruvijsse/ Eph. 2. er hann seiger: Vier erum hans Skiepna i Christo/ til ad giøra Goodverk þau er Gud hefur tilbued ad vier gongum i þeim / Enn hvør eru þau Verk er hann tilbued hefur / edr hvilyk Idia er oss allud i hans Vyngarde? Þad telur Pall upp/Gal. 5. Kiærleike/ Fegn-udur/ Fridur/ Þolenmæde/ Goodgyrne/ Giæska/ Tru/ Hoogværd/ Spaknetkne: Enn mier er Spurn/mun Brudgumenn plocka mørg þvilyk Ber/ þegar hann inngeingur i Alldenngardenn til ad skiemta sier þar med henne sem hans Hiarta elskar? Jeg er hræddur umm/ad hann farnest ecke betur sum um af Trianum/helldur enn Fykenne sem Frelsarenn bolvade þegar hann fann ongvann Avøxt a henne/Matth. 21. nema midur sie/ þvi hun bar ong-va/enn eg hygg þvi verr/ad finnast mune þr ed bere illa eina. Gud klag-ade Jerusalem ad hun bære sur Vynber og Villu Vynvide/Es. 5. Enn þess være ad Oska/ ad ecke yrde sagt til Christnennar/svo sem hun nu tekur til ad giørast/ eins og til Jerusalem fordum: Samaria hefur ecke ad Helminge syndgad sem þu/ þu hefur margfiølgad þyinar Misgiørd-er/meir enn þær/og þu hefur riettlætt þyinar Systur med þyinum Svyvird-ingum/ Ezech. 16. Førum eige viller vega/ Brædur myner/og þeinkium ecke ad vier munum þvi alleina fyrerhlyta / ad vier leigder sieum/ þad være hælfu verra/enn ad seigia: Abraham høfum vier fyrer Fodur/ enn giøra þo eingenn Abrahams Verk / Joh. 8. Vier erum ad sønnu leigder / vier erum skørder/vier erum Christo i Skyrnenne innplantader/ enn hann seiger/ Joh. 15. Jeg er hid sanna Vyntrie / og minn Fader er Akur Madurenn/

 hvørn

hvørn þann Kvist a mier sem ecke ber Avøxt / mun hann burttaka. Hann seiger og ecke: hvør sem mier er einungis innplantadur/ helldur: hvør sem blyfur i mier / og eg i hønum/ hann ber mikenn Avøxt/ þvi an min gieted þier eckert giørt/ enn ef nockur blyfur ecke i mier/ hann er utkastadur eins z Vynkvistur/ z uppþornadur/ z þeir samannsafna þeim og i Elld kasta/ og þeir munu brenna. Adur enn Adam fiell fra Gude/ þa var hann af hm settur i eirn Alldenngard/ hvørn hann skipade hm ad yrkia/ Gen. 2. Og fyrst þvi var so Hattad i Heilagleikans Stande/ þa er lyklegt ad Gud mune eige vilia læta þad nu odruvyse vera i synum Vyngarde/ þar vier erum Syndarennar vegna/ under þ Løgmaal skyllder/ ad neyta vors Brauds i Sveita vors Andlitis/ og næra oss med Erfide af Jørdunne alla vora Lyfdaga/ Gen. 3. Enn ef þ a so ad vera i þm Vtriettingum/ sem vier nærum a þla Lykamlega Lyf/ hvad miklu framar mun þad skylldt i voru Sæluhiælpar Eyrende. Vier høfum aller stort Pund af Gude medtekid/ Engenn þarf meira med enn hm tiltruad er: Nockrer hafa Audlegd Veralldar þessarar / sumer Embætte/ nockrer Vitsku og Speke / og sumer Afl z Atgiørfe Lykamans. Af øllu þssu byriar Reikningskap ad standa: Enn hvørnenn forst hm þ/ er bar sitt Pund fram Avaxtarlaust hvørt er hann hafde i Jørdu grafed? Hann fieck þann Dom/ ad þr skylldu kasta hinum Onyta Þion i hin ytstu Myrkur/ hvar vera munde Oop og Tanna Gnystran/ Matth. 25. Hvad mun þa verda um hann/ s ecke einasta skilar Avaxtarlausu Punde synu / helldur leggur þ a Satans Bord/ til ad uppbyggia þar med hans Ryke: Lytt gagnar hm ad vera leigdur i Guds Vyngard/ þvi hans Idia er su eina þar inne ad giøra Christs Kyrkiu ad Belials Krambud/ lykur þm/ er Gud talar um/ Ezech. 16. Þu hefur teked mitt Gull z mitt Silfur/ s ad eg gaf þier/ z giørt þier Manns lykan af/ til ad horast med. Hinn Onyte Þion sagde vid Hussfødurenn: Medtak hvad þitt er/ enn Hussfaderenn mun vid hinn vonda Þion aptur seigia: Tak hvad þitt er/ s er Fordæming Daudans/ gack i burtu fra mier i eilyfann Elld/ sem fyrerbuenn er Dioflenum og øllum hans Arum/ Matth. 25. Drage þvi eingenn siaalfann sig a Tæalar/ edur ætle þ/ ad i Drottens Vyngarde sie eckert / edur Illt ad giøra. Hussfaderenn hefer ecke

ecke ætlaled pa/ sem allan Dagen stoodu Idiulauser a Torgenu / hefde
þvi eins hællkad vered i hans Vijngarde/þar þ er þ ecke noog ad leggia
Hondena a Plogenn/enn lijta aptur/þvi sa ed þ giører/hann er ecke hæfur
til Guds Rikis/enn þott þ sie sialf søgd Skyllda vor ad ervida i Guds
Vijngarde/svo miked sem vier berum Mætt og Megn til/þa vere eingenn
so blindur / ad hann ætle ad hann hafe til Skulldar ad reikna hia Gude.
Ad sønnu seiger Paall/Rom. 10. Ad sa sem giører hvad Løgmalsins er/
hann life i þvi/og þ sama seiger sialft Løgmaaled. Hvør eru þa Laun=
enn/ef Menn skulu tala epter Guds Riettlæte? Ecke annad enn hann lifa
skule/z ecke deyia/Levit. 18. Vier heyrum ecke ad vorum fyrstu Forelldrum
hafe heited vered Launum nockrum/þott þau vardveittu Guds Bodord/enn
ef þau bryte þad/ætlu þau Dauda ad deya/Svo kunna vor Goodverk
alldrei neitt ad forþiena af Gude / þad kiener oss Endurlausnarenn /
Luc. 17. seigiande: Er þar nockur af ydur/sem hefur eirn Þræl/er plæg
er/edur helldur Hiørd a Beit/ad hann seige til hans/strax sem hann geingur
inn af Akrenum/kom hijngad og sit til Bords/enn mun hann ecke seigia hon
um? Bu til þ eg snæde/gyrd þig og þiona mier/þar til eg hefe eted og
drucked/sijdan skalltu eta og drecka. Mun hann þacka þeim Þræl þ/ad hann
giørde hvad honum skyckad var? Jeg meina Nei. So og þier/þegar þier
giørt hafed/allt hvad ydur boded er/þa seiged: Vier erum Onijter þion
ar/þvi vier giørdum hvad vier ættum ad giøra. So hafa Goodverkenn
eingenn Verdlaun epter Riettkenum / enn hinum Vondu tilheyrer Straff ad
vettu. Goodverkenn eru jafnan Skyllda/enn hin vondu eru Afgiørd a
mote Skylldunne. Hin bestu Goodverk forþiena eckert/þvi þ er eins og ad
betala Skulld sijna/enn hid minsta Afbrot vinnur til Reide/þvi þa vant
ar so miked til SkulldaLukningar: Þess giettur Jacob Postule/2. Cap.
Sa sem helldur allt Løgmaaled/enn verdur brotlegur i einu Bodorde/hann
er sekur vid øll. Ad sønnu stendur hier i Epterlijkingunne/ Ad Husfad
erenn hafe giørt Samning vid Verkamennena / umm eirn Pening / Enn
ecke er þad so ad skilia/Br. M. so sem þegar Madur semur vid Mann/
helldur talar Drottenn þetta ad Mannlegum Plagsid. Peningur þesse er JEs=
us Christur/hinn sanne Israels Stiell/med hvørium Forneskiar keyptar

voru fra Lijflaatenu a gamla Testamentesins Døgū/ en syndugar Saale er þ Jesū Christū fra eilijfu Dauda. Eñ Samningureñ skiede i Ynde verdu vid vora fyrstu Forelldra epter Falled/ þegar Gud af Einskiærre Naad og Myskun sinne hiet þvi/ ad Kvinnunar Sæde skyllde i sundur merja Høggormsins Høfud/ Gen. 3. Hañ verdur Itrekadur so opt sem vier heyrū af Guds Orde/ ad vier sieū af Naad hoolpner vordner/ og ecke af Verkunū/ Eph. 2. Ad Gud hafe epter Myskun sinne giort oss hiaalpsega/ eñ ecke af Verkunū/ sem vier giørdū/ Tit. 3. þegar oss sagt verdur/ ad hvør sem a JEsu Nafn truer/ skule ecke fyrerfarast/ helldur hafa eilijft Lijf/ Joh. 3. Og þsse Samningur hefur eirn og hiñ same vered fra hinu fyrsta Fyrerheite/ & mun verda allt til Verallldarenar Enda vid alla þa/ er forlaata sig uppa Sonarens Forþienustu med hreinne Tru/ þvi Jesu þssū bera aller Spaameñ Vitne/ ad i hñs Nafne faae þr aller Syndaña Fyrergiefning/ ſ. a hñ trua/ Act. 10. Og er hier af audsiænt/ ad þta er eingeñ almennelegur Samningur/ helldur lijkt þvi/ þegar eirn goodur og Raadvandur Madur heiter nockrū einhvøriu godu/ aan allrar Verdskulldunar / þa reiknar hañ sig skylldugañ þad ad hallda / uppa þad ad hañs Ord bregdest ecke. Og ef ad finnast kañ einhvør so Lyndur a medal vor/ sem vonder erum/ hvad myklu framar mun Gud/ sem er alleina goodur/ vera bundeñ vid sijn Loford/ Luc. 11. þar hañs Ord forgaanga alldrei/ þoot Himen og Jørd forgaange/ Luc. 21. Hvar fyrer eingeñ kañ ut af þessu Lausnarañs Orda Tiltæke /, ad reikna til nockurrar Verdskulldunar hia Gude/ helldur blijfur hid sama/ sem Paall seiger/ Rom. 3. ad allur Heimureñ verde Løgfalleñ fyrer honum. Og so sem þad / ad þeir sem komu um Støttu / Nijundu og Elleftu Stund/ feingu af Naad þad þeir feingu/ so er og Samningureñ vid þa Fyrstu af Einskiærre Naad giørdur/ þvi sialfrædur var Herrañ ad laata siñ Vijngard audañ liggia/ nema hañs Giæska hefde knud hañ til ad leita epter þeim/ er hañ mætte hiaalpa. Jeg veit ad nockrer hafa steilt sig a þm Ordū/ er skrifar Jacob Postule/ 2. Cap. & þañ hlioода: Sier þu ecke ad Trueñ hefur samverkad hñs Verkum / & Trueñ er af Verkunū til Lykta leidd/ & Skriftеñ er uppfylld/ er

seiger.

hafde nærre/ Þvi sagt/ ad betra være ad vera Kalldur enn Volgur i synu Sæluhiaalpar Efnū. Af hinū stærstu Syndurū hafa vorded hiner bestu Menn. Hvilijkur var Manasses? 2. Paral. 33. Hvilijkur Paall? Act. 9. Hvilijk hin Bersyndugа? Luc. 7. Enn Þad er Furduverk/ ad af einū Volgū skule verda heilagur Madur / hvar fyrer ? Þvi hann meiner sig ecke ad vera vondann/ hann seiger; Eg em audugur z rijkur vorden/ og einkes Þarfe / eins og Enngelenn af Laodicea / enn Gud seiger : Þu veist ecke ad Þu ert Aumur og Fatækur og Blindur og Nakenn / Apoc. 3. O HErra Gud vert Þu oss Nædugur / Gæt hver ad sialfum sier / Þvi vær eigum aller fyrer Sælu ad Siaa. Hver a ad hugga Þig i Þynu Andlaate/ ef Þu hefur eckert numed af Guds Orde? Þa rijkt Presturenn kome til Þijn Þa Þu berst vid Dudenn/ seig mier : A hann Þa fyrst ad undervijsa Þier? Þegar Eyrun heyra ecke leingur/ Tungann talar ecke leingur/ Seint er ad Herklæda sig Þegar a Hølmenn er komed. Sa sem saung med Vijsflugum Veralldar Þessarar a Sumartijma Lijfsins/ hann maa svellta a hinn bitra Kullda Vetre Daudans. O hvad gott være Þa ad hafa safnad nockru i Kornhlødu synns Hiarta af Þvi goda Guds Orda Sæde / so Þar være nockud til Veganestis i gieignum Þann myrkva Dal og Daudans Skugga/ sem er Vegur allrar Veralldar fra Þessu auma Lijfe/ Joh. 23. Svo amminne eg ydur nu i Drottne og grætbæne fyrer lifanda Gud og ydar Sæluhiaalp/ Ganged i Liosenu medann Þad er hia ydur / so Myrkuren høndle ydur ecke/ Joh. 12. Þar eru vonder Dagar/ Diøfull enn er ofann komenn hafande Bræde mikla/ Þvi hann veit hann hefur stuttann Tijma/ Apoc. 12. Afræked Þvi ecke Guds heilaga Ord / hvørt ad er Sverd Andans/ so ad Þier geted Mootstødu veitt a Þeim vonda Tijma/ Eph. 6. Finne nockur sitt Hiarta ecke riett skickad til ad heyra Þad/ hann bidie Gud ad skapa i sier nytt Hiarta / Þvi Þad tekur eingenn af sialfum sier / verde hann ecke so fliott Bænheyrdur/ Þa bidie hann aptur z aptur/ og ville Þad undanfdragast/ Þa bidie hann Oaflaatanlega/ Luc. 18. Dag z Nott/ og Þreyte vid Gud med Bænenne/ ad Þad Lambed af Kyne Juda kome/ og take sialfur Þa lastu Book/ og virdest hefie sialfur upp ad liuka/ Apoc. 5. Eingenn Madur skal telia mier Þa Tru/ ad Gud mune ecke

ecke giefa þm̄ heilagan̄ Anda ſem hn̄ þar um̄ biðia. Komed og med
audmiukū Anda under Orðſins Heyrn reiðubuner að meðtaka allt það
ſem Gud hefur befalað/ eins og Petur ſagðe við Cornelium/ Act. 10.
Faminſtar og Veralldlegar Hugſaner ſieu langt i burt a þm̄ Tijma/ þvi
eingen̄ kan̄ tveimur Herrū i Sen̄ að þioona/ Matth. 6. ſierdeilis ſvo
Olijkū ſm̄ Gud og Belial eru. Þeinked ecke ſvo med ydur/eg veit þta
aadur / eg hefe það aadur heyrt/ þvi þott ſvo kun̄e að vera / þa hefur
Gud ſijna Tijma til að verka i Hiartanu / og hn̄ er i Orðenu/ þvi ſieu
Eyrun/ſm̄ að eru Dyr Hiartans/alltijd open̄ fyrer Konunge Dijrðar
innar. Vered ei Gryckium̄ lijker/ um̄ hvoria Demoſtenes ſagðe: Að þa
hn̄ talaðe um̄ Skugga Aſnans/ þa hefðe han̄ nooga Tilheyrendur/en̄
þa hn̄ talaðe um̄ Gryckl ands Velferð/þa ſtijnge aller Fijngrunū i Eyr
un. Latted Syndarinnar Ranglætingaran̄a taka af ydur þan̄ Eyrna-Klaada/ſm̄
Paall um̄giedur/2. Tim. 4. að þeir vilie heyra þ þm̄ þocknaſt og hvað
Nijſtaarlegt er/ Eſ. 30. helldur vered Lærdoomunū og Strøffunū H.
Anda undergiefner. Fared og ei i Man̄vyrðingar um̄ Kien̄endan̄a
Gaafur edur Maalfære/þvi allt Guds Ord er gott/ og ſa er eckert ſem
talar/helldur Gud ſm̄ verkar. Guds Kraptur fullkomnaſt opt i Veik
leikanum/2. Cor. 12. Hvað er Paall? Eda hvað er Apollo ? 1. Cor. 3.
Þeir eru Þienarar han̄s/a hvorn þier trued/epter þvi ſem han̄ hefur
hvoriū einū giefed. Drotten̄ var ecke i Veðrenu/og ecke i Jarðſkiaalft
anum/og ecke i Elldenū/þa han̄ talaðe við Eliam i Hellrenū/helldur i
Vindblænum / 1. Reg. 19. Svo er og Gud ecke bunden̄ við ſtoora
Maalſnilld/og hn̄s Rijke er ecke iinefaled i Ordum/helldur i Krapte/ 1.
Cor. 4. Sa ſm̄ alleina tekur epter fallegum Orðū og føgrū Maalſe
greinū/hn̄ ſleiker Hyðena/en̄ Kiarnan̄ ſnerter hn̄ ecke. Vær eigū Hyðe
ena að briota/ ef vier viliū riett faa ſmackað epterkomande Alldar Sæl
leik / hvør oſſ mun ſijðan̄ aan Mælingar frambodeſt verða i þvi Himne
eſka Bruðkaupe/ þar hiñ fegurſte meðal Man̄an̄a Sona/ Pſ. 45. mun
drgckia hana ſm̄ hn̄s Hiarta elſkar / Cant. 3. med lifande Vatns
ſtraumū ſem framfliooka af Stoole Guds og Lambſins / Apoc. 22.
Til þeirrar allra Tignarleguſtu Maaltijdar að ſaman̄ſafnaſt / un̄ þu
olſ

oss Konungur eilijfrar Dijrdar/ z þitt vegsamlega Nafn þar eilijflega ad prijsa. Bænheyr þad goode Gud fyrer Forþienustu þijns Eingietens Sonar / A M E N.

# A Bodunar Dag Mariæ.

Gudspialled/ Luc. 1. Cap.

MN á hinū siötta Manude var Gabriel Eingell sendur af Gude i þa Borg i Galilæa/ ē nefnest Nazareth / til þrrar Meyar er fëstnud var þeim Manne ed Joseph hiet/ af Huse Davids/ og Heite Meyarennar var Maria. Og Eingellen gieck inn til hennar og sagde : Heil siertu Nadarfulla/ Drottenn er med þier/ Blessud ertu a medal Kvenna. Enn þa hun sa hann/ vard hun hrædd af hans Ordū/ og hugleidde ad hvilijk være þesse Kvedia. Og Eingellenn sagde til hennar : Ottast þu ecke Maria/ þviad þu fanst Nad hia Gude. Sia / þu munt Barn giefa i Kvijde þijnū / og munt Son fæda / og hans Nafn skalltu kalla JESUS. Hann mun mykell verda/ og kallast Sonur hins Hædsta : Og Gud Drottenn mun giefa honum Sæte sijns Fodurs Davids / og hann mun rijkia yfer Huse Jacobs ad Eilijfu/ Hans Rijkis mun og eingenn Ender verda. Þa sagde Maria til Eingelsins : Hvornenn skal þad skie / af þvi ad eg hefe aungvann Mann kient ? Eingellenn svarade / og sagde til hennar : Heilagur Ande mun koma yfer þig / og Krapftur hins Hædsta mun yfirskyggia þig. Af þvi/ og þad hid Helga sem af þier mun fædast / skal nefnast Sonur Guds. Og sia þu / ad Elizabeth Frændkona þijn/ hefur og Son giefed i Elle sinne/ og þesse er Siötte Manudur hennar / sem kollud var Obyria / þviad Gude er eckert Ord Omaktugt. Enn Maria sagde: Sia/ Eg em Ambatt DRottens / Verde mier epter Orde þijnu. Og Eingellenn veik fra henne.

## Exordium.

SVo sem kallt Vatn er þyrstre Salu / svo er goodur Bodskapur af fiarlægu Lande seiger Salomon / Prov. 25. Þad mä i Dag seigia / ad vier hefum goodann Bodskap heyrt af fiarlægu Lande. Hvad er fiarlægra hyggt enn ä himen og Jörd/ Gud og Madurenn / Himnarijke og Helvijte

yfer

vere ? En hvad heyrum vier hier i Gudspiallenu / Br. M. ? Vier heyrum ad Gabriel Engell hafe sendur vered fra Gude / Til hvørs ? Til eirnrar Meyar / sem føstnud var þeim Mane / er Joseph hiet / þad er til daudlegrar Manneskiu / og ecke var hann einasta til hennar sendur / hvort hann i þad Sinn ætte alleina Tal vid hana / helldur til alls Mannkyns Þvi lyser Eingellenn a Fædingar Nootti DRottens / er hann sagde vid Hyrdarana : Eg boda ydur mikenn Fognud / þann er skiet øllu Folke / Luc. 2. Mooder DRottens maatte kallast svo sem Umbodsmadur alls Mannkynsins af Gude skickadur / til ad taka fyrst allra vid þessare Heilsusamlegre Guds Naad / er sijdann var Opinberud øllum Mønnum / svo sem vor Fyrsta Mooder took vid þvi Blessada Fyrerheite / ad Kvinnunnar Sæde skyllde sundurmerja Høggormsins Høfud / Gen. 3. vegna allra sinna Erfingia : Svo took og Guds Mooder vid Fullkomnan Fyrerheitesins / vid hinu Fyrerheitna Sædenu / vid sialfum Lykamanum / sem ædur var fyrermyndadur i Skugganum / Þvi kalla eg þetta goodann Bodskap af Nærlægu Lande / og jata þad satt vera sem Eirn sagde umm þessa dyrdlegu Hatyd / ad hun sie Bloomstur allra Hatyda. A henne er Kvisturenn af Root Jesse tekenn fyrst til ad bloomgast / Esa. 11. Veturenn er umliden / Stoorrideded er horfed og burtvikeð / og Bloomsturenn lata sia sig i Lande voru / seiger i Ljoodmælunum / Cant. 2. Ja / sa Blessade Avøxtur er sig kallar Bloomstur Akursins / og eina Lilju i Dølunum : Hann spratt fyrst upp i Nazareth / er þydest hin Bloomlega. Lyted var þetta Bloomstur i Fyrstunne. Hann var eitt Foostur i Mooдur Lyfe / sijdann eitt Barn / og sijdarst Afsikar vard hann hinn Fyrerlitlegaste / og Forsmaanarlegaste / sem Esajas vottar / Es. 53. Ja / minstur allra þeirra / sem hann med sijnum Saudum kvaled hafa / enn fyrer þad hefur hann aldrei fyr marga Heydingia / og utbreidt sijna Dyrd umm allar Alsins Heimsbygdarennar / svo ad vier jafnvel sem hier liggium a þessum Hala Veraldarennar / Vier buum under hans Skugga / og þott vier sieum af øllum Heimenum forsmader / samt hefur þo hinn goode Gud virdt oss þess / ad hann hefur breidt yfer oss sinn Rixadallo / þar vier lægum alls nakter a Vydavangenum i varu Bloode / og sagt ad vier skylldum lifa / Ezech. 16. Þvi meigum vier ei sijdur enn hver annar Þiood i Heimenum kalla þessa Hatyd mikla / og hana med Glede og Fognude hallda. Være ei þesse Gledelege Bodskapur a Jørdu sendur / þa være Christur ecke fæddur til ad helga vora Fæding / ecke umskorenn til ad taka a sig Løgmalsins Bølvan / ecke Heidingiunum birtur / ecke daenn fyrer Synder vorar / ecke uppreisenn oss til Riettlætis / ecke uppstigenn til ad bidia fyrer oss / og ecke hefde hann a Hvytasunnu Døgum sendt sinn Anda yfer sijna Postula. Þvi maa eg seigia ad þesse Hatyd her allar Hatyder i Skaute synu / og maa þeirra Mooder kallast. Hier hefur Gud Fader tekid til ad hallda Brudkaup Sonar syns / Matth. 22. Hier hefur Sonurenn Trulofad oss sier i Naad og Myskunseme / Hos. 2. Hier hefur H. Ande bygt sier eitt Mustere / 1. Cor. 6. Ecke einasta i þønum / sem er hid Allrahelgasta i þessare Kyrkiu / helldur og i øllum hans Limum / øllum þeim Andlegum Steinum / sem hans Helgedoomur er bygdur af hier a Jørdunne / og af hans Fylling medteked hafa / og Þvi vil eg kvedia ydur / Br. M. med þeim Ordum er hinar Lyfkonu Menn toludu sijn a mille Forдum Daga / er Gud

hafde

hafde frelsad Samaritam af hende þeirra Syrlendsku: Þesse Dagur / er Dagur Goods Bodskapar / 2. Reg. 7. Skylldum vier þegia yfer þvi? Kunug mæ oss vera vor Andleg Lijkþrá i hvøre vier gietner og / þvdder erum / þvi skylldum vier þegia yfer þessu mykla Hialpræde DRottens / helldur enn þeir? Þar i Dag er Guds Barna Borg af Vallde Myrkranna frelsud / þvi skylldum vier draga vora Lofgiørd / vora Ydran / vora Þackargiørd undan til Morguns? Gaungum þvi nu þessu H. Evangelio i Nafne DRottens / og hugleidum af þvi um Stund / hversu Hæleitur og Gagnsamur ad sie þesse Fagnadarboodskapur. O DRotten styrk oss med Krapte þyns Anda / svo ad þetta Eyrende meige vellukast i JEsu Nafne / A M E N.

## Utleggingen.

ÞAd er Hægra / B. M. ad lofa eirn Hlut sem ecke er meira enn almenne-leges Hroos verdur / helldur enn þann sem Afbrygde er allra annara Hluta / helldur þo þvi / ad Menn giefa prydt þa Hlute med Ordunum / enn ad i sialfum sier ecke eru so prydeleger. Enn hvad skulum vier um þa seigia / hvørra Dyrd og Agiæte einginn kann med Ordum ad utmaala / so þo ad Menn hafa sagt um þa allt þad sem Hiartad fær upphugsad og Munnuren uttalad / þa er þo ecker sagt svo sem verdugt er þvilijkre Nalægn. A medal þessara dyrdlegu Hluta kalla eg ad vera Leyndardom Holldtekiunnar Drottens vors Jesu Christi. Hvad Sendefórenne sialfre vidvijkur / þa var til hennar valenn Gabriel Eingell / ecke eirn almennelegur Eingell / helldur eirn Høfud Eingell. Veralldleger Kongar og Høfdingiar / þeg ar þeir leita Konfangs Syni synum til annara Konunga / þa velia þeir til þess Eyrendis sijna villdustu Menn / so var og Gabriel valenn i þessa Sendeför / eirn Guds Kappe / so sem hans Nafn hliodar / og hann Eingietinum Syne nærsta Handgeinginn / sem rada mæ af Daniels Spadoms Book ar 9. Cap. Hvør og um sig vitnar / Luc. 1. ad hann stande framme fyrer Gude. Hvilijkur Sendebode hæfde vel so Tignarlegu Eyrende. Enn til hvørrar var hann þa sendur? Ad sösu til eirnrar Konungs Dottur / þvi hun var af Huse og Kyne Davids / enn hvørre þa var øll Veralldleg Konungs Tign horfenn / so hun var ein umkomulaus fætæk Mey / og so lyt els metenn af Heimenum / ad hun fieck ecke annad Rum i Giesta Herberginu / enn eirn Stall til ad leggia i sinn Frumgietenn Son / Luc. 2. Himens og Jardar Konung. O hvad satt er þad sem Postulenn skrifar: þad

Ss sem

sem u-gøsugt er fyrer Heimenum/og þad sem einkis meted er/þad hef-
ur Gud utvaled / og þad sem ecke er / svo hañ afmæde þad sem er/ 1.
Cor. 1. Skyrlyfe og heilog Fatækt Guds Moodur/var mikłu dyrd-
legre i Auglite hiñs Hæsta Konungs / sem er alleina vys og alleina
Rykur / helldur eñ øll Ryke Veralldareñar og þeirra Dyrd / Annars
munde hañ hafa læted hañ fædast af Keysarans Dootkur / sem þa
hafde Einvallds Raad i Heimenum/ eñ ecke af eirnre munadarlausre
Stulku. Hvad þa? Mun hañs Tign nockud mijnka vid þad/ad hñ
hefur lytelæckad siñ Son? Fiærre sie þvi/ þar fyrer er Hun hvad mest
vordeñ/ hefde hañ ei so giørt / þa hefde Sonureñ ecke feinged Þiood-
ernar og Endemørk Veralldareñar til Arfleifdar/ Ps. 2. Fyrer sijn-
na Holldtekiu hefur hañ Herleidinguna ad Herfange teked/allur Heim-
ureñ var under Diøfulsins Vallde / nema Gud hefde heited þvi blessu-
ada Kvinkuñar Sæde/ er i Dag var i Meyar Lyfe gieted / eñ med þvi
hefur hañs Eingieteñ Sonur broted stoort Skard i Diøfulsins Vell-
de/ svo ad Johañes er hañ sa Himnana opna / þa sa hañ þar Fiølda
so mikeñ/ad eingeñ gat taled/Apoc. 7. og hefur margur sijdañ vid auk-
est/ja/eykst eñ nu i Dag/og mun aukast þar til Verølld þrytur/þack
er sieu goodū Gude ad Eilyfu. Satt er þad / ad ecke ma vid Guds
Hatign auka / hun verdur i sialfu sier hvorke stærre nie minne af vorū
Vølldū. Eñ þo ad þyju sie svo hattad/ þa verdur þvi ecke neitad/
ad Christi Persoonu hefur mikell Soome aukest i þeim Sigre er hañ
fieck yfer Andskotanū/er hñ flette hñ sijnū Herklædū a hvør hñ trey-
ste/ Luc. 11. eñ took sijnar heilogu Þusunder af hñs Hende/ og þ þess-
añ dyrdlega Sigur / hefur Guds Sonur epter Mañdoomenū ødlast
Nafn yfer øllū Nøfnū/so ad i Nafne Jesu Christi skulu sig øll Knie
beygia/bæde a Himne og a Jørduñe/ og under Jørduñe / Phil. 2. Eñ
hvørneñ hefur hañ þeñañ dyra Sigur uñed/ nema i voru Hollde? sem
i Dag var i Meyar Lyfe plantad af Heilogum Anda / i þvi hefur
hañ lided/ i þvi hefur hañ Sigre hroosad/ i þvi situr hañ til Krapt-
arens hægre Handar/ z i þvi mun hñ aptur koma til ad dæma Lifend-
ur og Dauda/ eñ isleida oss sm a hñs Nafn truñ i sitt Brudkaup/ og
þvi

þui kalla eg nu þessa Sendefør miøg vegsamlega / þ þra skullð sem þssa Bodskapar noted hafa/ þvi Gud auglyser hvad mest sitt Almætte/ sñ Vijsdoom og sijna Fødurlega Giæsku/ i þvi ad giøra gott af þm̃ Nlutū sm̃ i sialfū sier audvirdelegaster og verster eru / so sm̃ var allt Mañkyn i Synd og Dauda falled. Fra hvørtū er þesse Sendefør ? Fra Gude/seiger Textenn. Þegar eg Gud nefne/ þa hefe eg noog sagt/ Eingenn er þvilijkur z ei kañ nockur i Samjøfnud vid hñ ad koma / þ kañ og eingeñ Mañia edur Eingla Skilningur ad grijpa edur jmynda sier/hvad stor Munur ad sie mille Skaparans og Skiepnunar. Hñ sm̃ er Alvijs/ Almattugur/ Eilijfur/ Omælañlegur og Oranñsakañlegur/ þar hñ bijr i þvi Liose sm̃ eingeñ fær tilkomest/1.Tim.6. Nañ sm̃ ecke einasta skoop Himen og Jørd af øngvu Efne/stiornar þeim/vid=helldur og vardveiter þau oan alls Omaks og Erfidis / fra Upphafe Skøpunar og til þssa Dags/helldur kañ hñ/ef hñ vill/ad skapa med einu Orde Otal Þusund Veraullder adrar eins og þsse synelege Heimur er. Nañ sender af Himnum ofañ til syndugra Mañia/ er hañ styggt hefdu og til Reide reitt. O miñ Gud/hvad er þo Madureñ þss ad þu minest hñs? Ps.8. Þegar eg hugleide þta/ þa smellest mitt Hiarta i mier ut af Blygdan/ad soddañ ein skielfeleg Hæteign/ hñ giører Sendefør ofañ af sijnu Hæsæte til vor daudra Hunda/til vor syndugra Orma/þar vier skrijdū i Leyrvelltu þessare/og mm hier af þessa Sendefør meire øllū Velgiørdū kalla/þott eckert añad være. Eñ hvilijkur er nu þsse Bodskapureñ? Þad syner oss fyrst Kvedia Eingelsins vid Guds Modur. Heill sert þu Nadarfulla/Drottenn sie med þier/blessud Sert þu A Medal KVeña. Nun mætte med øllum Rietti kallast hin Nadarfulla/þvi hun vard Mooder ad honū sem er fullur Nadar og Sañleika/so sm̃ Johañes um hñ vottar/Joh.1. Og ecke einasta hun/helldur allar Andlegar Christi Mædur/sm̃ er hvør ein rieut=truud Sala/Matth.12. er af hañs Fyllingu medteked hefur Nad fyrer Nad. Drottenn er med þier þu Hetia sagde Eingellenn vid Gedeon fordū Daga/er hñ heilsade honū/ Judic. 6. Þad rættest og/þvi fyrer hñs Hand slo Drottenn i Hel Madianita sm̃ lau eins z Einges Sprettur i

 Jesreels

Jesreels Dal/med þrem Hundrudū Manns/ Jud. 7. Enn þott þ være miked Guds Furduverk/ þa var þ lijked hia þssu/ad Maria bar i sijnū Kvide þann Drottenn Himens og Jardar/sem ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar/Ebr. 1. Blessud var hun a medal Kvenna/þvi einginn Kvenn madur fra Upphafe Veralldar hefur foddann lijkamlega Samd hloted sem hun/er giordest þar Moder sem hinn allra Næste var Fader ad hinum allra Næsta. Enn ecke hefur ein Rettchristenn Sala er Jesum andlega getted hefur/ minne Blessun þeyged/ hvǫlijker hann sialfur/er hann kallar þa sijna Moodur/Systur og Brædur/er hans Ord heyrdu/Luc. 8. Fyrer þvi er þesse andlege Getnadur so miklu meire hinū Lijkamlega/ sem ad allar Andlegar Saker eru hinū meire og betre/ Þvi forgiefens hefde Moder Drottens bored Heimsins Frelsara i sijnū Kvide/ nema hun hefde ꝛ bored hann i sijnu Hiarta/kalla eg hana þvi salle þar af/ ad hun vardveitte øll hans Ord / Luc. 2. helldur enn af þvi ad hann mylkte Briost hennar/þvi hvad um þad/ Saler eru þr sem heyra Guds Ord og vardveita þad/sagde hann sialfur fordū vid Kvinnuna er prijsade Salu hans Modur/ Luc. 11. Og so giører nu þesse Kvedia Engelsins Sendeførena miøg so fræga og veglega / ad eckert kann gledelegra upp ad hugsast. Kvediunne fylger strax a epter høfud Erended/þ flytur Guds Sendebode med þessum Ordum : SJa Þu Munt Barn Gieta i Kvide Þijnū og Munt Son fæda / og hans Nafn skallt þu Kalla JESVS / Hann Mun Kallast Sonur Hins Hæsta. etc. Miked er i þessum Ordum innefaled/ og meir enn syndug Tunga meige þad utskijra. Hid Fyrsta er/ad hun skule Barn gieta/þad er Mannesk eins og hun var og hennar Fedur ad øllum Edlis Hattū/ad Syndenne einne fratekenne/þad skilur Engellenn undann er hann seiger : At þad Heilaga sem af henne mun fædast/skale kallast Sonur Guds : So var þa Christur hlutkakande Holldz og Blods eins og Smaabørnenn/ Ebr. 2. So sem Børnenn hafe sitt Hold ꝛ Blood/þ er Mannlega Natturu / Saal og Lijkama af Forelldrunū / So hafe Christur af sinne Moodur og Fedrunū epter Holldenu / bæde Saal og Lijkama. Nu seiger DRottenn sialfur vid Nicodemū : Hvad af Holldenu er fædt/þad er Hold/Joh. 3.

og

og felkhade hñ þar med spillta Mañsins Nattúru. Hvad þa? Var Mañkómuneñ Christi Syndũ spilltur? Fiærre sie þvi / þar fyrer stendur hier i Gudspiallenu: Heilagur Ande Mun Koma Yfer Þig. Og Kraptur Hins Hæsta Mun Yfer skyggia Þig. Til hvers? Til þess medal allara/ad helga og tilreida þeñan Blood/af hvoriu Holldne var Lÿkameñ tilbueñ/ svo ad øll Fylling Guddoomsins kyñe ad bua þar i Lÿkamlega/ Col. 2. Med hvoriu Moole þad sie skied/ veit Gud eirn/sem er Meistare þessa Furdwerks/uñ hvort þad nær med riettu segia s em skrifad er uñ Salomons Nahsæte/ad þvilijkt hafe ecke giørt vered i nockru Konungs Rijke/1. Reg. 10. Og þad sem eg nu sagt hefe uñ Christi allra helgasta Lÿkama/ þ Efne er hañ var myndadur af/ þad sama er uñ hans dyru Saal ad seigia. Lÿkameñ er Herberge Saalareñar/ecke mætte i þvodañ Herberge / sem af H. Anda var tilreidt þ Krapt hins allra Hæsta / ecke mætte þar byggia nema eirn hreirn og heilagur Gestur. Mañsins Saal hafde framar syndgad eñ Lÿkameñ/ hun var og Hofundur Syndareñar i Mañenũ/ þvi mætte hans Saala ecke sijdur Oflecked vera/sem Saaler vorar hefur ur Helw leyst/ helldur eñ Lÿkameñ. Postuleñ seiger ad i honũ bue aller Fiarsioder Vijsdoomsins/Col. 2. Bigging þe i Lÿkamanũ edur Saalune? J Saalune ad vijsu/eins og Skynsemeñ hia oss og þad Gott sem heñe fylger. Svo er allur Christur hreirn og heilagur sem ei kuñe añars ad vera/þar hañ var giteñ af H. Anda. þvi epter þ Eingelleñ hafde sagt/ad heilagur Ande mande yfer hana koma/ þa leggur hañ þta til: Og Þad Heilaga Sem Af Þier Mun Fædast / Skal Kallast SONur GUds. Og ad Meñ gange ur Skugga uñ þad/ ad Christur sie giteñ i Meyiar Lijfe eins og añad Foostur / ad þvi frateknu/ ad þar komu eingeñ Mañs-Bollo til/so sem hun seiger hier vid Eingeleñ: Hvorneñ Kañ Þetta Ad Ske/þar Eg Hefe Ongvañ Mañ Kiendt? Og Guds Ande samstiñer heñe/ Matth. 1. stigiandes Ad Joseph hafe ei kiendt hana þar til hun fædde siñ Frumgieteñ Son. Ad Meñ gange ur Skugga uñ þad seige eg/ þa vottar Matth. Cap. 1. ad hun hafe fundest Þungud af heilogum Anda / i nockru sijdar / Ad þ sem af heñe gieted var/

var/ hafe vered af H. Anda/ z samt er þo ecke H. Ande Fader ad Christo/ helldur tilbio hn̄ og helgade/ sem̄ adur er sagt/ þ Efne i Lijkama Jomfrur Mariu sem̄ Drottens myndadest af/ og framkvæmde so þetta allra heilagasta Gietnad m; sijnū Oransakanlega Guddoms Krapte. Þad enn lyriade allt Riettlæte upp ad fylla/ Matth. 3. Br. M. þvi þ vard af syndlausū Holld ad lukast sem̄ af syndugu var tilunned. Þad Mustere vard heilagt ad vera/ i hvørre þre Foorn atte ad offra sem̄ Gude sig ka skyllde fyrer allar Verølldarennar Synder. Sa Kiennemadur hlaut ad vera Oflraffanlegur sem inganga skyllde/ ecke Einusinne a Are hvøriu (eins og Aaron og hans Epterkomendur) helldur øllu Einusinne i þad allra helgasta/ ad utvegadre eilijfre Endurlausn/ Heb. 9. Þvi seiger Paulus/ Sodann Biskup heyrde oss/ Heilagur/ Saklaus/ Ofleckadur/ fraskilenn Syndurunū/ og vordenn Himnunum hærre/ Heb. 7. Þad er upphafenn yfer alla Himna/ hvar þ allra Helgasta er/ i hvørt hn̄ er inngeingenn og setstur Gude a hægra Veg i vorru Holldi. Og sier Men̄ aptur af þssu hvad gledelegur ad sie þsse Bodskapur/ og þsse Sendefør vegsamleg. Enn þ kemur yfer/ christner Men̄/ ad Gud er hier Madur vordenn. J sama Vetfange sem̄ heilagur Ande tilbieo JEsu Mandoom/ svo ad hun gat sitt Son/ under eins og i sama Augnablike took hin̄ ønnur Guddomsins Persona Mandomenn i Samfielag med sier/ med so føstu Sambande og ecke Samblande/ ad þ hefur sijdan alldrei slitnad/ og mun ecke um̄ alla Eilijfd slitna. Ja/ Daudenn gat þ ecke slited/ jafnvel þott hn̄ adskillde Saal z Lijkama Drottens/ þvi annars hefde hn̄ ecke sialfur sijna Saalu apturteked/ hvøria hann sialfur fra sier liet/ Joh. 10. Þetta vottar Guds Ande sem sialfur var Verkmeistarenn/ tvisvar i þessu H. Gudspialle. Fyrst þar hann seiger ; Ad Barned sem hun gieta mune/ skule kallast Sonur hins hæsta/ þad er Guds/ þvi eingenn er honum hærre/ Aptur/ ad þad heilaga sem af henne mun fædast/ skule kallast Sonur Guds. Taked epter þessu Br. M. þott eg tale i Fæfræde um̄ so hava Hlute/ þann sem hun gat eins og Guds Son/ þann fædde hun eins og Guds Son/ svo ad eingenn Umbreiting hefur vorded fra Gietnadenum allt til Fædingarennar/ i Einingu Per-

 sonunnar/

soomuskar / sem ei er Von / þvi hia Gude er eingen̄ Vmbreyting nie Skugge til Vmbreytingar / seiger Jacob / Jacob. 1. Hvad þa? Er Christur Guds Fodurs Natturlegur Sonur epter Mañdomenū? Ad vysu er hn̄ / en̄ ecke epter Natturlegū Hætte / helldur þ Eining hiñar Guddomlegu og Mañdomlegu Natturūnar / sakum þess / ad hin ønnur Persoona Guddoms sins / Guds eilyfur Sonur tok a sig Mañdomen̄ / so giefur þad ecke ad skilia / ad sa sem er Guds Sonur fra Eilyfu / en̄ i Tymans Vppfyllingu vard Madur / hn̄ er i Raun og Sañleika od ølluleite Guds Sonur / og þar fyrer er hn̄ vor Fridur / sem hefur giortt eitt af bꜳdū / Epheſ. 2. Men̄ kuña ad seigia / ad hier um sie ei so Naudsynlegt ad tala / og ad Men̄ skilie ei þessañ Leyndardom / sem satt er. En̄ so miked giettu Men̄ skiled / sem Gud hefur viliad lꜳta oss skilia / oss til Sꜳluhialpar. Þad er ecke lytel Huggun fyrer einn Syndara / ad Gud er Fader Christi epter Mañdomenum / þar Christur kallar oss syna Brædur / Ebr. 2. Adam var Guds Sonur / sem Lucas vottar / 3. Cap. En̄ i Fallenu giordest hañ Diøfulsins Sonur. Hvørnen̄ attem nu Adams Synir aptur ad verda Guds Synir / nema hin̄ eilyfe Sonur Guds yrde Adams Sonur / sa ed geingest under Sekt Brædra sinna? Þad sem broted var a moote Gude / þad vard af Guds ad gialldast. Þad sem af Mañenum var broted / þad vard af Mañenum ad bætast. Gud kun̄e ecke einsamall ad lyda: Madurenn ecke einsamañ ad fullnægia Guds Riettlæte. Hvørnen̄ atte þetta ad skie / nema Gud yrde Madur / og lide þ þad / sem vier med vorū Syndū høfū broted / þvi er þetta ecke lytel Huggun / og hvad seige eg lytel? Þesse er hin einasta Huggun synduges Mañs / og eingen̄ er ønnur / Sa sem hana ecke hefur / hn̄ er vyst Helvite / þvi ecker Nafn er añad giefed Mønnum under Himnenum / i hvøriu oss byriar Sꜳluhoolpnum ad verda / helldur en̄ Nafned JEsu / Act. 4. hvørt hønum var hier giefed / hvad og kallad var af Einglenū / adur en̄ hañ var gieten̄ i Moodur Kvide / seiger Lucas 2. Cap. Er hn̄ seiger oss Vmskurnar Søgu Drottens. O hvilyk Dypt Audæfaña og Guds Speke. Þetta er ein Feste / sem Guds Sonur gaf sinne Brude i Tryggda Pant / i hvørre eitt Furdu-

verk

verk hanger af odru/eins og eirn Nleckur af odru. Skapare Nimen' sins er ein Skiepna vorden. Cillfoden er giefen i Tilmons Uppfyllingu/Gal. 4. Ein Jomfru verdur Olett/ Esa. 7. Nun sem af Gude er skopud / verdur Guds Mooder. Nan verdur i Moodurlijfe innilucktur/sem Nimnana Nimnar ecke teked fa / 1. Reg. 8. Nan sem dunar i Nimnenu/hn grakur i Stallenu: Sa ed allar lifande Skiepnur fedur/ Ps. 145. närest i Moodurkvide. Skiepnan lätur til þ Efnes sin Skapare var giordur af. Soolen hefur Lios feinged af Stiornunne. Moodren var yngre en Barned/en Barned skarra en Moderen. Minn Nerra/ þu sagder/er þu villder syna þijnu Lärisveinu ad þu værer Nollo af voru Nollde. Ande hefur ecke Nollo nie Bein/ svo sem þier siaed mig hafa/Luc. 24. En hier sie eg ad Anden er vorden Nolld/ þvi Gud er eirn Ande/Joh. 4. og vard þo Nolld. Svo seiger Johannes 1. Cap. Ordid vard Nolld og bygde med oss/ og vier saaum hans Dyrd/ Dyrd svo sem Eingietens Sonar af Fodurnu. Þetta eru starre Undur en oll Undur/og ma hier ad Fyrstu og Sijdustu kalla ad þesse Sendeför og þesse Bodskapur sie Dasamlegur / Naleitur z yfer allan Mata Undrunarlegur. Gud giefe oss þar ad koma sem vier meigum Eilijflega ad honum dast/med þeim Fagnade/sem ecke hefur hier Eyra heyrt edur Auga sied/ og ecke i Manns Nug edur Narta komed/ 1. Cor. 2. En nu vilium vier skoda hvor ad sie Nytsemd þessa Bodskapar/ z er hun ad vijsu so stor/ ad hun verdur alldrei fullþeckud. Eilijf Ar skal til þess hafa ad veg sama Guds eilijfa Giæsku. So elskade Gud Neimen/seiger Lausnaren/ ad hann gaf ut sinn Eingieten Son til þess/ad aller þeir sem a hann trua/ fyrerfarest ecke/ helldur hafe eilijft Lijf/ Joh. 3. Nær gaf hann oss hann fyrst? A hans Gietnadar Deige/en fyrst hann hafde oss hann einusinne giefed/þvi skyllde hann þa ecke giefa oss alla Nlute med honum/ Rom. 8. Til hvers gaf hann Soned? Til þess/ ad þr sem a hann trydu skylldu ecke fyrerfarast/ þ er/ ad þeim ecke skyllde verda skipad fra Guds Domstoole i eilijfan Elld/sem fyrerbuenn er Diaflenu og ollu hans Arum. Nefde Gud giort oss ad Kvikendum Jardar og Vinnudyru / og læted oss svo ut af Nockna eins og Fienadarens Anda/ þa voru þad gorod Kiør hia þvi ad

pynast

þÿnast eilÿflega i Helvÿte/ en hñ hefur eñ þa betur til vor giört/ þar aller þr s a hñs Son trua skulu hafa eilÿft Lÿf/ þ er Oendanlega Dÿrd arvist z Sælu m3 hm̄ og i hm̄/ fra eirnre Eilÿfd til aldarar. Hvør vill þa fa Ordū adkomed/ hvilÿk Guds Ast oz er veitt i hölldtekiu Drottens? Vier vitū aller hvilÿk Byrde ad er Guds H. Løgmaal/ og hvørt ad sie Straff þeirra er Løgmaaled briota/ þad seiger oss Moyses/ Deut. 27. med svo skielfelegū Ordū / ad jafnvel þeim mætte ofbioda sm̄ vita ad þr eru fra Løgmaalsins Bølvan frelsader / og er þ þo ei nema lÿmañ legt Volæde sm̄ hñ uppreiknar svo eg vil seigia/ ad sa sm̄ heyrde Løgmaaled z þss Vidløgur/ z ætte sier ecke Lausnar Von fra þss Bølvan/ hñ være ad miklu Leike i Helvÿte / jafnvel hier a Jørdunne / z hefde ei nockra Roo um̄ eitt Augnablik. Eñ hvad seiger Paulus/ Gal. 4. ? Þegar Tÿmans Uppfylling kom/ sende Gud Son sitt giördañ af Kvinnu / Løgmaalenu undergiefeñ/ so hñ leyste þa sm̄ under Løgmaalenu voru/ uppa þ vier ødludumst Barna Riettenn. Nær skiede þad? A hñs Gietnadar Deige/ Eñ hvad miked oss sie i þvi veitt/ skiliū vier best/ ef vier hugleidū hvilÿkur Munur sie þss/ ad vera Samarfe Jesu Christi/ og so hiñs/ ad vera Þræll Løgmaalsins hier i Lÿfe / og so Fange Satans i ødrū Heime. I einu Orde ad seigia/ allar Lÿfs z Saalar Heill er/ sem Guds Børn þyggia af Drottne/ þær eru oss i þvi Augnablike veittar/ er JEsus var getenn i Meyar Lÿfe. Eingeñ fegre Sol hefur yfer Heimeñ skyned eñ su/ þegar Sool Riettlætesins Mal. 4. upprañ oss syndugū Mønnū i hennar Kvide. Vier vorū nidursøkter i Afgruñ herfelegustu Synda og Volædis / oss vantade þa sem riette oss eirn Streing til ad upprÿckia oss ur þssu Diupe. Þrñ-þætter Streingur kitnar torvelldlega seiger hiñ Vÿse/ Ecc. 4. Þesse streingur var Drottenn Jesus af Lÿkama/ Saalu og Guddoomenū samañspunneñ/ hñ var ofañlaaten i Synder vors Holldz/ med hm̄ hefur Guds megtuge Armleggur rÿckt oss ut af Vallde Myrkrañna/ Oss vantade eina Fæorn þa er tæke z Gude ad gillda / hana var ecke ad fa hia oss Mønnū/ eirn Brooder kunne ecke añañ ad leysa/ Ps. 49. og þott Gud hefde skapad eirn heilagañ Mañ af Adams Nidiū / og lated hñ lÿda/ þa nade hñ

samt bæde til ad giefa utstaded hinar bitru Helvijtis Pijslir/ so og til ad fullnægia Gude fyrer Syndena/ þvi er Gud Madur vordenn/ so Gudoomurenn hialpade Manndoomenum til ad þola Pijslernar/ og giora Lausnar giallded dijrmætt og gillt i Auglite hinns stranga Domara: Enn Manndoomurenn Gude (ef eg mä so ad Orde komast) til ad deya. Vier þurf sum einhvørs Sættmaala vid/ til Stadfestingar þeim Fride er Gud giørde vid Mannkyned. Sia Gud er Madur vordenn/ hann hefur trulofad sier vora Nattúru i Meyarennar Kvide: Med þijsum Teingdum er Fridurenn stadfestur mille Himens og Jardar/ mille Guds og Manna/ mille Riettlætesins og Mijskunarennar. Vær þurftum nockurskonar Veg til Himensins/ hvadann vier utlæger vorum. Gud er Madur vordenn/ hann er Vegurenn/ Sannleikurenn og Lijfed/ Joh. 14. Hann er Jacobs Stige sem nær fra Jordu allt til Himens/ Gen. 28. þvi hann er ofannkomenn af Himne i vort auma Holld/ enn vort Holld er uppnumed/ Fiollenn eru læckud/ Dalerner eru uppfyllder/ Esa. 40. Himenenn hefur læckad sig allt til Jardar/ Jordenn er upphafenn allt til Himna/ Og umm þennann Jacobs Stiga munu Einglar a sijdann bera Saaler vorar i Abrahams Skaut/ til ad fagna þar Eilijflega. Vier vorum Gude mørg tiju þusund Punda skyllduger/ Matth. 18. þar lä ecke annad fyrer oss enn ad verda kastader i hin ytstu Myrkur. Eingenn hafde þad hann giallda skyllde/ þvi er Gud Madur vordenn. Faderenn gaf oss eirn rijkann Brodur sem eirn gallt fyrer alla. Ad sijdustu villde Gud ecke einasta frelsa oss af Myrkranna Vallde i Helvijte/ helldur og hefia oss til Rijkis i Himnenum/ Enn oss vantade Roksemd og Skial til þess/ ad hann villde so giora. Hanns Giæska var alltijd til reidu i fra Upphafe Veralldar/ jaa/ ædur enn Grundvollur Veralldarennar var lagdur. Enn þad var ad ugga/ ad vier mundum giora hana Ondtka a oss fyrer Vantruarennar Saker. þad var ecke lijklegt ad eirn Glæpafullur Landraada Madur/ eirn Spillvirke/ sem alla reidu hafde Snoruna umm Haalsenn og utleid til Gaalgans/ hann munde ætla ad Konungurenn munde hann aptur kalla fra Gaalganum til Rijkis/ ur Boduls Hondunum til sijns Nabords/ og giora hann Attleiding af Utlaga/ sitt Barn af Diofulsins Þræl/ og

þā

ſiñ Þienara af Drottens Svikara. Þess vegna er Gud Madur
vorden/ þar fyrer hefur hañ giefed oss þ Teikn/er hñ hiet ad giefa a
Døgum Achas Konungs/Esa.7. um̃ hvørt ad gietur i þessa Næ-
kᷓdes Dags veniulegum Pistle/þar so stendur: Fyrer þa Skulld mun
DRottenn giefa ydur eitt Teikn Sia þu ad ein Jomfru mun Barn
gieta/og eitt Son fæda/ og hñ mun hun kalla Immanuel/þad er Gud
med oss/Gud i Mañenum og Orded i Holldenu/þad er JEsus/Lausn
are/Frelsare/ Saaluhiaalpare/ þvi so kañe eingeñ ad heita nema Gud
bygge i hønum. Þetta er nu fullkomeñ Vissa um̃ Saatt vora vid
Gud/sa oss reidur var/þvi hafe hañ giefed oss hañ i hvørium hønum
alleina velþocknast / Matth. 3. og ofurselt hañ i Daudans Pijsler
til ad forlijka oss vid sialfañ sig/ Rom.5. þegar vier eñ þa vorum hñs
Ovinner. Hvørneñ kuñum vier þa ad efast um̃ Uppgiøf vorra Syn
da? Mun hañ kasta þeim i eilijfañ Elld sem a hañs Nafn trua/er
hañ took so nærre sier ad giefa oss? Mun hañ tilreikna þeim Synd-
ernar/hvørra Synder hñs Eingietenn Sonur hefur burtu bored/ Joh.
1. nær vier ydrunst þra af Hiarta? Mun hñ klaga oss fyrer þa Hand-
skriftena sem hñ hefur alla reidu a Krossenn neglt? Col. 2. Fiærre sie
þ Fødur Myskunsemdarña: Og þsse er nu sa gledelege Bodskapureñ er
eg i Undverdu hiet um̃ ad tala. O eitt fagnadarsamlegt Ord/O eitt
sañkallad Evangelium/ O eitt æskelegt Fridarbod / med hvøriu Heil-
sañ verdur frambodeñ hinũ Veika/Uppgiøfeñ hinum Seka/Lausneñ
hinũ Herteknu/Frelsed Þrælunũ/Lijfed hinũ Dauda/og þm̃ sm̃ einkis
Von attu nema eilijfra Kvala i Helvijte / med Dioflenũ og øllũ hñs
Arum/ eilijf Sæla / eilijfur Føgnudur og eilijft Samneyte/ med hiñe
haaleitu Guddomsins Þrenningu og heiløgũ Englũ i hiñe himneskũ Je
rusalem/hvørrar Sool og Tungl ad Gud er/ Apoc.21. og hvar eingeñ
Umskipte eru Lioossens nie Myrkursins/ Jac.1. Þessarar Tignar/
þessarar Dijrdar og þessarar Full-Sælu / un̄ þu oss nioot ande
ad verda goode Gud / fyrer Aarnan og Forþienustu
þijns Eingietens Sonar JEsu Christi vors
Frelsara / A M E N.

# A Palma Suñudag.

## Gudspialled stendur a hiñ Fyrsta Suñudag i Advenku.

## Exordium.

VJer høfum øngvañ Konung nema Keysarañ / søgdu Gydingar Fordum Daga / Joh. 19. þa þeir villdu ecke láta Konung Dyrdareñar rijkia yfer sier / Luc. 19. Eñ eg hyckest vita ad Christner Meñ müne ecke samsiña þeim Ogudlega Flock / þvi jafnvel þott vier eigum Gude ad þacka fyrer Konunga vora / er hañ sett hefur til ad stiorna sijnu Fóolke / sierdeilis vier / er hañ hefur Millda og Riettvijsa Konunga giefed Eirn epter Añañ / þa vitum vier þo ad Gud hefur sett siñ Konung yfer sitt heilaga Fiall Zion / Ps. 2. hvørs Rijke ecke er af þessum Heime / Joh. 18. Og þo er hañ Heimsins Skapare / Heb. 1. hvørs Herradæme ad bra fyrer synduga Meñ um Stundarsaker / til ad uppfylla Spadoom Zacharie / Cap. 9. þegar hañ reid iñ til Jerusalem / eñ hañs Rijkis Stooll varer þo um Allder Allda / Heb. 1. Yfer Høfdingiar stiorna med Magt og miklu Vellde / Veroslldeñ er svo skipud / ad ecke verdur ødru ækomed / Eñ Christur i sijnu Nadar Rijke stiornar med sijnu H. Orde og Sacramentunum / þvi seiger Paulus / 2. Cor. 10. Vopn Herferdar vorrar eru ecke Lijkamleg / helldur Kraptur Guds til ad niðurbriota Gyrdingarnar. Veralldleger Herrar taka Skatt af sijnum þegnum / Matth. 17. Og er þad Riettvijst / þvi þesse vor Konungur hefur þad skipad / eñ hañ giefur øllum allt og upplykur siña milldu Hende / til ad sedia allar lifande Skiepnur / Ps. 145. DRottiñ sagde vid Petrum: Veralldleger Konungar / hvørt taka þeir Skatt af sijnum Børnum ellegar af añarlegum? Eñ Petur svarade: Af Añarlegum. Og vor HErra sagde: Þa eru Børneñ frij / Matth. 17. Eñ þad geingur ødruvijse til i Guds Rijke / hier tekur Konungureñ Skatt af sijnum Børnum / sem þo er ecke Gull nie Silfur / helldur Harmþrungeñ og Sundurknosadur Ande. Fordum Daga mätte eingi eñ mæta Persaña Konunge / nema hañ Offrade hønum einhvørre Gäfu / og ef Boonde nockur vard a Veige fyrer einum af þeim / hafde hañ þad ecke til er hañ kiñe ad bioode / Eñ i þessi Raadleise took hañ Vatn i Lofum sier og færde Konungenum / og seigia Meñ þad hafe vered vel þegged. Vier mætum vorum Konunge Daglega / þvi allañ Dageñ utbreider hañ siñ Fadm til vor / Esa. 65. Ecker høfum vier þad vier kuñum ad bioda þessum Allsherjar DRottne / Blood Uxaña og Hafraña þocknast hønum ecke / Ps. 50. Allt Sylfur og Gull er hañs / jafnvel vor bestu Verk eru eins og Vidlaga Fat / Es. 64. Gudrækeleg Taar Vorra Augna og þad Vatn sem ybrande Maña Høfud eru full af / Eirn audmiukur Ande og litelatt Hiarta er hañs Offur / Ps. 51. Betur lykar hønum um Foota kvottur hiñar Bersyndugu eñ Heimbod Simonar / Luc. 7. Betur Mariu Audmyke i Hiartanu / helldur eñ Umsorgun Marthe i Husenu / Luc. 10. Hiñ beiske Grätur Peturs / Matth. 26. helldur eñ Offur Vitringaña / Matth. 2. þott hvørutveggia være þacknæmelegt. Hin besta þegnskyllda Guds af Møñunum er þetta / og Truñ sem verkar fyrer Kiærleikañ / Gal. 5. Eg

þesse Konungur svo Mattugur sem hañ er / Svo prydelegur sem hañ er / Svo Alvalldur sm hañ er / Svo Ríkskurgkar sem hañ er / Þa er hañ þo til vor komm eñ Hoogvær sitiande a Asnu einē. Hafe nu Konungur Dyrdarskar vered svo Hoogvær fyrer vora Skulld / þa lætum oss ganga nær Guðspiallẽ þessu / og læra nockud af hønum sem er Hoogvær og ad Hiarta Lytelatur / Matth. 11. Þad er hina Andlegu Hoogværd sem oss a ad fylgia til i Himnarijke med Smaa Børnunum / Matth. 18. Og um hana vil eg tala fyrer ydrum Kiærleika út af þessu H. Evangelio. Hvar til oss styrke hin Almattuge Gud i JEsu Nafne / Amen.

# Utleggingen.

FAre þier i þad Kauptun sem gagnvart ydur er / z strax munud þier Finna Asnu Bundna Og Folañ Hia Henne / seiger DRottenn. Af þessu er audsied / ad hñ visse alla Hlute / og ef hñ var Alvitur / þa var hñ og Almættugur / Allstadar nalægur og Omælanlegur / þvi Guddomsins Eigenlegleikar meiga ecke adskiliast / hvar fyrer vier skulum ad oll Fylling Guddomsins hefur bued i hønum Lykamlega / Col. 2. Hvad mangt eru nu aller daudleger Meñ fra svoddañ Hæfigne Ad sønnu hefur Gud lagt miked til margra / z þar verdur ecke a mote sagt / ad Madurenn er hin ypparlegasta Skiepna Guds ō vier sium med vorū Augū / eñ þ hefur Jesus fram yfer alla adra / ad hñ er bæde Gud og Madur. Hvilijkt er þa þta Oumrædelega Lytelæte ad hñ ō oll Dyr a Jordunne skapad hefur / hñ virder sig so Lytels ad sitia a einu Asna / sem er eitt hid audvirdelegasta Kvikende medal Dyrana. sia hier / christeñ Madur / hvad lytels verd ad sie Hoffrægs Veralldarestar i Guds dyrdarfulla Auglite. Hier er ecke Pharaonis Vagn ō Joseph var i fluttur / Gen. 41. Ecke Mardochei Hestur sm Ahasverus skipade hm ad ryda a synu heidurs Deige / Est. 6. Ecke hin Elldlege Vagn z Hestar ō færdu Eliam til Himna / 2. Reg. 2. helldur eirn lytelmooklegur Asne / Þo skaker eirn syndugur Ormur sig af Buningenu / og af þvi Yferlæte er hñ hl. ous utañ a sig. Þad er allvyda ad sia i Æfesogu Drottens / hvad lytels hñ hefur meted Oflæte Veralldarestar. Hñ var fæddur i einu Skalle / Luc. 2. hñ for a Fæte þegar hñ gieck um kryng / giørde gott z grædde alla / Act. 10. Hñ rydur hier einu Asna / z hygg eg þ hafe þo vered hid mesta hñs Yferlæte hier a Jordunne. Þeink nu um syndugur Madur / hvilyka Smaña þ sie / ad metnast i Hiarta synu þo Gud láte einhvørn Kynnas

 þryde

Prydde Veralldar Þssarar/ ecke seige eg/ ad Gude mishockneſt Lykamlegt Hreinlæte eda fagur Bunadur i siælfum sier/ þegar þau sameblooda þess Virdingu er hvilykt brukar / langt helldur meina eg / ad Gud hafe ongvañ Mishocka a þvi þott hañs Skiepnum sie halldet til Prydis/ þad syner mier Aronis Buningur/ Exod. 28. þad vottar Sættmaals Verkeñ og Nædarstolleñ / Exod. 25. þad syner Jerusalems Mustere/ 1. Reg. 6. þad syner Salomon med allre siñe Dyrd / 1. Reg. 10. hvørre i Ritninguñe hroosad verdur / eñ hitt seige eg/ ad stæra sig þar af/ þad er Andstygd fyrer Gude. Ecke true eg ad hønum hafe illa lykad su Bygging er Nebucadnezar liet giøra i Babylon/ eñ fyrer þvi hañ stærde sig þar af/ þa vard hønum giefed Villudyrsu Niarka/ so hañ aat Gras med Kvikendum a Mørkeñe/ Dan. 4. Ecke hefur Gud reidst vid Herodem af þvi hañ var Maalsniallur/ þvi siálfur hafde hañ hønum Maalfæred giefed/ eñ Søkum þess ad hañ gaf ecke Gude Dyrdena/ þa var hañ sleigeñ af Eingle Drottens/ Act. 12. Kañ skie ad Gud hefde læted Hvalfiskeñ i Ægyptalande vera kyrrañ i synu Vatne / hefde hañ ecke sagt: Mitt Vatn er mitt / og eg hefe giørt mier þad/ Ezech. 29. Ecke er vyst ad hañ hefde sett Krookeñ i Zenacheribs Naser/ hefde hñ ecke lastad Nafn Drottens. Þesse er hiñ Riettlæte Domur hiñs Alvalda Konungs/ ad Drabmlætū hrinder hñ af Stole/ eñ Lytelætū giefur hñ Nad/ Luc. 1. Betra er ad audmykiast med hinū Hogværu / eñ ad utskipta Herfange med þm̄ Drambsomu / seiger Salomon/ Prov. 16. Hvar af audsied er/ ad þo Gud hefde miked til hñs lagt/ og upphafed hñ a Stol syns Fødurs/ og giørt hñ vegsamlegre/ bæde ad Vite og Rykdoome/ helldur eñ adra Konunga i Austurvælfuñe a hñs Døgū/ 1. Reg. 10. þa hefur hñ kañast vid/ ad hñ hefde þad allt þegged og ecke teked af sialfū sier. Svo var og David hñs Fader lyndur / hvørs Audmyktar merkelegt Dæme vier høfū i añarar Sam. B. 6. Cap. þegar Drottningeñ Michol brixlade hm̄ med þessū Ordū: Hvørsu vegsamlegur var Konungureñ af Jsrael i Dag/ hvør ed afklæddest fyrer Ambættū Þienara siña/ og liet nakeñ sem Fantar? Eñ hñ svarade: Eg vil leika ꝧ Drottne þm̄ sm̄ utvalde mig/ helldur eñ

eñ þiñ Fødur og hełdur eñ allt hỹns Hus/ og hefur skipad mig Nøfd-ingia yfer Drottens Folk Jsrael/ og eg vil eñ nu mikie verda/ og eg vil lỹtelacka mig i mỹnu Auglite/ og vegsamast med þeim Ambꝍttunū/ sem þu talader um. Ad eg tale ecke um̄ Abraham/ Jacob/ Moysen/ Josa-phat/ Ezechiam og adra fleire/ hvorier aller voru af Gude med mikellre Tign sæmder/ og hia Audmykt i Andanū er þo hrosed i Ritningunne. Gud nade oss/ hvad høfū vier ad stæra oss af synduger Meñ? Er ecke Madureñ ein Vatnsboola/ hvør þo ad þioote upp um̄ Stundarsaker af Vinde Luckūnar/ þa hiadnar hun jafnskiott aptur/ þegar hiñ same a hana blæs. Er ecke allt Hold Hey? Og allur þess Neilagleike/ lỹka svo sem Bloomstur Akursins? Grased visnade og Bloomstred datt af/ þviad Ande Drottens blies a þad. Sañarlega er allt Folked Hey: Grased visnade/ og Bloomstred datt nidur/ eñ Ord Drottens var er Eilỹflega/ Es. 40. Hier er eingeñ undañteken/ rỹkur eda fatækur/ Gøfugur eda u-gøfugur/ Smær edur Stoor/ Vitur eda Vankuñande/ Þræll edur Herra/ og þetta eru Guds Ord/ hvør æfenlega vara/ er oss þetta seigia: Lꝍte þvi eingeñ ofurdꝍmt ad sialfum sier/ þvi allt hvad vier høfum/ hvad gott edur Kostulegt sem þad er/ þad er þo alltsamañ Lꝍns-Fie/ og ecke vort eiged. Seiged mier/ hvar af skylldu Meñ þo stæ-ta sig? Af Aud og Rỹkedæme? Þvi skyllde eg hroka mier upp af þvi sem Luckañ kañ eins ad giefa einū Nydinge/ so sem besta Mañe/ sem ablad er med mikellre Ahyggiu a mørgū Arū/ eñ fargast i einu Augnablike/ ef til vill. Þvi skal eg giøra mig storañ/ þott eg hafe eirn Omaga med-ferdis/ sem eg hlỹt alltyd ad þrælka fyrer/ og so er Opacklatur og O-tiettvỹs/ ad hañ sedur alldrei sỹna Fyrervinnu? Vilium vier athuga V. M. af hvøriu flester eru i Fyrstuñe rỹker vorder: Flester munu þr vera/ sem Natturañ hefur hialpad þar til ad ølluLeite/ edur hra eittsam-añ Erfide/ med hvørtu Gud hefur skipad ad næra sig af Jørduñe/ Gen. 3. Eg vænte ad so hafe flester audgast/ ad þr eda þra Forfedur hafe teked nockud rangnlega fra ødrū. Eñ seiged mier/ er þ Riettvỹst ad Meñ stære sig upp yfer einhvørn af þvi/ ad hỹns Forfedur hafa teked no-ckud fra hiñs Forfedrū? Eingū Mañe mun þad þykia/ þegar Meñ gæ-

ad hvorneñ Nlutureñ er i sialfſi ſier/eda hvad er nu frammveiges ad ſtæ-
ra ſig af ? Eru þad Vitsmuner ? Jg medkieñe ad þeir eru hiñ koſtu
legaſte Nlutur ſem Gud hefur lagt til ſyndugra Maña/ eñ þo eru þeir
fallvallter eins og añad/ Og hvad lytid er þad vier vitum / hia þvi
ſem vier ecke vitum? Madureñ veit ecke ſiñ Geſſ edur Gaungu/ ſeig-
er Ritningeñ / Og hvørſu vill hañ þo meira vita ? og þott ad þeir
ſieu i ſialfum ſier gooder / þa verda þeir þo af vorre Misbrukun opt-
lega ſkodder/ allramest af Drambſemeñe. Rielt giørde Gud/ ſo ſem
alla Nlute/ i þvi hañ gaf Nebucadnezar Villudyrs Nıarta/ Dan. 4.
ſem adur er ſagt / og ſama ætla eg þa hende / ſem forſmaa adra hia
ſialfum ſier / og þykiaſt einerſamañ vita alla Nlute / hvad þa optaſt
hender/ſem miñſt vita/og þa þeir þykiaſt øllum hyggnare/verda þeir
Skiptingum heimſkare. Margur Gortare hefur og ſtært ſig af
Nreyſte Lykamans/glæfande ecke ad þvi/ad lytell Kville kañ ad ſvipta
Mañeñ ſinu Able. Sumer hrooſa ſier af Fegurd Lykamans / og er
hun ad ſøñu agiætur Nlutur/ þa hun ecke er brukud til Lauſlætis ed-
ur Ofmetnadar / eñ einſamañ er hun Agiætis lytil / þvi Madur kañ
ad maala eitt Bylæte fagurt/og er þad þo ecke ſo gott/ſem hiñ lioot-
aſte Madur. Nvad er nu frammveiges verdt ad ſtæra ſig af ? Dygd-
er og Mañkoſter eru meſt verder af øllum þeim Nlutum/ſem fiñaſt
hia Daudlegū Møñū / eñ þr verda ad Okoſtū þegar Dramblætid þær
ſpiller. Þvi ſeiger Salomon/ Vanvirdañ eptlerfylger hinū Stoor-
laata/eñ hiñ ſm er lytelaatur i Anda/mun Vegſemdeñ umfadma/Prov.
29. Lytelæted er fegurſta Skart Dygdañа/an þeſſ verdur Framſyneñ
ad Vndeſferle/Rietlætid ad Nardidge/Nugprydeñ ad Ofdirfſku/Spar
ſemeñ ad Nyſku/ Jeg meina hid Chriſtelega Lytelæte/ſm er eirn aud-
mıukur Ande fyrer Gude/ z kañaſt vid z þecker þ/ad Meñ eru Meñ z
Mañlegum Tilfellum undervorpner. Sia Þiñ KONungur Kiem-
ur Til Þyn NOOgvær/ſeiger Texteñ. Ef Konungur Dyrdareñar
Pſ. 24. ſvo Lytelæckar ſig fyrer oſſ ſyndugum Møñum/ þvi ſkylldū
vier ſynduger Meñ ſtæra oſſ upp yfer vorū Brædrū, Drotteñ Nimins
og Jardar kiemur til vor aumra Maña/ ſm eckert tøkū med oſſ i þeñ-
añ

að Heim/og munū eckert i burtu bera/1. Tim. 6. Hit Fegursta medal
Mañaña Sona/Ps. 45. kiemur til vor/sm fra Hvirfle z allt til Ylia
erū ecke nema Saar/Beniar og Þrote/Esa. 1. Latū oss þ til Hiarta
ganga/ hvad stoor Munur ad er vor og hns/ Vier erū þr ed styggdu/
hñ er sa sm misgiort var a moote/ hñ þarf ecke vor med/ eñ vier kuñ-
um ecke eitt Augnablik ad lifa fyrer utañ hns Myskun. Latū vort
Hiarta komast vid af þvi/ ad hañ er siukur af Elsku/ Cant. 2. ofañ
til vor komeñ/ þegar vier hñ hofudū. Ef vorar Synder ecke angra
oss / ef vier hrædunst ecke þeirra Straff / þa latū þo þañ Dum̄ræde-
lega Elskuñar Bruna smellta vort Hiarta/ad hñ kiemur nu so mikille
Noogvard inn til Jerusalem / til ad lata sig Kvelia og Krossfesta fyrer
mynar z þynar Synder/christeñ Madur. Hñ grætur yfer Borgeñe/
hvorrar Jñbyggendur ad ecke þe[illegible] tu siñ Vitiunar Tyma/Luc. 19. af
hvoriū hñ visse þo ad hñ munde so Hmduglega utleikeñ verda / sem
hns Pijslar Saga volkar. Fyrst hñ hefur nu allt þetta utied fyrer oss
synduga Jardar-Madka/þa latū oss giora þ hñ oss skipad hefur/8 er/
ad læra af hm̄ hina sonu Noogvard sm Gud ælskur / giørande eckert
af Kapp edur fyrer Hiegooma Dyrd, helldur af Lijtelæte/hafande hvor
añañ sier i Virdingū ædre/ Phil. 2. Audsynū og vort Lytelæte i Verk
unū/so ad bæde Gud z Meñ siae ad vier leggiū ecke of mikla Virding
a sialfa oss. Drotteñ sagde til Lærisveinaña i þssu Evangelio/þegar
hñ skipade þm̄ ad taka Ósnuna: EF Einhvør SEiger NOckud
Til Ydar / þa SEiged Ad HErrañ HAfe ÞEirra Þorf. Allt
Valld hafde Jesus/bæde a Himne z Jordu/þvi alla Hlute hafde Fad
ereñ lagt i Sonarens Hendur/Matth. 28. þvi synest ad þ hefde ecke
vered umfram̄ hns Rad/ þott hñ hefde teked þta Dyr ad fornspurdū
Eigandanū/þo villde hñ þad ecke giora/uppa þ hñ synde oss hvørneñ
vier eigū hvør vid añañ ad breyta. Eñ hvad giora sumer af oss? þyk-
er oss þ mikels verdt ad giora Lytelmagnañ fornspurdañ/ad þm̄ Hlutū
er vier eignast villū? Mun Jessabel virda fyrer sier ad leita Liugvitna i
moote Naboth/og lata grijta hñ sydañ i Hel/þegar Achab vill eign-
ast hns Vyngard? 1. Reg. 21. O Gud giæfe ecke væte þvilijt Dæme hia

oss/ þott Meñ rædest þess miña i/ sem vier höfum Valldeð miña helldur
eñ Achab hafde. Ad sönnu er skyckanlega og lijtelæta Vmgeingne ecke
ad lasta: Hun kañ ecke so ad kallast Dygd/ so sem Dygdaña Formaul-
ur/ og margur hefur sa hana til ad bera/ sem ecke hefur sialfar/ Dygd-
eirnar/ og med heñe hafa sumer tekeð allt fra öllum/ eñ þo er ecke hid
saña Lijtelæte i þvi innefaled ad taka Hatteñ af fyrer Mönnum / jafn-
vel þo þad sie ecke lastande i sialfu sier. Vtvortis og Innvortis Lijt-
telæte/ er ad sönnu hvorttveggia gott / eñ skule añarshvörs miñ vera /
þa villda eg helldur ad Hattureñ sæte fyrer a Höfdenu / helldur eñ ad
Aumingians Kioll være rifeñ af hñs Kroppe/ so ad Gud klagade mig
ecke sidañ ad eg stelle fram i Pantsettu Klædum i hñs Huse/ Amos.
2. Vier heyrum i Gudspiallenu/ ad margt af Folkenu sem epterfylgde
Lausnaranum/ HAfe BReidt Sijn KLæde a VEigeñ / Eñ ADrer
HOggved KVist Af TRiænum Þad var stoort Audmyktar Merk-
ke af þessu Foolke/ og eg veit ad þier/ christner Meñ/ villdud hid sama
giora / ef þier mættud hañs Nalægdar nioota. Eñ tru mier til/
ad hañ er ecke so langt i burtu/ sem þu hyggur/ þvi hañ hefur sagt:
Eg vil vera hia ydur allt til Enda Veralldar/ Matth. 28. Og ef
þar eckert añad er/ þa eru þar nooger Kladkyssingiar/ sem hañ kall-
ar sijna Lime / þad eru sañer Olmusu Meñ: Breidum vor Klæde a
Veigeñ fyrer þa / so ad þeir ecke i Klædleyse ut af deye / sem ad bera
Teikn JEsu Christi a sijnum Lijkama/ og eru epter hañs Myndskap-
ader/ so vel sem vier adrer/ sem betre Raad höfum/ þa offrum vier hinu
sañarlega Lijtelæte / og latum Gud sia ad vier þyktumst ecke upp yfer
þeim sem hañ hefur miña tillagt. Christur vill ecke lata luka sier
einungis med Ordum / helldur med Verke og Sañleika / Eph. 2. ecke
helldur sijnum Limum/ þvi hañ er Safnadarens Höfud/ Rom. 12. eñ
vier erum hvor añars Limur. Þar mun koma sa Dagur ad sagt
mun verda til þeirra sem hafa medteked Guds Voläda i hñs Nafne/
þegar Christur mun i añad Siñ inrijda til Jerusalem/ þad er til siñ-
ar Christelegrar Kyrkiu/ ecke gratande svo sem nu/ helldur med Magt
og myklu Vellde/ þegar Höfud-Eingelsins Ludur mun gialla yfer þeim

sem

Matth. 25. til ad draga sialfa oss upp ur Fene Syndaña/ til ad slöckva Bæl Syndaña sm Diøfullen hefur upptendrad i Hiarta vorn/ til þss kollu vier ad alltijd sie nogur Tyme/ eins z hefdu vier Feste Brief/ af Guds uppa Lijfdagana. Pier vited hvad St. Paull seiger/ Gal. 5. Holld sins Verk eru opeñber / sm eru Hoordomur / Saurlijfe/ Ohreinleike/ Lausung/ Skurgoda Dyrkan/ Fiølkinge/ Fiandskapur/ Prætur/ Kapp-girne/ Prætkan/ Sundurþycktia / Flockadrættur/ Ofund/ Mañdrap/ Ofdryckia/ Ofneisla/ og þessu lijkt/ hvad eg seige ydur ꝥ og hefe ædur sagt/ ad þr ed þvijlijkt giøra/ erfa ecke Guds Rijke/ seiger hñ. Nu hafa aller af oss framed eitthvert af þssu edur þvilijku / kañske leingst Allo urs lijns/ z sumer ecke eñ nu aflæted/ eñ vier vitũ ecke nær sagt verdur: Pu Dære/ a Pssare Nottu muñu þr þijna Sæl fra þier taka/ Luc. 12. og sumer fæ einga Advørun. Ecke kastar Daudeñ øllũ fyrst i Bana-Sængena. Margur deyr so hñ sier ecke Daudañ fyrer Augum sier. I einu Augnabragde/ i Svefne / midt i Syndunñ kipper hñ sumum i burtu/ Eñ þu veist ecke hvad hellst af þssu ad þier mune ætlad. Seig mier þa i Guds Nafne/ seig mier/ er þar alltijd noogur Tijme til ad ydrast? er ꝥ vikurlegt ad draga sijna Vmboot undañ i Trauste laungra Lijfdaga/ eins z hefdu vier giørt Sættmæla vid Daudañ? Vor Dauda stund er alltijd/ þvi skyllde vor Ydrunarstund alltijd vera/ þu seiger / þad tekst mier ecke/ þvi medañ eg syndga giet eg ecke ydrast/ ꝥ er satt / þvi Ydraneñ kiemur ecke fyrr eñ epter Syndena / Gud giæfe ad hun kiæme þo jafnañ strax ad heñe drygdre/ og mundum vier sialldnar synd ga/ fyrst þvi verdur ecke ækomed ad vier hugsum til þess nær Syndeñ grijpur oss/ hvad beiskt Ydran þar verde a epter ad fylgia ef Syndeñ æ ad verda oss fyrergiefeñ. Gud giæfe vier villdũ giøra eins og Dufa Noa/ Gen. 8. Hun flaug ut og kom aptur strax med eiñ Oliu-Kvist i Muñenũ sem var Fridar Merke. Gud giæfe seige eg ad vier villdum eins giøra þegar vier fliugum ut af Guds Ørk med syndsamlegu At-hæfe/ ad vier villdum þa hverfa strax aptur i Ørkena/ og fridmælast vid Gud/ og ecke lijkiast Hrafnenum er alldrei kom aptur/ Gen. 8. Br. M. So leinge sem vier erum i Syndunũ / so leinge erum vier under

 Guds

Guds Reide/ Joh. 3. So leinge vier erum Ydrunar lifum / erum vier
under Satans Vallde/Act.26. Vitstola man sa vera sem þetta vill
eiga yfer Høfde sier: Enn Gud frambbydur sijna Myskunseme med þeim
Skilmala/i Dag i Dag medann þu heyrer mijna Rødd þá forherd ecke
þitt Hiarta/ Ps.95. Diøfullenn heiter oss og Guds Myskunseme med
þessu Skilyrde: A Morgun/ A Morgun/ enn ádur enn þesse Morgun
kiemur/þa kant þu ad vera uppvaknadur i Helvijte ꝛ Kvølunum. Esau
kom seint med Brædena/þvi for hann a Mis vid Blessanena/ Gen. 27.
Pharao þuste epter Israel ut i Hafed rauda/Exod.14. enn villde flijta
sier aptur til sama Lands er Gioorenn gein yfer Høfde hans/enn þad var
þa allt um seinna. O þu syndug Manneskia þu sem meinar ad þar sie
alltijd nogur Tijme til ad ydrast/ þeink a þetta Dæme/Ef þu geingur
Ottalaust áfram i hinu rauda Hafe blodugra Synda og Illgiørda/og
þeinker alldrei til Apturhvarfs/hvad veitst þu nær Guds Reide Flood
steipest yfer þig/ad þier Ovørum/ so þu geter ecke aptur snued. Spar
ed Tijmann seiger Paulus/Eph.5. Þegar vier høfum miked ad sijsla
Br. M. er oss þyker áliggia/þa køllum vier hvern Tijma/hvert Augna
blik ad vera dijrmætt. O seiged mier/liggur oss a nockrum Hlut so miøg
sem ad komast i Sátt vid hinn Almáttuga/ þo latum vier oss so lijted
þar um ant vera. Ef nockur slepper godu Tækefære til ad framkvæma
einhvern Hlut sier til Gagnsmuna/ þa hlæum vier ad hønum/ef vier ecke
hyrdum um hann / aumkum hann og ætlum ef hann er vor Vinur / hende
þad oss sialfa/þa ydrumst vier epter/enn Diøfullenn hlær ad oss ad vier
forsoomum ad taka a moote Guds Giøf medann hun er fyrer Høndum.
Margt kalla Menn Heimsku i Verølldenne/ ꝛ hver af oss hlær ad ødrum/
enn eingenn er þvilijkur Daraskapur sem sa er oss marga hender/ þad er ad
skioota Ydranenne a Frest. Hann er syndgar i þvi Trauste ad hann mune
gamall verda/ hann er lijkur þeim er brijtur Skip sitt i þeirre Von ad hann
mune komast til Lands a Flaka einum. Eg hefe ádur sagt ad Synden
verde ecke fyrergiefenn nema ad Ydranenn ad nockru Leite sambiode henne/
hverium Deige næger sijn Plaaning seiger Endurlausnarenn/Matth.6.
Munde þad ecke verda oss noogu þungt ad ydrast a hveriu Kvollde fyrer

hvers

hvers Dags Synder / ef vier hefdum þeirra Registur vel uppskrifad i Hiartanu? Þott ecke skrifum vier þui a frest Dag epter Dag / Aar epter Aar / Mun ecke þesse Byrde verda nockud þung um sider? Sa sem er ordinn hardur og a ad vinna Dags-Verk / ef hann forsoomar framann af Deiginum / mun hann ecke þess betur meiga herda a sier þegar hann tekur til Verksins? Sa sem hefur i Ungdomenum lijtels aglad Syndena / mun ecke Ydranen verda honum þess þyngre i Elleñe ef hann a Guds Rijke ad erfa? Vier vitum ecke hvad gamall David var þegar hann sagde ad Synd ernar væru sier of þung Byrde vordnar / Hvad mundu þær ecke vorded hafa hefde hann dreiged þær undann allt til Daudans. Eingenn er sa af oss ad hann legge hinar þyngstu Klyfiar a hinn veikasta Eyk / og þo viljum vier kasta allra vorra Lijfdaga Syndum uppa vorn Hrygg þegar vier erum so Ellemooder / ad vier hofum noog ad bera sialfa oss. O hversu vijslega var þad þui giort af David? er hann beidde Gud ad taka sig ecke giallda sinna Ungdoms Synda / Ps. 25. Eitt Sar er hægast ad græda medann þad er nijtt. So er og Syndenn / hun verdur best læknud ad ferskum Giørninge. A morgnana taka Menn Læknisdom inn a toomann Maga. Ydranenn er Lækning Syndarennar / sem þier hana Barn mitt a Morgne þijns Alldurs / medann þu fullhraustur ert / þeink a þinn Skapara i Ungdome þijnum adur enn þeir vondu Dagarner koma / og þu seiger / Þad lijkar mier ecke / Eccl. 12. Paulus skipar oss ad krossfesta Holdet / Gal. 5. Enn þad er lijtill Kross fyrer hinn gamla Adam ad banna honum þad sem hann giefur ecke haft Skiemtan af leingur / þad er ad vijsu ad offra Gude þui hallta og lamada / Mal. 1. og mæla honum med Mæler hins Framanda / enn Fiandanum med Israels Mæler. Þyrm Elle þinne ef þu kannt hennar ad bijda / z bijder þu ecke / þa munt þu finna ad þu hefur einganu Skada nær Kvølld þinnar Æfe kiemur / þott þad sie um Middeige þijns Alldurs edur jafnvel fyrr. Veit eg ad Gud hefur mørgum snued a sijnum gomlum Alldre / enn under þui er ecke ad eiga / þott hann sie Myskunsamur / hann hefur alldrei lofad ad læta þann kasta Ellebelgnum til ad ydrast / sem alldrei þeinker til ad afklædast hinum gamla Adam medann hann fullhraustur var. Þu giører mig ungann aptur so sem einn Ørn / seiger David.

David : Ps.103. Þad er man Efa þess vegna/ ad David endurnýade sýna Ydran Daglega. Eru ecke Tolf Stunder i Deigenum? Seiger Endurlausnaren/ Joh.11. Eg heyre Vijngardz Herrañ liet Verkamen leigia um̃ elleftu Stund/ Matth.20. eñ sýdar ecke. Veit eg ad Gud hefur morgum i Andlaatenu myskunad/ og hñ myskunar øllum sem hñs Naadar leita/ eñ þau munu Dæmen færre vera/ ad sa hafe snued sier af Hiarta til Guds i Andlaatenu/ sm̃ hñ forsmaad hefur alla Æfe sýna. Spamadurenn seiger i Textanum: LEited DRottens medañ hañ er ad finna/ kalled a hañ medañ hañ er Nalægur/ so sem giøre hñ Raad fyrer þvi / ad su Tijd kuñe ad koma/ ad hñ lææte sig eñ leingur finna/ ad hñ ville ecke framar vera Nalægur/ ad hñ ville ecke heyra þoft vier margfalader sieum / og ut breidum hendar Hendur vorar/ Es.1. ad hñ iñeloke sig i einu Skye sem eingeñ Bæn kiemst i gegnum/ so sem Jeremias ad Orde kiemst. Thren. 3. O Guds Børn/ lætum oss / lætum oss ecke bijda epter þeirre Tijd/ hver veit nær hun er? Hver veit nær Mæler Syndaña er uppfylltur? Hver veit nær Hofud-Eingelsins Ludur kvedur vid i Skyum Himens? Snued ydur þvi til Drottens Vnger og Gamler/ Rijker og Fataæker/ Bollduger og Vesæler/ þa mun hñ myskuna oss/ og til Guds vors/ þvi hia honum er mikel Fyrergiefning. Eingeñ Hlutur er hm̃ Omættugur/ Luc.1. So er og eingeñ Mæler hñs Myskunar/ fra hñs Kniam hefur eingeñ synndande fared/ sm̃ hñs leitad hefur med Angre og Trega. So fliott sm̃ David jaatade Afgiørd sýna/ so fliott liet Drotteñ seigia hm̃/ Gud hefur þýna Synd i burt teked/ 2.Sam.12. Manasses stynur ecke fyrr i Bøndunũ/ 2.Par.33. eñ ad hñs Misgiørder eru fyrergiefnar i Himnenũ. Miñ Herra JEsu/ þu sagder Fordũ vid Simon/ Luc. 7. þeim sm̃ lijted er fyrergiefed/ hñ elskar lijted. Herra/ þar er eingeñ af oss sm̃ hier liggũ a þiñe Footskør ꝫ lijted er fyrergiefed. Morg Tiju Þusund Punda eru oss uppgiefeñ hiñi verstu Skullda Þrioottũ. Herra/ ef þ er mogulegt/ þa gief oss ad vier elskũ so miked/ sem oss er tilgiefed. Vier erũ forkapader Syner/ sm̃ hofũ sooad vorre Fødurleyfd / eñ leitum þo aptur til Fødur Husa/ Luc.15. Drotteñ þu hefur rutted a Veg ꝥ oss/

og breidt ut þiñ Fadm a moote oss/ þu hefur mætt oss a midre Leid og teked fagnande i moote oss/ Laat oss þvi alldrei gleyma / og alldrei verda i so fraleitt Siñe ofergiefna/ ad vier hverfū burt aptur til ad eta Draf med Svijnū/ helldur ad oss smackest so þijnar Vister/ þijner Vxar og aled Fie/ Luc. 14. er þu tilreider oss hier i Naadeñe/ ad vier meigū sitia til Bords med Abraham/ Isaac og Jacob i Dijrdeñe/ Matth. 8.

Bænheyr þad goode Gud fyrer JEsu Christi Forþienustu / Amen.

## Fioorda Suñudag epter Paaska.

Gudspialled/ Joh. 16. Cap

JEsus sagde til sijna Lærisveina : Nu fer eg til hans sem mig sende / og eingeñ af ydur spyr mig ad / hvert fer þu ? Helldur af þvi ad eg talade þetta til ydar / þa uppfylltest ydar Hiarta af Hrygd. Eñ eg seige ydur þo Sañleikeñ / ad þad batar ydur/ ad eg fare hiedañ. Þvi ef ad eg fer ei i burt hiedañ/ þa kiemur eige Huggareñ til ydar. Eñ ef eg fer i burt hiedañ / mun eg senda hañ til ydar. Og þa ed hañ kiemur / straffar hañ Heimeñ um Syndena/ og um Riettlæted/ og um Doomeñ. Um Syndena/ af þvi þeir trudu ecke a mig. Eñ um Riettlæted / þviad eg fer til Fødursins/ og epter þad sienē þier mig ecke. Eñ um Doomeñ/ þvi ad Høfdinge þessa Heims er dæmdur. Eg hefe eñ nu margt ad seigia ydur/ eñ þier kuñed ecke ad siñe ad bera þad. Eñ nær ed sa Sañleikans Andeñ kiemur / þa mun hañ kieña ydur allañ Sañleik / þviad hañ talar ecke af sialfum sier / helldur hvad hañ heyrde / þad talar hañ / og hvad epterkomande er / þad kuñgiører hañ ydur / hañ same mun og auglijsa mig / þviad af mijnu mun hañ þad taka og kuñgiøra ydur. Allt hvad hellst Fadereñ hefur/ þad er mitt. Þar fyrer sagde eg ydur/ ad af mijnu mun hañ þad taka/ og kuñgiøra ydur.

## Exordium.

EG mun bidia miñ Fødur seiger Endurlausnareñ / Joh. 14. Og hañ mun senda ydur Eiñ añañ Talsmañ / hañ er blijfe hia ydur Eilijfliga / Anda Sañleiksins / hvern Heimureñ kañ eige meðteked / þvi hañ sier hañ ecke / og þecker hañ ecke / eñ þier þecked hañ / þvi hañ mun blijfa hia ydur og i ydur

vera. Lærefveinar HErrans voru Sorgbitner af þvi ad hañ sagde þeim fyrer sijna Burtfør til Fødursins / Joh. 16. So sem vier strax heyrdum af Evangelio. Eñ til þess ad þeir skylldu ecke allt Ofmiøg sturlast þar af / þa gaf hañ þeim þetta blessada Fyrerheit / hvert hañ efnde strax epter sijna HimnaføR / þa hañ sende Heilagañ Anda yfer þa med miklum Krapte og Undrunum / Act. 2. er fylgde þeim æ sijdañ i øllum þeirra Embættis Vtrettingum / Og kañ hinne Þridiu Guddoomsins Persoonu eckert Huggunarsamligra Nafn ad giefast eñ þetta / ad hañ sie vor Tals-Madur / Rom. 8. Þvi ef Gud er med oss / hver er þa a moote oss? seiger Postuleñ. Eñ ad H. Ande sie Gud / ber Skyrneñ vor lioosast Vitne um / þoott eige være þar til øñur Røk / þar vier verdum i hans Nafne skyrder æsamt Fødur og Sonar / Matth. 28. Hañ er vor Tals-Madur i Hørmungunum / þvi hañ kieñer oss ad fyrer þær byrie oss iñ ad gaanga i Guds Ryke / Act. 14. Vor Tals-Madur i vorum Veikleika / þvi hañ ber vorum Anda Vitne um ad vier sieum Guds Børn / Rom. 8. Vor Tals-Madur hiaa Gude / þvi hañ bidur fyrer oss med Oumræddelegum Andvørpunum: Vor Tals-Madur i þvi ad undervijsa oss / þvi hañ leider oss i allañ Sañleika: Vor Tals-Madur i Eptersemdeñe er oss optliga hender / Søkum vors Ovrdugleika / þvi hañ er Pantur vorrar Arfleifdar / Eph. 1. Eñ so sem þad ad Einum Tals-Mañe heyrer ecke alleina til ad forsvara og afsaka hañ er hañ ad sier tekur / og Hughreysta hañ og undervijsa hverneg hañ skule haga sier fyrer Doomaranum edur synum Herra / helldur og er þad hans Embætte / ad moot standa hans Ovinum / og ad sañfæra þa sem a moote mæla / So er þad og Heilags Anda Verk / ecke alleinasta ad hugga Guds Børn / og leida þau i allañ Sañleika / helldur og ad straffa og byrgia Muñ a þeirra Ovinum. Þetta Embætte H. Anda er innifaled i þeim Ordum / er Guds Sonur talar hier i Evangelio / ad hañ mune straffa Heimeñ um Syndena og um Riettlæted og um Doomeñ: Og fyrer þvi ad þau þykia ecke so audskileñ / Þa vil eg lata þad vera Jñtak miñar Einfalldrar Rædu i þetta Siñ / ad vtskijra þau. DRotteñ hiaalpe þar til med Naad sijns Anda i JEsu Nafne / Amen.

## Vtleggingen.

NÆr hañ kiemur mun hañ straffa / edur Sañfæra Heimeñ um Syndena / seiger Endurlausnareñ. Eingeñ Efe er a þvi B. M. ad þtta M ad skiliast um hina stooru Vantruareñar Synd / hver ed drecknade i Heimenum framar Veniu a Nærvistar Døgum vors Lausnara: Eg seige i Heimenum / þad er i Vantruareñar Børnum / Eph. 2. svo ad bæde Gydingar og Heidingiar voru under þessare Synd / þar Gydingar Oskudu Teikns seiger Paall / 1. Cor. 1. Eñ Gricker (þad eru Heidingiar) leitudu ad Speke / hiner villdu ecke trua nema þr sæe Teikn og Stoormerke / og þoott þeir mørg sæe / Oskudu þeir samt Teikns af Himne. Þesser leitudu ad Speke og meintu ad þr med Naatturuñar Skilninge

feinge

feinge griped hiñ Oraññsakanliga Guddoomsins Dyrdar Ljoma/ sem uppfyller bæde Himen og Jørd/hvernGuds Sonur var sendur til ad op enbera. Eñ fyrer þvi ad hñ vard Gydingñ ad Hneixlan/ eñ Grickiñ ad Heimsku fyrer þeirra Vantruar saker / þa var Heilagur Ande ut sendur til ad sañfæra Heimeñ uñ þeñañ Guds Sañleika. Ad þta so eige ad skiliast/er Deigenñ liosara af Orsøkeñe er Drottenñ fæter hier til/sñ er þsse: Af þvi þr trudu ecke a mig. Hñ talar uñ þta so sñ eiñ undañfareñ Hlut/ eñ þa var allareidu komed ad hañs Burtfør til Fodursins. Nu er þ kuñugt hversu lioser ad voru Spadomarner og Ritningarnar sñ af hñ voru/ hveriar hñ baud þm ad rañsaka/ Joh. 5. samt villdu þr ecke lata hñ drottna yfer sier. Þeirra eigeñ Sende Meñ bæru Vitne uñ ad alldrei hefde nockur Madur talad so sem þsse talade/Joh. 7. Þo søgdu þr ad hñ Gudlastade/þr sau hñs Krapta verk/ og jatudu ad eingeñ kyñe þvilijkt ad giøra/ nema Gud være med honum/ Joh. 3. samt bæru þeir sier þa Ohæfu i Muñ ad hañ være Samverskur og hefde Diøfuleñ/Joh. 8. Þeir høfdu þ Augunñ hñs allra heilagasta Lijferne/þo kølludu þeir hñ Ofneytslu Mañ ꝛ Vijn svelgiara/Vin Tollheimtumaña og Bersyndugra/ Matth. 11. Þeir kuñu ecke ad straffa hñ uñ nockra Synd/Joh. 8. Þo kløgudu þr hñ/ so sñ hañ ed frasnere Folkenu og bañade ad giefa Keysarañ Skatt/ Luc. 23. Þesse var su Gudlausa Vantruareñar Synd sñ Jesus hier uñtalar/ hun verdur og a Stundñ kølllud Synd i Ritninguñe framar ødrum Syndum. Vñ Jeroboam stendur vijda i Kongaña Bookum/ ad hañ hafe komed Jsrael til ad syndga/ 1. Reg. 12. Þad er til Vantru ar og Afguda Dyrkanar ꝛ ef þier værud blinder(seiger Lausnareñ vid Gydinga)þa hefdud þier ecke Synd/eñ nu þar þier seiged vier sioum/ þa blijfur ydar Synd / Joh. 9. Hvar eige kañ añad meint ad vera eñ Synd Vantruareñar/þvi þ utañ hana høfdu þeir þo margar Synder / Ja / þesse er su hrædelega Synd er hañ uñtalar/Joh. 15. 22. 24. Hefde eg ecke komed ꝛ talad til þra þa hefdu þr ecke Synd/eñ nu hafa þr ecke þ þeir kuñe ad skyla Synd siñe med/ hvar fyrer miñ HErra ꝛ þvi hefde þsse eina Synd i butu vered/ þa hefdu allar hinar afmædar

 ordeð.

orded. Ja en aptur / hefda eg ecke giort þau Verk a medal þeirra sem einginn kan ad giora / þa hefdu þr ecke Synd / en nu hafa þr sied þau / z hata bæde mig og minn Fødur / þta er su stora Vantruarennar Synd sem øllum ødrum framar Synd kallast i Ritningunne / hvar fyrer? þviad medan hun blyfur / blyfa allar adrar. Lækning Sælarennar og allra vorra Meina er alleina su Forlykun sem Jesus giort hefur er hann bar vorar Synder uppa Tried / 1. Pet. 2. Hver sem þvi ecke truer / þann vill Drottenn ad H. Ande sannfære / þviad med þvi ad trua riettelega a hann / verda allar adrar Synder i burtu teknar / vill hann þviad Heimurenn verde sannfærdur um þessa einu Synd / þviad þ hana eina verda allar hinar bundnar og apturhalldnar / þad giorer Jesus bert / Joh. 3. seigiande: Sa sem ecke truer / hann er þegar dæmdur / z aptur seiger hann i sama Cap. Sa sem ecke truer Synenum / hann mun ecke sia Lyfed / helldur blyfur Guds Reide yfer honum / Ja enn framar / Ef þier ecke trued þvi ad eg sie / þa munud þier deya i ydar Syndum / þad er / ad eg sie Ljoos Heimsins / so sem hann hafde skømmu ædur um sig vitnad / Joh. 8. Sianed hier Br. M. ad Vantruenn er ein Høfud Synd / og øllum ødrum meire. Og er nu audsært hier af / ad hun er su Synd er DRottenn umtalar hier i Evangelio / og þott ecke være annad til Vitnis hier um / þa eru þau Vndur og Stoormerke er H. Ande byrte med sinn Guddoms Krapt und er eins og Sakleyse / Almætte og Guddoóm Christi / strax epter hans Himnafør / til ad sannfæra Heimenn um þessa skielfelegu Vantruarennar Synd / edur hvad syuest ydur um hina miklu Raust er kom af Himne so sem þiootande Stormvidres / og fyllte upp Hused þar Postularner inne voru / um þær Elldlegu Tungur er settu sig yfer sierhvern þra / um þau adskilianlegu Tungumæl er þr tøludu epterþvi sem H. Ande gaf þeim ut ad tala / Act. 2. Seiger ecke Lucas / ad þr ed þad heyrdu hafe vorded fra sier numder z Toglrader / seigiande hver vid annann: Hvad er þetta? Hvad virdest ydur um hina fyrstu Predikun St. Peturs / er hann giorde i sama Sinne? Hverneg hann sagde þeim ad JEsus af Nazareth hefde ødlast Anda Fyrerheitesins af Fødurnum og uthellt þvi er þeir þa sau og heyrdu / og hverneg ad þr skæmust i sinum Hiørtum er þeir heyrdu þetta

og ſøgdu: Gooder Brædur/ hvad ſkulū vier giøra/ſeiged mier/Var ecke þta ad ſañfæra þa um̄ hina hrædelegu Synd/ ad þeir høfdu ecke tru• ad hm̄/ helldur Kroſſfeſtu Høfdingia Lyfſins? Ad eg tale ecke um̄ øll þau Vndur og Jardteikner er fylgdu Chriſtne•Bodenu i þa Daga/ſo ad hiner Grim̄u Heidingiar ſem voru aan Guds i Heimenum / Eph. 2. Geingu Drottne til Handa og medtoku hñs Vitnisburd. Þvi hroſar Paall/ſeigiande: Eg hefe allt fra Jeruſalem og þar um̄ kring allt til Illyricum fullkomnad Evangeliū Chriſti/Rom.15. Nu þott ad þta ſie eigenleg Meining Lauſnarans i þeſſū Ordum ſm̄ nu hefe eg ſagt og ſynt med nockrum Røkum/þa eigū vier þo ad vita/Br. M. ad þta Embætte H. Anda nær einig til vor/þvi Frelſaren ſagde vid þa/ ad þeſſe H. Ande ſkyllde vera hia þm̄ Æfenlega/Joh. 14. En þr eru fyrer laungu komner til Hvildar Drottens/ſamt hefur Gud ecke yfer giefed ſijna Chriſtne/þvi eigū vier eñ nu ad leita ad hm̄ i hñs H. Orde ſm̄ i fyrſtuñe var predikad ad hm̄ ſamverkanda og ſtyrkianda med eptt erfylgiande Tæknū/ſeiger Marcus/Marc.16. H. verk hñ er eñ nu ecke vidſkila ordeñ. O hverſu værū vier ſaavijſer ad þeckia Syndena nema H. Ande ſañfærde oſſ þar um̄ i Guds Orde/jaa eñ þa epter þ vier høf um lært vorn Chriſtendoom i Barnalærdoomenū/þa køllū vier margt þ Syndlauſt ad vera ſem þo er ein fordæmanleg Synd þ Gude / ef hñ vill i Dom vid oſſ ganga/og þar ad auke þa maa þ kuñugt vera/hver• ſu ad Chriſtendomenū er almenneliga haattad Mana a medal/ þ ſumer kalla ſig vel Chriſtna ef þr trua a Gud/z þvi ad Chriſtur hafe þijnſt fyrer Synder Heimſins. En St. Jacob helldur þ laangtum ødruvijſe/ þar hñ ſeiger: Ad Truen ſie daud aan Verkaña/Jac.2. Nu ef ſu Tru er daud ſm̄ ad ecke verkar fyrer Kiærleikañ/Gal.5. ſo ſm̄ Paulus giør er Raad fyrer hiñe ſømu Tru/ er þ þa ecke Vantru? Jaa i Sañleika / hun er Vantruñe verre/þvi ſu Tru af hverre Madureñ alleina þecker Gud/og veit ad hañ er bæde goodur/ og þo under eins Rietlaatur / eñ forſmaaer þo hñs Vilia og ecke aaſtundar ad læra hñ/ſo hñ ad minſta koſte þeckia meige hvad langt ad hñ ſie fra þvi ad hñ giete hm̄ fullnæ giu giort/hun hialpar meir til ad fordæma eiñ helldr eñ Saaluhoolpeñ

ad giøra/ þviad Dioflarner trua þvi eirneg ₇ skielfast þar af seiger S. Jacob/ Jac. 2. Eñ seiged mier/ hvar a holldlegur Madur ad fa slijka Þeckingu nema hañ sañfærdur sie þar um̃ af H. Anda? Petur seiger til Safnadaña i Asia: Þier fórud aller villt sem Sauder/ eñ nu erud þier um̃hverfder til Hyrders og Biskups Saalna ydar/ 1. Pet. 2. Med honum tekur Paulus under/ seigiande: Þier vorud Myrkur til forna/ eñ nu erud þier Lios i Drottne/ Eph. 5. Hvar þ. munde þad skie nema þ Verkan H. Anda sem kioo i Ordenu og straffade Heimeñ um̃ Syndena. Holld og Blod hefur ecke opeñberad þier þetta sagde Drotteñ vid Petur/ helldur miñ Fader sem er a Himnum/ Matth. 16. og hid sama ma eg seigia um̃ Þeckingu Syndareñar. Fyrer Guds Anda erum vier Endurfædder i Skirneñe/ Joh. 3. Endurnyader i Hugskotum vorum. Hañ skapar i oss nytt Hiarta/ Ps. 51. Hañ leider oss til JEsum Christum/ an hvers vier feingium ecke til hañs komest/ so at vier medkieñum i hiñe þridiu Grein vorrar Truarjatningar/ eñ hvar med giører hañ þetta? An Efa i fyrstuñe med Þeckingu Syndareñar. Seiged mier/ hvert er þ Offred sem Gude þocknast? Er þ ecke harmþrungeñ ₇ sundurknosadur Ande? sem David seiger/ Ps. 51. Su Saal sem ad hrigg er ut af Stærd Jllskuñar/ ₇ geingur bogeñ og veik/ þau Augu sem þreitt eru / Ein hungrud Saal mun giefa þier Dyrdena ₇ Riettlæted Drotteñ/ seiger Baruch/ Cap. 2. Eñ hvar vilium vier fa þessa Hrygd/ Hver vekur i oss þetta Andlega Hungur? þad giører Ande Drottens med Þeckingu Syndareñar/ bæde i Guds H. Orde og so med sijnum krøptugu Jñvortis Hræringum / þegar hañ dregur þa Skyluna fra Augum Saalareñar sem Andskoteñ hefur heingt þar þ/ ₇ vier siaum hversu vier høfum hiñ gooda Gud til Reide reitt med margra Ara Ohlydne/ ₇ sijner oss under eins Guds Oum̃rædeliga Giasku ₇ Poleñmæde yfer øllu þessu/ sem mørgum þeim hefur ad Skyndingu i burtu kipt/ sem kañske ecke hafa meir syndgad eñ vær. Hvad meined þier Br. M.? Munum vier taka þessar Hugreñingar af sialfum oss? O nei / þvi vier erum ecke megnuger um̃/ af sialfum oss til neitt gott ad hugleida / 2. Cor. 3. auk helldur ad framkvæma/ hvadañ þa/ nema af H. Anda? hver ed sañfærer oss um̃ Syndena. Gydingar høfdu Løgmaled/ af þvi

þecktu

þeckfu þr þo ecke Syndena/ Eige meintu þr ſumerhverier ad illar Hugſaner være Synd/ jafnvel þott Logmaaled ſegde þm/ Þu ſkallt eige gyrnaſt/ Exod. 20. Þar fyrer lijker Drottenn þm vid Grafer Framliddna ſm utan voru prijdelegar/ enn innan fullar af allra handa Opeckt/ Matth. 23. Þeim munde hafa þott þad undarlegt ad ſa ſm reidd- eſt Broodur ſijnum ſkyllde vera Raads ſekur/ Sa ſem lijte eina Konu til ad gyrnaſt hana / hann hefde alla reidu drygt Hoor med henne i ſijnu Hiarta / Matth. 5. Edur ad Madurenn være ſkylldugur til ad giøra þeim gott ſem vid hn misgiører. So mikell er nu Munur Bookſtaf ſins og Andans/ hinn deyder ef hn er einſamann/ þeſſe lijfgar/ enn brukar Logmaaled fyrſt til ad deyda / þad er ad ſundurmeria og kremia Syndar- anum ad hann ſie Dauda ſekur / og þanneg inneluktur Gud alla under O- hlijdneñe/uppa þad hn myſkune øllum/ Rom. 11. Vire þier ecke ad þier erud Muſtere Guds? ſeiger Paulus/ 1. Cor. 3. Eg ætla ad ſo fare beſt Guds Pioonuſtann i þeſſare Kyrkiu/ ad Moiſes hafe Baſſann i Logmaalenu / enn Chriſtur Tenorenn i Evangelio / þvi hinns gooda Hyrders Rauſt mun þo yferkaka og hærra laata enn Moiſis Reidar þruma. Þad er eitt gledelegur Tvijſaungur i Eyrum maddrar Sam- viſſku / og þa ræteſt þad med fullu og øllu er Drottenn ſagde fordum Daga / Guds Ryke er inne hia ydur / Luc. 17. Jafnvel Angred fyrer Syndena er Guds Børnum þeckara enn øll Heimſins Kiæte hanns Son- um/ og þau Taarenn er eitt Syndare feller i Guds Sioonn / þau ſmacka hm betur helldur enn Vijn hinnar flærdu Dalilæ Veralldarennar hennar Fylgiumønnu. Og þvi ſeiger Lauſnarenn hier ſtrax epter / Ad H. Ande mune ſannfæra Heimenn um Riettlæted/ af þvi hn fare til Fødurſins. Chriſtur meinar hier i fyrſtu ſitt eiged Riettlæte & Sakleyſe/ þ hlaut a epter ad fylgia/ þegar Guds Ande hafde ſtraffad Heimenn um þa ſkielfe legu Synd/ ad þr trudu hm ecke/ helldur feſtu hn uppa Gaalgann/ er þr kunna þo ecke ad ſtraffa um nockra Synd/ þa hlaut þ a epter ad fylgia (ſeige eg) ad hann ſannfærde þann ſama Heim um hns Riettlæte ad þeir høfdu Lijfſins Hertoga Kroſſfeſt/ ſo ſem Petur ſagde þm Act. 3. þa kunnu þeir ad ſeigia ad hn være Timburmannſins Sonur/ Matth. 13.

ad þeir þecktu Fødur hans z Moodur / ad hann være Samverskur og hefde Diøfulenn / Joh. 8. Ad hann fyrer Beelzebub Diøfla Høfdingia ræke ut Diøflana / Luc. 11. Þa kunnu þeir ad giefa honum þad ad Dauda-Søk / ad hann kallade sig Konungenn Christum / Luc. 23. Ja / ef hn være Guds Sonur ad hn skyllde stijga ofann af Krossenum / Matth. 27. þa var þad Tijme fyrer þig O þu hinn Gudlause Biskup Caipha ad rijfa þijn Klæde / af þvi hn jatade sig Guds Son ad vera / Matth. 26. Þa var Tijme til alls þessa þegar hann ad sigrudum Dauda / Diøfle og Helvijte / upphafenn yfer alla Himna / hafde sett sig til Kraptarens hægre Handar / og til Vitnisburdar um sitt Almætte / sitt Riettlæte z Dijrdar fulla Hætign sende hinn H. Anda yfer sijna Þiona z Ambætter med stoorum Undrunum og Tæknum / Ja / yfer sijna Fiandmenn og Offsooknara / so ad marger af Kieñemønnunum hlijdnudust Trunne seiger Lucas. Act. 6. Þegar umkomulauser Fiskemenn ræku ut Diøflana / læknudu Siukdoma / Openberudu leynda Hlute sem eingenn Manna kunne ad vita / so sem Ananiæ og Zaphiræ Dæme vitna / Act. 5. Og þetta skiede allt i hns Nafne sem h'ner ædur høfdu kvaled / Hudstrykt og a Gælgann uppheingt mille tveggia Spillvirkia. Med øllum þessum Guddoomlegum Furduverkum sannfærde nu H. Ande Verøldena i þa Daga. Þvi eg fer til Fødursins / seiger Herrann. Þetta hid sama brukade H. Ande þ Munn Peturs til ad sannfæra þa um Christi Riettlæte er heyrdu a Tal hns / Act. 2. er hn vitnar af Spaadoome Davids Konungs um Upprisu og Uppstigning Drottens Jesu / seigiande: Ecke er David uppfarenn i Himenenn / er hn seiger sialfur: Drottenn sagde mijnum Drottne / sit þu mier til hægre Handar / þar til eg legg Ovine þijna til Skara Foota þier. Vite þvi allt Israels Hus þ vijst / ad Gud hefur giørt hn ad Christe og Herra þenna sama Jesum er þier Krossfestud / Og ad þsse sie Meiningenn i Ordum Drottens / vottar þ sm hier epterfylger: Og epter þad siaed þier mig ecke. Ad sønnu saau hn Læresveinarner epter hans Upprisu / enn ecke med sømu Asijnd og ædur / ecke i Þioons Mynd / helldur so sem einn Sigurvegara / ecke so sem þeir saau hann i Grasgardenum bundenn og fiøtradann / helldur Einglunum lijkann / þar hann gieck

gieck jñ ad luktum Dyrū til þra/Joh.20. Ecke so sm̄ eina Bølvan á Krossenñ uppheingdañ/Devt.21. helldur upprisenñ af Daudū/ad Daud añs Þijnu uppleistre. Allt þetta vollade hñs Riettlæte og Saklei se/því þ var Omøgulegt/so sm̄ Petur sagde/ad hñ kynne af Daudanñ halldenñ ad verda/Act.2. Eñ allra helst meinar Drottenñ hier sijna Himnaferd/ ad þeir mundu hñ ecke sia ur því/ ad hñ giørdest fyrer þrꝫ Þijnelegur/og Skyed took hñ burt fra þeirra Augū/ Act.1. Og er nu af þssu øllu Riettlæte Drottens saññevijsad fyrer Vitnisburd H. Anda/sm̄ sam Døgū þar epter kom yfer Postulana med sijnelegū Guds Krapte/so ad þeir Tungur toludu/Diøfla ut ræku/løgdu Hendur yfer Siuka og þeim baknade/ søgdu fyrer Ovordna Hlute/ so sm̄ hñ ad ur fyrer sagde og seiger berlega hier i Gudspiallenu med þessū Ordū: Nær ed sa Sañleiksins Andeñ kiemur / þa mun hañ kieña ydur allañ Sañleik/því hñ talar ecke af sialfū sier/ helldur hvad hañ heyrde/þad talar hñ/z hvad epterkomande er/ þ kuñgiører hñ ydur/hñ same muñ og vegsama mig/því af mijnu mun hñ þ taka og kuñgiøra ydur. Hvad sijnest ydur B. M. Er ecke þvilijkt ad sañfæra Heimeñ um̄ Riettlæte Drottens JEsu? Og af þssu JEsu Christi allra helgasta Riettlæte hænger vort Riettlæte/ eg meina þad oss tilreiknad verdur/því þad er Raunar hñs Riettlæte/og þar fyrer heyrer oss og so til þta Embætte H. Anda eige sijdur eñ þeim sem lifdu a Postulaña Døgum: Og byriar oss hier fyrst ad athuga þau Ord er hañ talade til Læresveinaña / skom̄u sijdar/Joh.16. Jñañ lijtils Tijma munud þier ecke sia mig/og aptur Jñañ lijtils Tijma munud þier sia mig aptur/því eg fer til Fødursins. Af hverium Ordum þad audsært er / ad DRottenñ kallar sijna Þijnu/siñ Dauda/sijna Grepttran z Upprisu i þssū Stad / sijna burtfør til Fødursins/asamt Himnaførslunne. Nu er þad øllum Møñum augliosst/ad Riettlæte syndugs Mañs er i því foolged/ad Christur er fyrer oss dæeñ/upprisenñ z til Himna fareñ. Því seiger z Páll/ad hñ sie dæenñ fyrer vorar Synder/og upprisenñ oss til Riettlætis/Rom.4. Eñ forgiefens være hñ dæenñ og upprisenñ/være hñ ecke til Himna farenñ og setstur til Kraptarens hægre Handar til ad bidia ꝼ oss / hvadañ

hañ

hañ og hefur sent oss sin Anda sa ed Truna i oss verkar/fyrer hveria Madureñ alleina verdur Riettlatur fyrer Gude / Rom. 3. Allt þetta kiener hañ best sialfur med fam Ordum / Luc. 24. er hañ sagde vid Lærefveinana under syna Himnafør: Svo er þad skrifad z svo byriade Christo ad lyda og uppryssa af Daudum a þridia Deige / og predika laata i synu Nafne Ydran z Syndaña Fyrergiefning hia øllū þiodū/ z kiemur þsse Parkur Embættis. H Anda miøg vel samañ vid hiñ fyrra/þviad i Peckingu Syndareñar er Ydraneñ foolgeñ / eñ Riettlæted i Fyrergiefningu Syndaña/og þvi vil eg taka mier hin gledelegu St Pals Ord i Muñ um þetta Efne/ er hñ seiger: Rom. 8. Hver vill aa saka Guds Utvallda? Gud er sa sñ Riettlæter/hver er sa ed fordæmer? Christur er sa sem dæeñ er/Ja / eñ framar uppriseñ/hver eiñig er a hægre Hønd Gude/sa eiñig er Medalgangare fyrer oss. Sie þvi mitt Riettlæte ecke betra eñ nidlags Fat/Es. 64. Guds heilagur Ande hefur sañfært Heimeñ/sañfært Løgmaled/sañfært Diøfuleñ / ja/ sañfært myna angrada z sturlada Samvitsku/sñ klagar mig um Fiollda miña Synda Daglega/hñ hefur sañfært þau seige eg um Jesu Christi Riettlæte/sem vorded er mitt/þvi hañ er Jehova vort Riettlæte/Jer. 23. og bæde mier og øllū stoor Syndurū af Gude giefeñ til Riettlætis/ til Helgunar og eilyfrar Endurlausnar/1. Cor. 1. Hafde Adam forþien ad med hiñe fyrstu Synd ad verda utrekeñ ur Paradys med synu Ranglæte/ hafe hñ lokad heñe aptur epter sier og øllu synu Afkvæme/ Hafe eg hañs syndugur Nidie fylgt høñū epter i Ranglætenu so þar er eckert nema Fordæmañlegt i mier þad eg hefe af hinū fyrra Adam medteked / hvern Lucas kallar Guds Son / Luc. 3. eñ giørde bæde sig og mig og allt sitt Hyske ad Diøfulsins Børnum fyrer Yfertrodsluna/ þa sañfærer þo Guds goodur Ande mig um þ/ ad hiñ eilyfe Guds Sonur/hiñ aññar Adam/sñ er Drotteñ af Himne/ 1. Cor. 15. hver ad hefur Davids Lykil/ og upplykur so eingeñ kañ aptur ad læsa / Apoc. 3. Hañ hefur bæde mier og øllum þeim upploked Ryke Himnaña/sñ med Angre syns Hiarta skryda ad Footū hñs og seigia: Fader/eg hefe syndgast i Himeneñ og fyrer þier / eg em ei verdur ad kallast þiñ Sonur /

giør

giør mig svo sem eitt af þynum Leigu-Mønnum / Luc. 15. Hverier eru mijner Oviner? Hvar eru mijner Aklagendur? Þad er Løgmaaled / þad er Heimurenn / þad er Diøfullenn / þad er mijn eigenn Samvitska / eg Ottast þa ecke / þegar Drottenn er mier Naadugur fyrer mijns Endurlausnara Riettlæte. Þeir eru Bødlar Guds nær hn̄ er reidur / enn þm̄ sm̄ i Jesu Christo er vid hn̄ sættur z kvittur gieta þr eckert Mein unned / ecke Løgmaaled / þvi hn̄ er komenn Løgmaaled upp ad fylla / Matth. 5. Ecke Heimurenn / þvi hn̄ seigest hafa Heimenn sigrad / Joh. 16. Ecke Diøfullenn / þviad Høfdinge þessa Heims er dæmdur / Joh. 14. Ecke mijn Samvitska / þvi Johannes seiger / ef ydar Hiarta fordæmer ydur / þa er þo Gud meire ydar Hiarta / 1. Joh. 3. Og Petur seiger um̄ Skyrnena ad hun sie Sættmaale godrar Samvitsku / 1. Pet. 3. Þott eg hafe hn̄ yfertroded / þa veit eg þo ad hanns Blood er utrunned i Skyrnar Sænn sm̄ mig Overdugann Þræl hefur elskad meir enn sialfann sig. Jesus er bæde Gud og Madur / Guds Eingietenn Sonur og þo Davids Sonur / Matth. 1. Þar sie eg Gud hefur straffad a Gude mijnar Synder / og þann Mann og minn Broodur epter Holldenu / i hvøriu̅ ad byr øll Filling Guddomsins Lykamlega / Col. 2. Hefur hn̄ ad afrekadre minne Endurlausn sett sier til hægre Handar / Þar fyrer giefur hn̄ ecke straffad hn̄s Riettlæte a mier / hvers Ranglæte hn̄ straffade a hm̄ / þegar hn̄ giørdest Bølvan fyrer mijnar Synder / Gal. 3. Sem eilyffa Bølvan forþienad hefe. Gud hefur alldrei unned meira Frægdar Verk / helldur enn þa hann leyste oss synduga Orma ur eilyffu Banne. Ødru̅ sinnum hefur hn̄ ætt ad skipta vid þ sm̄ eckert var / so sm̄ þegar hann giørde Himen og Jørd af eingu Efne / Gen. 1. Edur vid Skiepnur sijnar / so sm̄ þegar hann liet Soolena standa kyrra / Jos. 10. Klauf Hafed i sundur / Exod. 14. Sende Plaagur yfer Egyptaland og annad þvilijkt / enn i vorre Endurlausn ætte hn̄ ad bijta vid sialfann sig og sitt Riettlæte / hveriu eige maa raska / þvi er eg þess fulløruggur / ad hann lætur ecke svoddann Skoorvirke til Onijtes verda a þeim sem treista a Forþienustu hanns Eingietens Sonar þott ad synduger sieu / þviad synduga og ecke Riettlaata er hann komenn ad kalla til Ydranar / Matth. 9. Hvad skulum

Lll vier

vier pa hier til seigia seiger Pall / Rom. 6. Skulum vier dvelia i Syndunum / so ad Naaden yfergnæfe ? Fiarre sie þui. Drotten seiger hier i Gudspiallenu / ad heilagur Ande mune sannfæra Heimenn um Domenn / af þui ad Høfdinge þessa Heims sie dæmdur. Hver ad sie þesse Høfdingie / er audvitad / pad er Satan / hver hinn same kallast Diøfla Høfdinge / Matth. 12. Enn þar fyrer kallast hann so / ad Heimurenn liggur i hinu Vonda / 1. Joh. 5. Enn hann er alls Ills Høfundur / hønum þiona mikell Herskare i Heimenum / allra helst Manneskiann med adskilianlegum Syndum og Glæpum / so ad hann er megtug ur i Børnum Vantruarennar seiger Pall / Eph. 2. pad er i Heimsins Børnum / hann er dæmdur / Tønn fyrer Tønn / Auga fyrer Auga seiger Løg-maled / Lev. 24. Satan var øll Orsøk i þui ad Christur var deiddur / Kvalenn / Hudstrykktur / og matte Helvijtis Pijsler þola / er Synden hafde til unned / Þar fyrer er hann dæmdur til Myrkranna Hleckia eilijflega i Helvijte / 2. Pet. 2. Nu er dæmdur / þ er sigradur og utrekenn / so seig-er Drottenn hia Joh. 12. under sijna Pijnu. Nu er Domur Heimsins / nu mun Høfdinge þessa Heims verda utsnaradur. Þad er alkunugt hverssu ad Satan drottnade i Verølldenne adur enn Jesus kom i Heimenn / iaa / adur enn hann sigrade Diøfulenn a Krossenum / hverssu ad øll Lønd voru full af hinne verstu Afgudadyrkan / z sialfre Gudsþionustu a medal Jsraels Barna hafde hann so spillt / ad þegar hann sem Løgmaled hafde utgiefed kom i Heimenn / hann þeckte ecke Guds Løgmaal hia sijnu Folke / þar þ klagar hann / Marc. 7. seigiande epter Esaja. Þeir dyrka mig forgiefens er þr kienna þann Lærdom sem eru Manna Setningar / þui þier ganged frann hia Guds Bodordum / og hallded Manna Setningar / Þvott Bikara og Kiera / z margt annad þvilijkt giored þier. Enn þegar Guds Ande var uthellt yfer allt Holld / so sem Joel hafde fyrerspaad / Joel. 2. þa urdu hier a snøgg Umskipte / so sem Lucas skrifar i Postulanna Giørningum / 2. So hefur nu DRottenn JEsus utreked Diøfulenn ur sijnu Rijke med Guds Fijngre / Luc. 11. sem er H. Ande / vorden sialfur Høfud alls Høfd-ingiadæmis / og hefur flett hinn sterka Hervopnada øllum sijnum Herklædum a hver hann treiste / Matth. 4. So Diøfullenn hefur sialfur naudugur

bored Vitne um̄ hans Almætte og Guddoms Krapt/ þvi lÿsste hann medal aħara af Musse Skulkunar ſ rak̄ epter þm̄ Pale z hans Forunautū i marga Daga/ og hroopade: Þesser Menn eru Þioonar Guds hins hæd sta sm̄ boda ydur Veg Velferdarennar / Act. 16. Þanneg ak Diøfullenn sialfur ofan i sig allar Gudlastaner sinna Verkfæra. Og þegar þeir fleklu hinn H. og Rieklæla sÿnum Klædum/ og heingdu hann nakenn uppa Tried / þa hefur hann under eins afklædt Høfdingia-Dæmenn og Magtar-Vølldenn / og þau openberlega til Skodunar framleidt / Col. 2. hroosande Sigre yfer þeim a Krossenum. Og um̄ þennan Dom sem nu þanneg er yfer Diøflenum geingenn / sannfærde Guds Heilagur Ande Heimenn / ecke einasta þa Ogudlegu sem mættu þreifa a slÿku/ helldur og alla þa sem hann umsnere til Hlÿdnes Christo og giørde hønum Þioonustu-bundna/og þad sama verkar hann enn nu i Dag i Guds H. Orde/ þegar þad er hreint og klaart/ og med Alvøru nockurre og Røkseme kiendt og predikad/ þvi jafnvel þott ad Diøfullenn sie bundenn / þa lætur hann þo ecke af ad skioota sÿnum Ørvum a Guds Hernþar fyrer Christner Menn/fyrst ad vor Konungur hefur so miked Sig ur unned a Diøflenum/ og so Vegsamlegann Doom yfer hønum feinged / þa lætum oss ecke þa Skøm̄ henda ad vier yfergiefum Hertoga Lÿfsins/ enn gaungum i Sid med Fiandanum aptur/edur þionum hønum framveiges i Syndenne og Ogudlegu Athæfe a moote Samvitskunne / Verū minnuger þess Eids er vier soorū hinū lifanda Gude i Skÿrnenne/ ad vier jætudū hm̄ og øllum hans Stoormerkiū / enn afneitudum Fiandanū og øllum hans Svikū og Vielū. Ecke hefur Guds Sonur þenna dÿra Sigur unned fyrer sialfann sig: Þeirrar hæleitu Guddomsins Þrenngar Oraskanliga Rietklæte var fullnægt þ hina fyrstu Synd Diøfulsins/þegar hann var utsnaradur af Himne. Gud took Riett sinn af hm̄ fyrer sialfann sig i eilÿfum Kvølum/ fyrer oss synduga Orma og Guds Ovine er þesse fræge Sigur unnenn/sÿnu Lÿfe/sinne bitru Kvøl og Dauda hefur hin eilÿfa Giæska til þss kostad ad fæ Herleidinguna ad Herfange teked/Eph. 4. og oss Sigurenn giefed/med þssu dÿrmæta Lausnar gialde hefur hn̄ oss heilagann Anda afrekad / til ad kienna oss ad þeckia Synd-

Syndena/ad þeckia hid saña Riettlæte sm̄ er af Trune/z til ad endur nyia vor Hugskot/so ad vier giætum ef viliū Gude þiionad. Verum þvi eige so Opacklæter edur sialfum oss vonder / ad vier slockvum H. Anda/ 1. Tess. 5. med vssvikande Glæpū og Illgiordū i giegn vorum Frelsara sem oss hefur so dyru Verde keypta/og þar hn̄ hefur uthellt honum i vor Hiortu fyrst i Skyrneñe/sidañ Daglega nalægt i sinu H. Orde/ef vier forsmañ þ ecke/ þa seigiū ecke ad þad sie oss Omøgu legt Gude ad þocknast/ 1. Cor. 3. Þvi hn̄ kañ alla Hlute framar ad giøra eñ vier kuñū ad hugsa edur mæla þar sem hn̄ fiñur goodañ Vil ia. Þad er Slægd Diøfulsens ad hn̄ breiter vid oss eins og þr sm̄ Moi ses giørde fra sier inn i Canaans Land/þr søgdu illa af Landenu/ Num. 13. So breiter og Satan/ hvar sm̄ hn̄ hefur vaned Holldød a sinar Kræsingar/þ eru Skamer og Leste/ad hn̄ kallar þ Omøgulegt Gude ad þocknast/ þar hn̄ sie eiñ strangur Herra sem ad uppskiere þar hn̄ ecke sæde/ Luc. 19. Þad lygur þu Satan/ þvi fyrer utañ þ ad allt hvad vier giørum er ecke utañ Hálfverk sem Postuleñ vottar / 1. Cor. 13. og verdur þad so af Gude þeiged / Þa styrker Andeñ vorn Vanmætt seiger Paulus/Rom. 8. Og hn̄ bregdst alldrei þssū sm̄ bidia um̄ hn̄s Adstod/og allt hvad vier giørum gott/ ef so mætt nockurt heita/af þvi vier giørū/þad er hn̄s Verk i oss/ hn̄ verkar þad ad Guds Bodord eru eige þung/1. Joh. 5. Hvar fyrer? Þviad Elska Guds er uthellt i vorū Hiørtū fyrer H. Anda sm̄ oss er giefeñ/Rom. 5. Hañ giører Christi Ok sætt/og hn̄s Byrde lietta/Matth. 11. Hvar fyrer? Þviad Elskañ til Jesū yfervinnur alla Hlute/og þad er eins og St. Paall seiger: Eg forma alla Hlute þ hn̄ sem mig mattugañ giører Christū/ Phil. 4. I christelegu Lyferne er miklu meire Glede z Unadsemd/jafnvel i þssū Heime/helldur eñ i allskyns Fullsælu Veralldareñar/Eñ ef vier eige til þssa fiñū/þa velldur þ þvi/ad Vane Syndareñar er allt ofrykur i oss vordeñ / Keinū til fyrst og tøkū til ad beriast Kallmañlega / Sinum til hvert vier ei fiñū Adstod H. Anda/og þegar vier fyrer Guds Nad høfū yferunned/ hvad mun alls Efa skiedur ef vier leggiū nockurn Hug a vort Mal/ þa munū vier ecke vilia umskipta þott allur Heimureñ

Bode

Bode være/ og kalla Strydeð lytelsvert hia þeirre Glede er vier fikum i Vinattu Guds/og i godre Samvitsku/en þad mæ eige undandraga christen Madur. Tef ecke ad snua um til DRottens/seiger hin gamle Syrach. 5. Cap. og skioot þat ecke a Frest Dag fra Deige. Giorum oss vidskila Oguðlega Verolld þessa og hennar Athæfe strax sem Andenn kallar til vor af Openberingar Bookenne/seigande: Gangeð ut af henne mitt Folk/ad þier verdeð ecke Hlutkakande i hennar Syndu/og medtakeð af hennar Plagu/Apoc. 18. og þetta lætur Gud a hverium helgum Deige kunngiora fyrer vorl Hyrum. Þegar Loth fordum Daga tafðe ad ganga ut af Sodoma/þa took Eingellenn i Hond honum/og droo hann Nalfneigis Naudugann ut þadann / so ad hann ecke fyndest i Vælenu med odru / Gen. 19. O hversu opt tekur hin Naaduge Gud i Hond vera med Krossenum/ med Epterdæmunu/med hinu straungu Logmaal sins Hootunu/og dregur oss nauduga ut af vondre Verolldu þessare/ad vier ecke fyrerfarumst med henne. Loth beidde Leifis ad hann mætte bua i Zoar sem var nælæg Sodoma/ Gen. 19. en hann tafðe þar ecke leinge/hefur og ecke þorad sokum þess hrædelega Straffs/er kom yfer hinar Borgernar. Slyrt slykt hid sama Barn Guds/þegar þu ert einu sinne fyrer Guds Naad utgeingenn fra Heimenum/sem er riett ein Sodoma/ þa stadnæmst ecke i Nagrenenu/ þad er/ kappkosta ad deyda alldeilis hinar fornu Syrnder/Rek ut Ambattena/ Gal. 4. þad er syndumspillta Nattturu med Syne hennar/ vondu Vana/ad so miklu Leite sem þier er mogulegt. Drep hin gamla Mannenn/so ad Christur meige i þier lifa/ annars er hætt vid/ ad þott Zoar sie lytil/ þa kunne hun ad verda ad Sodoma fyrer Nagrennis Saker / og þig meige aptur langa til Kiotkatlanna i Egyptalande. Og hefe eg nu so talad um þtta þredfallt Embætte N. Anda / hvad eg hygg Guds Orde samhlioda vera/og under þui er falenn allur vor Christenndoomur/sem er i Fyrstu ad þeckia Syndena til ad yðrast. JEsu Christi fullkomna Riettlæte til þess ad trua ad oss verde hun fyrergiefenn. Og Doom Andskotans til þess ad afneita honum og ollu hans Athæfe/ og hanger þetta so hvert af odru/ad ekkert mæ annars missa/ef vor Christenndoomur a fullkomenn.

enn ad vera. Enn þu vor Gud sem rijkur ert af Naad/ kienn þu oss ad þeckia Synder vorar/ og ad ydrast þar af ollu Hiarta/ og nær þu reiser oss a Fætur aptur ur voru Duple og Osku/ med Trunne a þinn Eingietenn Son/ þa giør oss hinar fyrre Synder so leidar/ ad vier styggium vid þeim so sem annare Opeckt / enn kienn oss ad lifa Sparsamlega/ Gudrækelega og Riettferduglega i Heime þessum/ ad vier mættum Ostraffanleger finnast i Tilkomu JEsu Christi vors Fielsara/ og af honum innleidder verda i hid fagnadarsæla Lambsins Brudkaup. Gief oss þar til þinn H. Anda Naduge Fader / fyrer þann sama þinn Eingietenn Son JEsum Christum / AMEN.

# Fimta Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled/ Joh. 16. Cap.

OG JEsus sagde til sinna Lærisveina / Sannlega/ Sannlega seige eg ydur / hvøres hier bidied Fodurenn i mijnu Nafne / þad mun hann giefa ydur. Hingad til hafe þier einskis beded i mijnu Nafne. Bidied/ þa munu þier medtaka/ so ad ydar Fognudur sie fullkomlegur. Þetta hefe eg talad i Ordskvidum til ydar/ sa Tijme kiemur/ ad eg tala eige leingur i Ordskvidum til ydar / helldur mun eg kunngiøra ydur Opennberlega af mijnum Fodur. A þeim Deige munu þier og bidia i mijnu Nafne. Og eige seige eg ydur/ ad eg mune bidia Fodurenn fyrer ydur/ þviad sialfur Faderenn elskar ydur / af þvi þier elsked mig / og trued þad ad eg sie af Gude utgeingenn. Eg em af Fodurnum utgeingenn/ og komenn i þennann Heim. Eg fyrerlæt og aptur þennann Heim/ og fer til Fodursins. Og hanns Lærisveinar seigia þa til hanns: Sia / nu talar þu berlega/ og mæler øngvan Ordskvidu. Nu vitum vier / ad þu veist alla Hlute / og þu þarft eige ad nockur spyrie þig. Fyrer þad truum vier / ad þu sierst af Gude utgeingenn.

## Exordium.

DROTTINN Gud þinn er Eitt Fortærande Elldur sagde Moyses Fordum Daga vid Israels Sonu / Deut. 4. Hvgda mætte Eirn Aumur Syndare þyckia / sem eckert annad giører enn ad forþiena Daudann / ad koma þrammi fyrer sa Dyrdarfullann / sa Ognarligann Gud / hvers Reide ad brenn-

ur

ur yþer þeim ſem hañ hatar allt til nidſta Helvijtis / Devt. 32. Hverneg mun Eitt Hælm:Stra / Ein Vatns:Boola kuña ad bwa vid ſvoddañ eiñ Fortærande Elld / þo ſkulum vier fram fyrer hañ koma / þvi hver vill dyllaſt fyrer hañs Auglite? Nu þeott ad þad Vitañlegt ſie ad vorar Synder adſkille millum vors Guds og vor / Eſa. 59. Þa kroopade þo Fader Myſkunſemdañ: Komed til myñ aller þier ſem Ervided og Þwnga ered hlaader / Eg vil Endurnæra ydur / Matth. 11. Hvar fyrer þeott ad Gud ſie Eiñ Fortærande Elldur / ſem Paulus ad Ordi kiemſt / Hebr. 12. Þa meigum vier lata þad um oſs ſatt ad vera er hañ ſkrifar Gydingum til i ſama Brefe og ſama Cap. Þier erud komner til Fiallſins Zion / og Borgar Guds Lifanda Jeruſalem hiñar Himneſku / og til margra Þuſunda Englañа / af hvertu vier ſiaum hvad mikid oſs er veitt i Chriſto JESV DRottne vorum / ad vier ſem fiærre vorum / hvorra Iedur ad voru æn Guds i Heimenum / Eph. 2. Vier erum fyrer hañ vorder Guds Heima:Meñ / og vor Borgar:Riettur er a Himnum / ſo ſem Paall ſeiger / Phil. 3. Eñ med hvertu Moode faum vier þa Saurugar Mañeſkiur helſt nære komed þeſſum Guddoom ſins Dyrdar:Klooma ſem ad byr i þvi Kioofe ſem eingeñ fær til komeſt / 1. Tim. 6. Þad ſkiedur i hañs H. Orde og Sacramentunum / eñ ecke ſijdſt i eiñe Audmiwkre Chriſtens Mañs Bæn / þar hiñ Veſæle talar vid hiñ Volduga / hiñ Lyfelauſe vid Doomarañ / Þrælleñ vid Herrañ / Eiñ Syndugur Ormur vid Himens og Jardar Skapara / So ſem þa Madur vid Mañ talar og Eiñ Vinur vid añañ / Exod. 33. Hvar eiñ Harmþrongeñ og Sundurkrameñ Aande þreinger ſier i giegnum Skyeñ med Ouñræſlegum Andvørpunum fram fyrer Guds Tignar Stool i Himnenum / og verdur af hønum Bænheyrdur / ſo ad Himnarijke lijdur Ofrijke / Matth. 11. Og til þeſſa Samtals bijdur oſs nu hier i Dag Eingell hiñs mykla Raads / þar hañ ſeiger hier i Gudſpiallenu: Sañlega ſeige eg ydur / Hvers þier bidied Fødureñ i mijnu Nafne / þad mun hañ giefa ydur. Eñ hier er nockur Vande a B. M. ſem er ad vier høgum ſo Bæneñe ad vier ſieum viſſer um Bænheyrſluna / og fiñum til heñar (þvi hañs Fyrerheit bregdaſt alldrei) Og þvi vil eg nu tala nockud þar um a þeſſu Stundarkorne / hverneg Bæneñe eige hættad ad vera / og er ſierdeilis i þvi Tvent ad athuga / Sem er / 1. Ad hun ſie Heit og Alvarleg / 2. Ad hun framkome af Trwudu Hiarta.

Eñ hañ ſem alla Hlute kañ framar ad veita eñ eg kañ fyrer ad mæla / Hañ ſtyrke oſs hier til med Naad ſijns Anda fyrer JEſum Chriſtum / AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞEgar vier vilium offra Gude Bænum voru og Þackargiørdum / þa hugleidum fyrſt allra / hverſu ſkielfelig Nafign þad er / ſem vier komum fyrer / ſem er Konungur Konungañа og DRotteñ DRottnañа / 1. Tim. 6. Sa ad er allrar Verallldareñar Domare / Gen. 18. og i hvers Auguñ ad Himnañа Himnar ecke eru hreiner / Job. 15. So langt er fra þvi / ad nockurt Saurugt meige nærre hm koma / þegar hñ reidur er / eñ vier

eru nu

erum aller so sm̃ sa Ohreine/ seiger Esajas/ 64. Cap. og jafnvel vort Riettlæte er so sm̃ nidlags Fat. Hvad helst sm̃ ad snerter þetta Fiall/ þad skal Dauda deyia/ þar skal eingeñ Hønd snerta þ/ añars skal þad grÿtast edur i Hel skoted verda/ hvert helldur þ er Madur edur Kvikinde sagde DRotteñ fordũ vid Moisen/ under þad hn̄ utgaf sitt H. Lögmaal a Fiallenu Syna/ Exod. 14. So hrædeligt/ so Ognarligt er hañs Tignarvallde þegar hn̄ vill þad syna. Nu villium vier seigia ad hn̄ sie blÿdkadur þ Sonarens Forþienustu sm̃ satt er/ eñ þss er ad giæta Br. M. ad þm̃ einũ mun hañ bÿdlega taka/ sem fyrer Christi Blood fram koma/ eñ þm̃ einũ mun Christi Blod & hñs Forþienusta þar til gagna/ sm̃ heñar leita med Angrædu & sundurknosudu Hiarta. Læt þier þvi til Hugar koma syndugur Madur / þegar þu fellur fram fyrer Gud i þÿnũ Bænastad/ hvilÿkur Hæske þad sie ad koma nærre þessum breñanda Ellde/ nema þu adur so tilreiddur sierd/ ad þu fær hn̄ slocktañ med Tarũ þÿns Hiarta. Þegar þu hefur nu Jhugad hvilÿkur ad Gud sie/ & hversu reidur syndsamligu Athæfe/ þa athuga hvilÿkur ad ert sialfur þu/ Molld & Aska so sm̃ Abraham sagde/ Gen. 18. Gieteñ og fæddur i Syndeñe/ Ps. 51. Og af Natturuñe til Reideñar Barn/ Eph. 2. Ad sonu Endurfæddur i Skÿrneñe þ Christi Blood og Guds Vinur kalladur. Eñ hversu opt hefur þu nu rofed þiñ Skÿrnar Sættmaala/ og ecke loked þÿn Sære hinũ allra Hædsta/ þu hefur vered bueñ til ad giora allt þ s hn̄ hefur bañad/ & nærsta tregur til ad fram̃kvæma þad hn̄ boded hefur/ og hafe Guds Naad verkad nockud gott med þier/ þa hefur þ þo af þiñe Hende vered Ofullkomed/ og gietur eingañ Veg eñ stadest i hñs Auglite sm̃ er fullkomeñ og heilagur/ so langt er fra þvi ad þad meige sambioda þvi illa s þu giört hefur/ edur afplana þad/ þvi þu giorder þo eckert añad eñ þad þu atter ad giora Luc. 17. Og er þo vel ef þad so er/ þegar þu hefur hvad bestur vered/ eñ reikna nu upp med sialfũ þier allt Ydiuleyse i Guds Vÿngarde/ alla Hiegoma þanka/ öll Onytiu Ord fyrer utañ Stoorglæpena/ Ogudlegañ Verknad/ Ord og Hugsaner/ og þott ad Guds Reide & hñs Domur sie eñ nu ecke felldur yfer þÿnar vidurstyggelegar og Klæktafullar Athafner /

þa

